mytiske ganger, som nævnes to gange i Snorra-Edda: „Björn reið Blakki", og „þegn knátti Blakkr bera".

---

## A.

(a: Arnam. 153, g, 6. b: Arnam. 153, h, 10 [kun v. 1].)

1.

Hildibrand á sèr systur í borg,
— í landinu svo víða —
hún var gefin á heiðna torg.
— vel má herinn af Danmörk út ríða.

2.

Hún var gefin og hún var seld:
einum heiðnum greifa á vald.

3.

Fyrsta stýrði hún löndum,
annann sat hún í böndum.

4.

Hrafninn sezt á glugga,
hyggst hann vífið að hugga.

5.

„Eg skal gefa þèr klæðin rauð,
ef krummi linar þú minni nauð."

6.

„Eg hirði ei um þín klæðin rauð,
og ekki lina eg þinni nauð."

7.

„Eg skal gefa þèr klæðin blá,
ef Hildibrand segir þú mína þrá."

8.

„Eg hirði ei um þín klæðin blá,
og ekki segi eg Hildibrand þína þrá."

9.

„Eg skal gefa þèr klæðin græn,
ef krummi gjörir þú mína bæn."

10.

„Eg hirði ei um þín klæðin græn,
og ekki gjöri eg þína bæn."

11.

„Eg skal gefa þèr klæðin brún,
ef þú ber mín boð í tún."

12.

„Eg hirði ei um þín klæðin brún,
og ekki ber eg þín boð í tún."

13.

„Gefðu mèr lifur og lúnga,
að fæða með mína únga."

14.

„Gjarnan, gjarnan skaltu fá,
ef Hildibrand segir þú mína þrá."

15.

Hrafninn flaug svo víða,
þar sem skipin skríða.

16.

Hrafninn sezt á glugga,
hyggst hann vífið að hugga.

17.

„Heill og sæll, Hildibrand, hörpu slær;
í böndum sat þín systir í gær."

18.

Svo var hún blá og blóðug,
sem hún eigi engan bróður."

19.

Hildibrand hrindir borðum fram,
brúni mjöður um gólfið rann.

20.

Hildibrand gengur í hestahús,
sinn brúna gángvara leiddi hann út.

21.

Hildibrand talar hestinn við:
„viltu voga að bera mig?"

22.

„Eg skal gjarnan bera þig,
tala þú aldrei orð við mig."

23.

Hildibrand talar hestinn við:
„sèð hef eg aldrei líkann þinn."

24.

Hesturinn óð með slóðum,
kóngurinn flaut í flóði.

25.

Hesturinn kom á þíngið fram:
þess galt margur velborinn mann.

26.

Hesturinn barði og hesturinn sló,
hundrað manns fyrir fótum dó.

27.

Þjóðbjörg talar hestinn við:
„viltu voga að bera mig?"

28.

„Eg skal gjarnan bera þig,
tala þú aldrei orð við mig."

29.

Hún mynntist við hans fagra munn:
— í landinu svo víða —
svo er hann sannur konúngsson.
— vel má herinn af Danmörk út ríða.

---

B.

(a: kgl. fol., 73. b: G. Ív., 73.)

1.

Hildibrand á sèr systur í borg,
— á mína trú —
hún var gefin á heiðna torg,
— og enn er hún jómfrú.

2.

Hún var gefin og hún var seld:
einum ríka greifa í vald.

3.

Einn dag rèð hún fyrir löndum,
en næstan eptir sat í böndum.

4.

Hljóðbjörg spurði greifa sinn:
„fyrir hvað lætur þú binda mig?"

5.

„Fyrir það læt eg binda þig:
að þú komst ekki mey til mín."

6.

„Það veit guð og hin helga sól:
mey kom eg á brúðarstól.

7.

Það veit guð og hið helga skrín:
mey kom eg í sæng til þín."

8.

Hún leit upp og hún leit fram,
hún sá sèr engan hjálparmann.

9.

Hún leit upp til skýja,
hún leit hrafninn fljúga.

10.

Hrafninn sezt á glugga,
hann mun vífið hugga.

11.

„Eg skal gefa þèr kápu blá,
ef segir þú Hildibrandi frá."

12.

„Gefðu mèr lifur og lúnga
úr honum Þorkeli únga."

13.

„Gef eg þèr allt hvað eg gefa má,
ef segir þú Hildibrandi mína þrá."

14.

Hrafninn flaug svo víða,
þar sem skipin skríða.

15.

Hrafninn sezt á kjallara-stól,
blaktir vængjum og lèzt vera móður.

16.

„Hèr situr þú, Hildibrand, og hörpu slær,
en eg sá þína systur í böndum í gær.

17.

Hún var blá og blóðug,
sem engan ætti hún bróður."

18.

Hildibrand kastar hörpu á gólf,
stukku úr henni strengir tólf.

19.

Hildibrand hrindir borðum fram,
bjór og mjöður um gólfið rann.

20.

Hildibrand gekk til hestahúss,
reiður leiddi hann gángvarann út.

21.

Á bak hann stè og burt hann reið,
myrkvan skóg og lánga leið.

22.

Hann kom þar að kveldi,
sem greifinn stýrði veldi.

23.

„Velkominn Hildibrand, mágur minn,
gakk í höll og drekk hèr vín!"

24.

„Eg vil ekki drekka vín;
hvar er hún Hljóðbjörg, systir mín?"

25.

„Hljóðbjörg situr í búðum
og fæðir sveininn prúða."

26.

„Þó fæði hún tvo og fæði hún þrjá,
eg vil hana með augum sjá."

27.
„Það er ekki karla siður:
að gánga þar inn, sem konur eru fyrir."

28.
Klappar á dyr með lófa sín:
„lúktu upp Hljóðbjörg, systir mín!"

29.
„Eg get ei látið lokur í frá,
járnbönd liggja höndum á."

30.
Fatta hefir hann fíngur og smá,
með listum plokkar hann lokur í frá.

31.
Hann hjó af henni járnbönd,
heyrðist það á önnur lönd.

32.
Það var eina morgunstundu:
greifinn hèkk svo hátt sem hundur.

33.
Þar kom hrafn með krúnki,
— á mína trú —
tók hann lifur og lúngu.
— og enn er hún jómfrú.

---

## C.

(J. Steph., 8.)

1.
Hildibrand á sèr systur í borg,
— á heiðna trú —
hún var gefin á heiðna torg.
— enn er hún jómfrú.

2.

Hún var gefin og hún var seld:
einum ríkum greifa í veld.

3.

Á sunnudag rèð hún fyrir löndum,
á mánudaginn sat hún í böndum.

4.

Sjálf gat Þjóðbjörg svarað fyrir sig:
„fyrir hvað lèztu binda mig?"

5.

"Fyrir það fèkkstu böndin þín:
að þú ei komst mey til mín."

6.

„Það veit guð og helgur andi:
að mey kom eg í þetta land.

7.

Það veit guð og hið helga skrín:
að mey kom eg í sæng til þín."

8.

Þorkell kallar sveina á:
skipar að herða böndin þá.

9.

Hún leit upp og hún leit fram,
sá sèr engan hjálparmann.

10.

Hrafn settist á glugga,
hann mun vífið hugga.

11.

„Heyrðu það, hrafninn brúni!
kanntu veg til Túna?"

12.

„Já góð, já góð, eg kann þann,
eg kann fljúga í hvern einn rann."

13.

„Eg skal skera þèr kyrtil blá,
ef þú ber Hildibrand mína þrá."

14.

„Eg vil ei þinn kyrtil blá,
eg vil ei segja Hildibrand frá."

15.

„Eg skal skera þèr kyrtil rauða,
ef þú segir Hildibrand til nauða."

16.

„Eg vil ei þinn kyrtil rauða,
eg segi ekki til þinna nauða."

17.

„Hvað viltu þá á mig skilja,
ef þú gjörir nú minn vilja?"

18.

„Eg vil lifur og lúngu,
að fæða mína úngu."

19.

„Eigðu lifur og lúnga
úr honum Þorkeli únga!"

20.

Hrafninn flaug á skógana
heila fjóra dagana.

21.

Hrafn settist á stallara-stein,
skekur vængi og hristir bein.

22.

Hrafn settist á könnu-sæti,
svo drengir höfðu af mikla þræti.

23.

„Heyrðu, Hildibrandur, er hörpu slær:
systir þín sat í böndum í gær."

24.

Hildibrand kastar hörpu á gólf,
svo hrukku úr henni strengir tólf.

25.

Hann hljóp þá til hesta út
brúnan gángvara leitar út.

26.

Sjálfur lagði hann söðul á,
enginn stár honum sveinninn hjá.

27.

Sprengdi hann einn og sprengdi hann þrjá,
sjálfur gekk hann eptirá.

28.

Hann kom þar síð að kveldi,
er Þorkell stýrði veldi.

29.

„Velkominn, Hildibrand, mágur minn!
eg hefi blandað þèr bjór og vín."

30.

„Eg vil ei þinn bjór nè vín;
hvar er hún Þjóðbjörg, systir mín?"

31.

„Hún gekk suður til búða,
að fæða sveina prúða."

32.
„Þó fæði hún einn og fæði hún þrjá,
samt vil eg hana með augum sjá."

33.
Hildibrandur um staðinn rann,
dýflissuna fyrir sèr fann.

34.
Klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp fyrir mèr, systir mín!"

35.
„Eg get ei látið lokurnar frá:
járnbönd liggja höndum á."

36.
Hildibrand hleypur dyrnar á,
svo hurðin hrökk í parta þrjá.

37.
Hjó hann af henni fjötur og bönd,
svo heyra mátti í önnur lönd.

38.
Þeir börðust svo daga þrjá,
að Þorkell dauður á grundu lá.

39.
Það var eina morgunstundu,
að Þorkell hèkk sem annar hundur.

40.
Hrafninn fèkk lifur og lúngu
úr honum Þorkel, og túngu.

41.
Systkinin heim svo venda
— á heiðna trú —
með silfur og gullið brennda.
— enn er hún jómfrú.

---

## D.

(Arch. N.)

1.

Hildibrandur á sèr systur í borg,
— sýngur í siglubandi —
hún var gefin á heiðna torg.
— kaldur vindur genginn er burt af landi.

* * *

2.

Greifinn kallar þræla á:
„herðið þið betur böndin á!"

3.

„Hvar fyrir lætur þú binda mig?"
— „Þú komst ekki mey fyrir mig."

4.

Leit hún upp og leit hún fram:
sá hún sèr engan hjálparmann.

5.

Hrafn einn sezt á glugga,
hann vill vífið hugga.

6.

„Eg skal gefa þèr klæðin blá,
ef þú segir Hildibrand mína þrá."

7.

„Eg hugsa ei um þín klæðin blá,
og ekki segi eg Hildibrand þína þrá."

8.

„Eg skal gefa þèr klæðin rauð,
ef þú segir Hildibrand mína nauð."

9.

„Gef mèr lifur og lúnga,
að seðja mína únga."

10.

Svo flaug hrafninn dagana þrjá,
hvergi hann til landa sá.

11.

Hrafn einn sezt á könnu-stól,
baðar vængjum en blès af móð.

12.

„Þú situr hèr, Hildibrandur, og drekkur mjöð og vín:
hún situr í böndunum, hún Hljóðborg systir þín."

13.

Hildibrandur hrindir borðum fram,
bjór og vín um gólfið rann.

14.

Hann gekk sig í hestahús,
brúnan leiddi hann gángvarann út.

15.

Sprengdi hann einn, og sprengdi hann þrjá,
áður [hann] hana Hljóðborgu sá.

16.

Þegar hann kom að borgarhlið,
þá stóð greifinn úti við.

17.

„Velkominn, Hildibrandur, mágur minn,
hèr er í bland[i] mjöður og vín."

18.

„Eg hugsa ei um þinn mjöð og vín,
hvar er hún Hljóðborg, systir mín?"

19.
„[Hljóðborg] hún situr í búðum
og fæðir sveina prúða."

20.
„Þó fæði hún einn og fæði hún þrjá:
samt skal eg hana Hljóðborg sjá."

21.
„Það er ekki sveina siður,
að gánga þar inn sem konur eru fyrir."

22.
Klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp, Hljóðborg, systir mín!"

23.
„Eg læt hèr ei lausar lokur frá:
járnbönd eru mèr höndum á."

24.
Mjúkar hafði hann fingur smá:
með listum kroppaði hann lokurnar frá.

25.
Hjó hann bönd af hennar hönd:
heyrðist hljómur í önnur lönd.

*   *   *

26.
Börðust þeir svo dagana fá,
hjó hann sinn mág í hlutina þrjá.

27.
Þá kom hrafn með únga,
— sýngur í siglubandi —
hann tók lifur og lúnga.
— kaldur vindur genginn er burt af landi.

## E.

(Arnam. 153, e, 26.)

Hildibrand á sèr systur í borg,
— vel má minn gángvarinn söðul bera —
hún var gefin á heiðna torg.
— bitil og þófa, sjálfan mig til hófa.

---

*Overskrift i* **D**: Brot af Hildibrandskvæði.
**A**, *v. 1, l. 1.* systur, *er i* **a** *kendelig en rettelse fra* dóttur, *som også* **b** *har.*
— *v. 16. Dette vers passer ikke her, men står rigtig som v. 4;* **BCD** *have her rigtigere læsemåder.*
**B**, *v. 1, l. 1.* á, **b**: átti. *L. 2.* torg, **b**; **a**: borg.
— *v. 6, l. 2. Sål.* **b**; **a**: meyjan kom ekki á brúðarstól.
— *v. 7, fattes i* **b**.
— *v. 12, l. 1.* lúnga, **b**; **a**: lúngu.
— *v. 13, l. 1.* hvað, **b**: það.
— *v. 29, l. 2.* á, **b**; **a**: að.
**C**, *Omkvæd 2.* enn, *håndskr. to gange:* enn nú.
— *v. 1, l. 2.* á heiðna torg, *håndskr.*: og hún var seld.
— *v. 4, l. 2.* fyrir hvað, *håndskr.*: „firni hver."

---

## 8.

# Riddara Stígs kvæði.

Ridder Stig fór i skov og ristede runer; med höjre hånd skænkede han mjød og vin, med venstre kastede han sine runer. Han agtede at kaste dem på fru Kirstin, men de kom alle under kongens datter Regisses skind. Regisse blev rød som blod; men ridder Stig blegnede; han gik til

sin moder og bad hende om råd i sin vånde. Hun kunde ikke give ham andet råd, end at gå i sin sæng og blive liggende rolig i den, hvad der end monne hænde; ti, sagde hun, om han end sejlede langt bort over havet (egl. til det tredje folks land*)), så måtte og vilde Regisse dog geste ham den kommende nat. Ridder Stig fulgte rådet, og om natten kom da også Regisse og lagde sig ved hans side. Han lå stille, vendt imod væggen.

Hun lagde sin hånd om hans hals og arm:
stille lå ridder Stig, som han var et barn.

Hun minded ham for hans mund så rød:
stille lå ridder Stig, som han var død.

Regisse stod op og forlod ham, uden at han havde givet noget livstegn. Nu bares alt rygtet ind for kongen: ridder Stig sover hos din datter. Kongen sender straks bud efter hende; hun aksler sit skind, går i hallen for sin fader og spör, hvad han vil hende. Kongen beder hende sidde hos og spör, om det er sandt, alt hvad ham er sagt. Regisse svarer:

Ja, vel er det sandt: jeg til ham gik,
men ingen uære jeg af ham fik.

Og hun fortæller nu sin fader alt, som det er tilgået. Da blev kongen glad og sagde:

Og haver han sig så hæderlig holden,
så skal han dig og med hæderen volde.

Og det skal han have, for han var mig tro:
min datter og dertil femten bo.

Og det skal han have, for han var mig huld:
min datter og tolv mark røden guld.

---

*) *Jfr. Danm. gl. folkev. I, ss. 55. 228—29.*

Der var da både glæde og gammen:
ridder Stig og Regisse bleve givne sammen.

---

**Dansk** haves denne vise i en mængde ældre og nyere optegnelser: Abr. nr. 46; Danm. gl. folkev., nr. 76; **svensk** er hidtil kun trykt et brudstykke af den hos Afzel. nr. 53.

---

(**a**: Giss. Sv., 21. **b**: kgl. fol., 21. **c**: G. Ív., 21.)

1.

Riddari Stígur fór á skóga,
ristir hann rúnir nógar.
— Frúin gef oss orðlof.

2.

Skóga,
ristir hann rúnirnar nógar.
Með hægri skenkir hann mjöð og vín,
með vinstri ristir hann rúnirnar sín.

3.

Mjöð og vín,
með vinstri ristir hann rúnirnar sín.
Allar koma þær undir Regisu skinn,
sem hann ætlaði frú Kristín.

4.

Regisu skinn,
sem hann ætlaði frú Kristín.
Roðna tók hún Regisa, rauð sem blóð,
blikna tók hann riddari Stígur, þar eð hann stóð.

5.

Rauð sem blóð,
blikna tók hann riddari Stígur, þar eð hann stóð.

„Kæra mín móðir, kenndu mèr ráð,
mitt líf stár nú í hættlegum voða.

6.

Kenndu mèr ráð
mitt líf stár nú í hættlegum voða."
„Eg kann ei ráðið betra en fyrr:
leggstu í sæng og liggðu þar kyrr!

7.

Betra en fyrr:
leggstu í sæng og liggðu þar kyrr!
Þó þú siglir á þriðja þjóðland,
í nátt gistir Regisa þína sæng.

8.

Á þriðja þjóðland,
í nátt gistir Regisa þína sæng."
Regisa lagðist í sængina niður:
riddari Stígur sneri sèr til veggjar viður.

9.

Í sængina niður:
riddari Stígur sneri sèr til veggjar viður.
Lagði hún hendina yfirum hans arm:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri barn.

10.

Yfirum hans arm:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri barn.
Mynntist hún við hans munn svo reyð:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri deyð.

11.

Munn svo reyð:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri deyð.
Upp stóð hún Regisa strax í stað:
ekki gaf hann riddari Stígur sig við það.

12.

Strax í stað:
ekki gaf hann riddari Stígur sig við það.
Sú kom fregn fyrir kónginn inn:
„riddari Stígur sefur hjá dóttur þín."

13.

Kónginn inn:
„riddari Stígur sefur hjá dóttur þín."
Kóngurinn talar við sveinana sín:
„kallið á hana Regisu, hún komi til mín!"

14.

Sveinana sín:
„kallið á hana Regisu, hún komi til mín!"
Axlar hún yfir sig safalaskinn,
svo gengur hún fyrir föður sinn.

15.

Safalaskinn,
svo gengur hún fyrir föður sinn.
Hægra fæti í höllina stè:
„sittu heill, faðir, hvað viltu mèr?"

16.

Í höllina stè:
„sittu heill, faðir, hvað viltu mèr?"
Kóngurinn klappar í sæti hjá sèr:
„heyrðu það, Regisa, sittu hjá mèr!"

17.

Í sæti hjá sèr:
„heyrðu það, Regisa, sittu hjá mèr!
Er það satt sem mèr er sagt:
að þú hafir ást við riddara Stíg lagt?

18.

Mèr er sagt:
að þú hafir ást við riddara Stíg lagt?"
„Satt var það, eg til hans gekk,
en öngva skömm eg af honum fèkk.

19.

Til hans gekk,
en öngva skömm eg af honum fèkk.
Lagða eg mig í sængina niður:
riddari Stígur sneri sèr til veggjar viður.

20.

Í sængina niður:
riddari Stígur sneri sèr til veggjar viður.
Lagða eg hendina yfirum hans arm:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri barn.

21.

Yfirum hans arm:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri barn.
Mynntist eg við hans munn svo reyð:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri deyð.

22.

Munn svo reyð:
kyrr lá hann riddari Stígur, sem hann væri deyð.
Upp stóð eg þá strax í stað:
ekki gaf hann riddari Stígur sig við það.

23.

Strax í stað:
ekki gaf hann riddari Stígur sig við það."
„Hafi hann þökk fyrir heiðurinn þann!
nú skal hann njóta þín sem velborinn mann.

24.

Heiðurinn þann:
nú skal hann njóta þín sem velborinn mann.
Hafi hann það, því hann var mèr svo trúr:
mína dóttur og fimtán bú.

25.

Var mèr svo trúr:
mína dóttur og fimtán bú.
Hafi hann það, því hann var mèr svo hollur:
mína dóttur og tólf merkur gulls.

26.

Var mèr svo hollur:
mína dóttur og tólf merkur gulls."
Þar var bæði gleði og gaman:
riddari Stígur og Regisa gefin voru saman.
— Frúin gef oss orðlof.

---

*Overskrift.* Kvæði af riddara [*faltes i* **bc**] Stíg og Regisu.
*V. 2, l. 2.* rúnirnar, **bc**: rúnir (*ligeså i l. 4 og dennes gentagelse i næste v.*). *L. 4.* ristir, *burde nok hedde:* kastar (rúnum).
*V. 3, l. 4.* sem hann, **bc**: sem að hann (*i gentagelsen, som* **c** *ganske fattes, har* **b** *intet* að).
*V. 4, l. 4.* blikna tók, **bc**: bliknaði (*ligeså i gentag.*).
*V. 5, l. 3.* Kæra, **bc**; **a**: Kæri. *L. 4. Sål.* **bc** (**b** *her:* stendur, *men i gentag.:* stár); **a** *begge gange:* mitt líf stár so í hræðilegum voða.
*V. 6, l. 3.* fyrr, **b** *her:* fyrir, *men i gentag.:* fyrr.
*V. 7, l. 3.* á, **c** *her:* í, *men i gentag.:* á.
*V. 8, l. 4.* sneri sèr, **bc** *her og i gentag.:* snerist, *men i v. 19—20 som* **a**.
*V. 9, l. 3.* yfirum hans arm, **bc**: yfir hans háls og arm, (*ligeså i gentag.*). *L. 4.* hann væri, **c**: væri hann (*ligeså i v. 20,*

*l. 4; v. 21, l. 4, samt i disses gentag.; men i v. 10—11 alle tre gange:* hann væri).
*V. 13, l. 3.* sveinana, **bc**: sveina (*ligeså i gentag.*).
*V. 14, l. 4.* sinn, **bc**: sinn inn (*ligeså i gentag.*).
*V. 15, l. 4.* sittu, **bc**: sit (*ligeså i gentag.*). *L. 4.* hvað, **be** *her:* hvað; *men i gentag.:* og hvað.
*V. 17, l. 4.* ást, **bc**; **a**: ástir (*ligeså i gentag.*).
*V. 18, l. 1.* **bc**: Sem mér er sagt.
*V. 20, l. 4.* lá hann, **bc**: lá (*ligeså i gentag.; **c** har også* lá *for* lá hann *i v. 21, l. 4 m. gentag.*).
*V. 25, fattes i* **bc**.
*V. 26, l. 1.* **bc**: Hann var mér svo hollur.

---

# 9.

## Stafróar kvæði.

Salomon og Kåre
de vare brødre både.
Vel kunde de runer.

Kåre red ud i mørken skov, der kom den stærke skovrå*), tog ham under sit skind og bar ham dybt ind i bjærget. Der måtte han sove ved hendes side, og da glemte han alle sine runer. Kåre bad hende om orlov at ride bort og fik den. Så satte han sig paa sin ganger, red til Salomon sin broder og bad ham lære sig sine runer igjen. Salomon svarer: jeg kan ingen runer lære dig, du førte ingen med fra mig. De satte sig på en sten, og han lærte atter sine runer. Så red Kåre tilbage til fjældet. Skovråen tog imod ham med de ord:

Hør du det, Kåre hin hvide!
hvi bær du nu sværd ved side?

*) *Ordet* stafró *er ubekjendt; men da dets sidste del synes at måtte være lig svensk* rå, *er her, i analogi med det svenske* skogsrå *ɔ: elvekvinde, dannet formen:* skovrå.

Kåre svarer, at derfor bærer han sværd ved lænd: for kongen er vorden ham vred. Da siger skovråen:

Og er nu kongen vorden dig vred,
så tag du mit guld og løs dig med.

Så beder hun ham købe sig hest at ride på; men han svarer, at han kan ingensteds få en hest at købe til hende: hun kan vel løbe med. Og hvorhen Kåre red eller rendte, der var skovråen forud for ham. Da de kom til stranden, lod Kåre sit sværd falde på sandet og bad skovråen at tage det op. Men da hun böjede sig ned for at tage sværdet, da brugte Kåre sine runer*) og sagde:

Skovrå, vorde du nu til sten,
vorde ingen mand til men!

Skovrå med din hvide særk:
stat du her til landemærk'!

Vel kunde han runer.

---

Denne vise kende vi nu kun i dens her meddelte skikkelse. Dog kan den i henseende til sit æmne sammenlignes med visen om ridderen i dværgenes bjærg: **dansk** i Danm. gl. folkev., nr. 35; **svensk** hos Arwidsson, nr. 146 (jfr. de **færøiske** kvad: „Dvörgamoy" I, III og IV i Hammershaimb's Sjúrðar kvæði, ss. 80, 92, 101); samt med den **danske** vise om „hr. Luno og havfruen" i Danm. gl. folkev., nr. 43.

---

*) *De vare måske ristede på sværdet, så da kun berørte det, behøvedes kun hans ord for at binde hende.*

(**a**: Giss. Sv., 15. **b**: kgl. fol., 15. **c**: G. Ív., 15.)

1.

Salómon og Kári,
þeir voru bræður báðir.
— Vel kunna þeir rúnir.

2.

Kári,
þeir voru bræður báðir.
Kári reið á myrkvan skóg,
þar kom hin sterka Stafró.

3.

Myrkvan skóg,
þar kom hin sterka Stafró.
Hún tók hann Kára undir sín skinn,
bar hann lángt í bergið inn.

4.

Undir sín skinn,
bar hann lángt í bergið inn:
„Heyrðu það, Kári hinn bleiki!
við setjumst niður að leiki.

5.

Bleiki,
við setjumst niður að leiki.
En ef við, Kári, lèkjum svo:
við ættum barnið saman tvö.

6.

Lèkjum svo:
við ættum barnið saman tvö."
Þegar þau höfðu leika reynt,
þá hafði hann Kári rúnunum gleymt.

7.

Leika reynt,
þá hafði hann Kári rúnunum gleymt.
„Heyrðu það, Stafró, unnustan mín,
lofaðu mèr burt að ríða ágjen.

8.

Unnusta mín,
lofaðu mèr burt að ríða ágjen."
„Ríðtu, ríðtu sem þú vilt!
fullgott hefir þú leyfið mitt.

9.

Sem þú vilt,
fullgott hefir þú leyfið mitt."
Kári stè á gángverann brún,
svo ríður hann til Salómon.

10.

Gángverann brún,
svo ríður hann til Salómon:
„Heyrðu það, Salómon, bróðir minn,
kenndu mèr mínar rúnir ágjen!

11.

Bróðir minn,
kenndu mèr mínar rúnir ágjen!"
„Eg kann ei rúnir að kenna þèr:
þú hafðir öngvar í burt frá mèr.

12.

Kenna þèr,
þú hafðir öngvar í burt frá mèr."
Þeir höfðu sig upp á einn stein,
þar lærði hann sínar rúnir ágjen.

13.

Upp á einn stein,
þar lærði hann sínar rúnir ágjen.
Kári stè á gángverann grá,
svo ríður hann í fjallið blá.

14.

Gángverann grá,
svo ríður hann í fjallið blá.
„Heyrðu það, Kári, unnusti minn,
því er nú brandurinn slíðrum með?

15.

Unnusti minn,
því er nú brandurinn slíðrum með?"
„Því er nú brandurinn slíðrum með,
að kóngurinn er mèr reiður ágjen.

16.

Slíðrum með,
að kóngurinn er mèr reiður ágjen."
„Ef kóngurinn er þèr reiður orðinn,
taktu mitt gull og leystu þig með.

17.

Reiður orðinn,
taktu mitt gull og leystu þig með.
Heyrðu það, Kári hinn fríði,
kauptu mèr hest að ríða!

18.

Fríði,
kauptu mèr hest að ríða!"
„Eg kann þèr hvergi hest að kaupa,
Stafró, máttu allvel hlaupa.

19.

Hest að kaupa,
Stafró, máttu allvel hlaupa."
Hvort sem hann Kári reið eða rann,
þá var hún Stafró fremri en hann.

20.

Reið eða rann,
þá var hún Stafró fremri en hann.
Þegar þau komu á hvítan sand,
þar felldi hann niður sinn búinn brand.

21.

Hvítan sand,
þar felldi hann niður sinn búinn brand.
„Stafró, með þína hvíta hand,
taktu upp minn búinn brand!

22.

Hvíta hand,
taktu upp minn búinn brand!"
Þegar hún laut til jarðar niður,
þá hafði hann Kári rúnirnar viður.

23.

Til jarðar niður,
þá hafði hann Kári rúnirnar viður:
„Stafró, vertu að steini,
öngvum manni að meini!

24.

Steini,
öngvum manni að meini!
Stafró, með þinn hvíta serk,
stattu þar til landamerks!"
— Vel kunna þeir rúnir.

*Overskrift.* **a**: Stafrós kvæði; **bc**: Kvæði af frúnni Stafró.
*V. 2, l. 4.* hin, **b**: hún (*ligeså i gentag.*).
*V. 3, l. 4.* bar, **bc**: og bar (*ligeså i gentag.*).
*V. 5, l. 3.* lèkjum, **bc**: leikum (*ligeså i gentag.*).
*V. 6, l. 4.* rúnunum, **bc**: rúnum (*ligeså i gentag.*).
*V. 7, l. 3.* Heyrðu, *står i* **a** *to gange. L. 3.* unnustan, **bc**: unnusta. *L. 4.* ágjen, **bc**: ígjen (*ligeså i v. 10, 12, 15 og alle gentag.*).
*V. 9, l. 3.* stè, **bc**: stígur.
*V. 11, l. 4.* frá mèr, **c** *her:* með þèr, *men i gentag. som teksten.*
*V. 12, l. 4.* sínar, **bc**: Kári (*ligeså i gentag.*).
*V. 14, l. 4.* **bc**: því er nú brandr í slíðrum þinn (*ligeså i gentag.*).
*V. 15, l. 3.* **bc**: Af því er brandur í slíðrum sín [**c**: sèn].
*V. 16, l. 1.* **bc**: Í slíðrum sín [**c**: sèn]. *L. 3.* reiður orðinn, **c**: orðinn reiður (*ligeså i gentag.*). *L. 4.* með, **c**: meður (*ligeså i gentag.*).
*V. 24, l. 4.* landamerks, **bc**: dauðamerks.

---

# 10.

# Sigmundar kvæði.

Sigmund bode østerpå; han kendte ingen for sin overmand. Han rådte med sin moder om, hvor han skulde finde sig en brud. Valgard har tre døttre, siger hun, en af dem kan du vel få. Tolv riddere i følge drage de afsted og gå i hallen for Valgard. Sigmund beder om hans unge datter. Valgard svarer: jeg har kun tre døttre, og ingen af dem vil jeg volde sorg (göre imod). Sigmund siger: giv mig din yngste datter Ingrid, hun er hverken fager eller væn [men Valgard afslår atter hans forslag]. Da rister

Sigmund runetræ (runekævle) og kaster i Ingrids skød. Hun vågner om midnat og beder lydelig om drikke. Da kaster Sigmund atter runer i drikken [og går så til sit skib, hvor han venter hun må komme, dreven af runernes magt]. Men Ingrid går til svinestien og giver drikken til en griseso. Soen farer da afsted ned til stranden, ud på Sigmunds skib og lige op i sængen til ham. Det er ikke for svin, at søge sæng med folk, siger han, og så hugger han hoved og fødder af soen. Nu løber den hver nat ved stranden og forstyrrer deres sövn. Men Ingrid siger: det var min lykke, at jeg gav agt på dine runer og vidste at vogte mig for din runegalder, så du ikke fik din vilje frem. Og omkvædet istemmer: ingen vilder hende med runer.

---

Troen på runernes tryllemagt, navnlig til at fremkalde elskov og med en uimodståelig magt at drage den runebundne hen til den, der havde kastet runerne: den er vidt udbredt, og den fremtræder da også her i „riddara Stígs kvæði"; men den forestilling, at den runebundne kunde frigöre sig for runernes magt og overføre den på et umælende, den have vi ellers ingensteds fundet; så denne vise står uden noget sidestykke mellem alle os bekendte folkesagn og viser.

---

(**a**: Giss. Sv., 9. **b**: kgl. fol., 9. **c**: G. Ív., 9.)

1.

Sigmundur fyrir austan fold.
— í túnum —
enginn þeirra villir hana með rúnum.

2.

Austan fold,
hann vissi ei æðra mann á mold.
Sigmundur talar við móður þá.
— í túnum —
enginn þeirra villir hana með rúnum.

3.

Móður þá:
„hvar skal eg mèr brúðar fá?"
„Valgarður á sèr dætur þrjár.

4.

Dætur þrjár,
einnar máttu vilja fá."
Heiman bjuggust riddarar tólf.

5.

Riddarar tólf,
stigu þeir inn á hallar gólf.
„Siti þèr heilir, Valgarð minn!

6.

Valgarð minn,
giptu mèr únga dóttur þín."
„Eg á ei dætur fleiri en þrjár.

7.

Fleiri en þrjár,
má eg á engri sorgir sjá."
„Hún er sig hvorki fögur nè fríð.

8.

Fögur nè fríð:
giptu mèr únga Íngiríði."
Sigmundur ristir rúnatrè.

9.

Rúnatrè,
kastar hann kefli í frúinnar knè.
Mærin kallar miðja nátt.

10.

Miðja nátt,
hún biður að drekka einka hátt.
Sigmundur gjörði annan þykk.

11.

Annan þykk:
kastar hann kefli í frúinnar drykk.
Hún gekk sig í svína hús.

12.

Svína hús,
þar er sú gylta, á drykk er fús.
Gyltan sig til skipanna rann.

13.

Skipanna rann,
Sigmunds frá eg hún hvílu fann.
„Það er ekki svína siður.

14.

Svína siður:
að gyltan fari undir fötin niður."
Hann hjó af henni höfuð og fætur.

15.

Höfuð og fætur,
svo gengur hún um allar nætur.
Hún gekk sig með flæða rein.

16.

Flæða rein,
öllum bannar hún svefninn þeim.
„Sèð gat eg við rúnum þín.

17.

Rúnum þín,
það hafa gjört þau forlög mín.
Sèð gat eg við rúnagaldur.

18.

Rúnagaldur:
ei af því við jukum aldur."
Vendi eg mínu kvæði í kross.
— í túnum —
enginn þeirra villir hana með rúnum.

---

*Overskrift*: Kvæði af Sigmundi.
*V. 1, l. 1.* fold, **be** *her:* borg, *men i n. v.:* fold.
*V. 3, l. 2.* hvar, **be**: hverrar.
*V. 5, l. 3.* Valgarð, **be**: Valgarður (*ligeså i n. v.*).
*V. 6, l. 3.* ei dætur, **be**: ekki.
*V. 7, l. 3 og v. 8, l. 2 burde vistnok ombyttes, så verset blev:*
Giptu mèr únga Íngiríði,
hún er sig hvorki fögur nè fríð.
*hvilket må være Sigmunds ord. Men her fattes da vistnok et el. flere vers mellem dette og det følgende, som blandt andet må have indeholdt faderens bestemte afslag; hvis man ikke vil antage at dette vers* Giptu mèr &c. *burde følge umiddèlbart efter det her foran:* Siti þèr &c. *og altså gå forud for svaret:* Eg á ei dætur &c. *Men dette göres usandsynligt derved, at da svaret omtaler alle tre døttre, må spörsmålet vel også være holdt i en större almindelighed og ikke have nævnet nogen af dem.*
*V. 8, l. 2.* Íngiríði, **e**: Íngiríð.
*V. 9, l. 2.* **be**: kastar hann því fyrir hennar knè.
*V. 11, l. 3.* í svína hús, **be**: til svína húss.
*V. 13, l. 3.* svína, **be**: sveina (*ligeså i n. v.*).
*V. 15, l. 3.* flæða rein, **be**: flæðar reim (*ligeså i n. v.*).
*V. 16, l. 3.* eg, **b**: ekki. (*Mellem denne og den foregående*

*linie er vistnok udfaldet et helt vers, som kunde göre overgangen fra talen om soen til Ingrids ord, som jo her begynde).*

*V. 18, l. 2. Denne linies mening er noget uklar; kun ved at underforstå et* saman (við Jukum saman aldur) *kommer den mening ud, som her er antagen: derfor kom vi ikke til at leve vort liv sammen* ɔ: *derfor fik du ikke din vilje med mig.*

---

## 11.

# Stjúpmóður kvæði.

Kongen sejlede ud og bejlede til den fagreste mø i landet. Sigurlöð (el. Sigurlaug, dansk: Sølverlad) var hendes navn. Han ægtede hende og førte hende hjem. I syv (el. fem) vintre levede de sammen, og hun fødte ham to (el. fem) börn. Da kom sot i hans rige, og Sigurlöð døde. Kongen sejlede atter ud og bejlede til den fagreste mø i landet. Svanborg var hendes navn. Han ægtede hende og førte hende hjem. Ofte græd den yngste sön; det hørte moderen i den anden verden. Hun bad Gud om lov at gå til sine börn. Hun fik lov, men måtte ej tøve for længe hos dem. Da månen opstod, gik Sigurlöð fra kirkegård til borgen. Svanborg stod ude og bød hende ind at drikke vin. Men hun svarer, at hun vil ikke drikke hendes vin, medens hendes börn græde: hun tog intet med sig i graven, men efterlod sig ager og eng, gård og tyende; hun efterlod sig bolstre blå, som hendes börn skulde hvile på. Så løftede hun sin hånd og viste helvedes pine. Anden gang løftede hun sin hånd og viste nu salighedens glæde. Hun bad Svanborg göre vel mod hendes börn, om hun vilde sin egen sjæl vel. Så

børte hun kaldet fra den anden verden: to gange havde hanen alt galet, og hun kunde ej længer bie. Men Svanborg gik til börnene, tog dem op fra gulvet og begyndte at skære klæder til dem.

Kongen ligger i sængen og kalder: lad kun börnene ligge på gulvet! Men Svanborg svarer:

Haver jeg været dem stifmoder strid,
så vil jeg nu være dem moder blid.

---

Foruden de her meddelte haves i grunden endnu en fjerde islandsk opskrift af denne vise i den sidste part af vor nr. 52, **E**, hvis første del svarer til den danske vise om Buris og liden Kirstin, kong Valdemar den 1stes søster. Denne forbindelse, der er så enestående, er dog kendelig først indtrådt senere, og de to viser oprindelig hinanden uvedkommende. Nærværende vise forekommer:

**færøisk**: Schröters håndskr. (ny kgl. saml. 346. 8vo), nr. 7;
**norsk**: Landstad, nr. 62 og s. 844;
**svensk**: Afzel. nr. 72; Arwidss. nr. 90;
**dansk**: Syv, nr. 78; Abr. nr. 28; Alm. dansk litteratur-journal f. 1781, II, s. 92; Danm. gl. folkev., 2den del;
**tysk**: Meinert, s. 89 (jfr. Wunderhorn, IV, s. 135);
**vendisk**: Haupt og Schmaler, I, nr. 132; II, nr. 102;
**bømisk**: Erben, I, s. 1; Haupt og Schmaler, I, s. 370; Ida v. Düringsfeld's Böhm. Rosen, s. 161; Talvj's Gesch. der slav. Spr. u. Litt., s. 333—34;
**polsk**: Pauli, I, s. 75; II, s. 145; Haupt og Schmaler, I, s. 371;
**littauisk**: Rhesa's Dainos, nr. 7.

---

A.

(Kgl. okt., 4.)

1.

Kóngurinn sigldi og meyjar bað,
— svo ríður hann til borgar —
þeirrar helztu í landi var.
— sú var ein neyð, hún aflaði honum sorgar.

2.

Keypti hann frúna Sigurlöð,
flutti hana heim fyrir utan töf.

3.

Voru þaug saman vintrin sjö,
átti hann við henni börnin tvö.

4.

Þá kom sótt í ríkið hans,
Sigurlöð dó fyrir utan stans.

5.

Kóngurinn sigldi og meyjar bað,
þeirrar helztu í landi var.

6.

Keypti hann frúna Svanborg,
og flutti hana heim fyrir utan sorg.

7.

Þá grèt opt hinn ýngri sveinn,
heyrði það móðir í annan heim.

8.

„Herra, lofa mèr upp að stá!
sárt gráta mín börnin smá."

9.

„Eg skal lofa þèr gengi,
vertu eigi í burtu lengi."

10.

Máni fór að standa
en Sigurlöð að gánga.

11.

Svanborg stóð við kirkjuhlið,
en Sigurlöð til borgar [leið].

12.

„Vel þú komin, Sigurlöð mín,
að drekka vín með kóngi þín!"

13.

„Eg vil ekki drekka þitt vín:
sárt gráta nú börnin mín.

14.

Eg skildi hèr eptir akur og eng,
algjört bú og röskvan dreng.

15.

Eg skildi hèr eptir kodda blá:
mín börn skyldi sófa þar á."

16.

Hún lypti upp sinni vinstri hönd,
hún sýndi henni kvalir og píslar-bönd.

17.

„Gjörðu vel við börnin mín!
gott skal eiga sálin þín.

18.

Eg má ei lengur tala við þig,
koma þýðir og kalla á mig."

19.

Svanborg tók sèr skæri,
sneið hún börnum klæði.

20.

Svaraði kóngur, í sænginni lá:
„mín börn mega á gólfi stá."

21.

„Hafi eg verið þeim stjúpan stríð,
svo skal eg vera þeim móðirin blíð.

22.

Hafi eg verið þeim stjúpan móð,
— svo ríður hann til borgar —
þá skal eg vera þeim móðirin góð."
— sú var ein neyð, hún aflaði honum sorgar.

---

## B.

(J. Steph., 21.)

1.

Kóngurinn sigldi og einnar bað,
— blítt lætur veröldin —
þeirrar vænstu á landi var.
— fölnar fögur fold —
lángt er síðan mitt var yndið lagt í mold.

2.

Hann flutti hana heim fyrir utan töf,
af ýtum nefnd var Sigurlaug.

3.

Voru þau saman veturna fimm,
átti hann með henni börnin fimm.

4.

Þar kom sótt í þeirra bý,
kóngurinn misti sitt ektavíf.

5.

Kóngurinn sigldi og annarar bað,
þeirrar vænstu á landi var.

6.

Hann flutti hana heim fyrir utan sorg,
ýtar nefndu hana Svanborg.

7.

Voru þau saman vetur fimm,
átti hann með henni börnin fimm.

8.

Heyrði móðir, í moldu lá,
sáran gráta börnin smá.

9.

Heyrði móðir í annan heim
sáran grát af ýngsta svein.

10.

„Herra, lofa mèr upp að stá!
sáran gráta börn mín smá."

11.

„Eg vil lofa þèr brautargengi,
vertu ekki í burtu lengi."

12.

Svanborg sig til kirkju bjó,
Sigurlaug í garði stóð.

13.

„Velkomin, Sigurlaug, heim til mín!
eg hefi blandað þèr bjór og vín."

14.

„Eg vil ei þinn bjór nè vín,
gjörðu vel við börnin mín!

15.

Ef gjörir þú illa við börnin mín,
illt skal eiga sálin þín.

16.

Gjörðu vel við börnin mín!
svo gott megi eiga sálin þín."

17.

Hún lypti upp sinni hægri hönd,
sýndi henni kvalir og píslar-bönd.

18.

Hún lypti henni upp í annað sinn,
sýndi henni í dýrðina inn.

19.

„Eg skildi hèr eptir beðinn blá,
er börn mín skyldu hvíla á.

20.

Eg skildi þar eptir auð og fè,
ekkert með eg í burtu stè.

21.

Eg skyldi þar eptir akra og eng
og einn lítinn raskan dreng.

22.

Eg má ei lengur við þig tala:
tvisvar hefir haninn galað.

23.

Gjörðu vel við börnin mín!
svo gott megi eiga sálin þín."

24.

Svanborg sig til hallar dró,
talar við börn á gólfi þó.

25.
Svaraði kóngur, í sænginni lá:
„mín börn mega á gólfi stá."

26.
„Lítt man eg það, er úti sá,
ef þín börn skulu á gólfi stá.

27.
Eg hefi verið þeim stjúpa stríð,
eg skal vera þeim móðir blíð."

28.
Tók hún nál og söxin bæði,
— blítt lætur veröldin —
sneið hún börnum fögur klæði.
— fölnar fögur fold —
lángt er síðan mitt var yndið lagt í mold.

---

## C.

(Arnam. 153, 8vo, e, 17.)

Kóngurinn fór og brúðar bað,
— væntir frúin þín —
þeirrar vænst í landi var.
— suður við Lundúna-borg þá bíður hún mín.

---

A. *v. 22, l. 1.* móð, *hdskr.:* stór móð.
B, *v. 7, er her ej på sin plads og burde rettest udgå.*

## 12.

# Gunnhildar kvæði.

Det var en så bliden dag,
Gunhild alle gaver gav:
somme gav hun røden guld,
somme gav hun skåler fuld.

Ragnvald gav hun røden skjold, besat med guld. Ragnvald siger til hende: du skal være min kærest, en nat eller to, om du ej vil længer. Gunhild svarer: hvorledes skulde sligt kunne ske: at jeg skulde vorde din frille, jeg, kong Dideriks ægteviv! Ragnvald svarer: da skal jeg lyve dig på, så hver mand skal tro det. Gunhild svarer:

Ej agter jeg, om du lyver,
så dine öjne udflyve.

Ragnvald stod på stranden, da kong Diderik kom sejlende til land. Kongen spör:

Hør du det, Ragnvald, broder min:
hure må folk i rigerne min'?

Ragnvald svarer:

Vel må folket i Spire,
men ilde må Gunhild dyre.

Hun haver ladet lokke sig,
holdet ilde tro mod dig.

Jeg det med mine öjne så:
erkebispen hos hende lå.

Riddere fem, jeg siger dig,
dem har hun taget i loft til sig.

Da sprang kong Diderik på sin hvide ganger og fór hjem til Spire. Fru Gunhild lå i sin sæng:

Han tog hende i hendes gule lok,
han drog hende frem over sængestok.

Han bårde hende dage, han bårde hende to,
den tredje gjorde han ligeså.

Ingen vovede at tale til kongen, uden hans to yngste börn; de spurde ham, hvad deres moder havde forbrudt. Kongen svarer, at hun har ladet sig lokke og været ham utro. De sige da: lad du hende bære jærn, lad du hende træde stål! Gunhild bar det gloende jærn ni gange, og hun gik over det gloende stål ti gange; og der hun kom på andet land, da brast jærnbåndene af hende. Ragnvald blev til en hund og sank til helvede. Gunhild blev til en fager mø og fór til himmels.

---

Den islandske opskrift af denne vise har været trykt i Danm. gl. folkev., nr. 13, **F**;

**færøisk**: står den sammesteds i opskrr. **D** og **E**;
**dansk**: sammesteds i opskrr. **ABC**;
**engelsk**: Percy's Reliques, II, 1, nr. 9; W. Scott's Minstrelsy (udg. af 1812), II, s. 269.

Om denne vises og det i den behandlede sagns höje ælde og store udbredelse er udførlig handlet i Danmarks gamle folkeviser, I, s. 177—204.

---

(**a**: Giss. Sv., 22. **b**: kgl. fol., 22. **c**: G. Ív., 22. **d**: Arnam. 153, e, 32 [kun 1ste vers].)

1.

Það var einn svo blíðan dag,
hún Gunnhildur öllum gjafir gaf:
Sumum gaf hún malið gull,
sumum gaf hún kerin full.
— Vel vilda eg við veröldina skilja.

2.

Malið gull,
sumum gaf hún kerin full:
Rögvaldi gaf hún rauðan skjöld,
hann var ofinn með gull margföld.

3.

Rauðan skjöld,
hann var ofinn með gull margföld.
„Heyrðu það, Gunnhildur væna,
þú skalt vera mín kvæna!

4.

Væna,
þú skalt vera mín kvæna:
Eina nótt eða allar tvær,
þó ekki vilir þú lengur en þær.

5.

Allar tvær,
þó ekki vilir þú lengur en þær."
„Hversu má það verða
af oss hèr á jörðu?

6.

Verða
af oss hèr á jörðu:

Að eg sè þín frillan fríð,
Þiðriks kóngsins eigið víf!

7.

Frillan fríð,
Þiðriks kóngsins eigið víf!"
„Svo skal eg á þig ljúga,
að hver mann skal því trúa.

8.

Ljúga,
að hver mann skal því trúa."
„Hirði eg ei þótt þú ljúgir,
svo þín augun fljúgi.

9.

Ljúgir,
svo þín augun fljúgi."
Rögvaldur stóð á sandi,
þar Þiðrik sigldi að landi.

10.

Sandi,
þar Þiðrik sigldi að landi.
„Heyrðu það, Rögvaldur, bróðir minn,
hversu má fólk í ríkjum mín?

11.

Bróðir minn,
hversu má fólk í ríkjum mín?"
„Vel má fólk í Spíru,
illa má Gunnhildur dýra.

12.

Spíru,
illa má Gunnhildur dýra:
Hún hefir látið lokka sig,
haldið illa trú við þig.

13.

Lokka sig,
haldið illa trú við þig:
Eg með mínum augum sá,
erkibiskup hjá henni lá.

14.

Augum sá,
erkibiskup hjá henni lá:
Það sá eg í annað sinn,
hjá henni láu riddarar fimm.

15.

Í annað sinn,
hjá henni láu riddarar fimm."
Þiðrik stè á hvítan hest,
allra manna reið hann mest.

16.

Á hvítan hest,
allra manna reið hann mest:
Hann kom þá til Spíru,
þar Gunnhildur lá í hvílu.

17.

Spíru,
þar Gunnhildur lá í hvílu:
Hann tók í hennar gula lokk,
dró hana fram á sængurstokk.

18.

Gula lokk,
dró hana fram á sængurstokk:
Hann barði hana daginn, hann barði hana tvo,
þriðja fram til middags svo.

19.

Barði hana tvo,
þriðja fram til middags svo.

Enginn þorði að spyrja
Þiðrik kónginn dýra.

20.

Spyrja
Þiðrik kónginn dýra:
Utan hans ýngstu börnin tvö,
Þiðrik föður sinn spurðu þau.

21.

Börnin tvö,
Þiðrik föður sinn spurðu þau:
„Heyrðu það, Þiðrik, faðir minn,
hvað hefir hún Gunnhildur gjört til þín?

22.

Faðir minn,
hvað hefir hún Gunnhildur gjört til þín?"
„Hún hefir látið lokka sig,
haldið illa trú við mig.

23.

Lokka sig,
haldið illa trú við mig."
„Láttu hana bera járn!
láttu hana troða stál!

24.

Bera járn,
láttu hana troða stál!"
Níu sinnum bar hún járn,
tíu sinnum trað hún stál.

25.

Bar hún járn,
tíu sinnum trað hún stál:
Þegar hún kom á önnur lönd,
af henni stukku öll járnbönd.

26.

Önnur lönd,
af henni stukku öll járnbönd.
Rögvaldur varð að hundi,
Gunnhildur varð að sprundi.

27.

Hundi,
Gunnhildur varð að sprundi:
Rögvaldur ofan til vítis sè,
en Gunnhildur upp til himna stè.

28.

Til vítis sè,
en Gunnhildur upp til himna stè.
Vendi eg mínu kvæði í kross,
sjálfur guð hann veri með oss!
— Vel vilda eg við veröldina skilja.

---

*Overskrift:* **a**: Kvæði af Rögvaldi og Gunnhildi; **bc**: Kv. af G. og Rögnvaldi (*sål. have* **bc** *navnet overalt*).
*V. 1, l. 2.* öllum, **d**; *fattes i* **abc**. *L. 3.* malið gull, **d**: rauðagull.
*V. 2, l. 3.* gaf hún, **bc**; *fattes i* **a**. *L. 4. sål.* **bc**; **a**: hann var ofinn gulli (*ligeså i n. v.*).
*V. 3, l. 3—4.* væna...kvæna, **bc**: skæra...kæra (*ligeså i n. v.*).
*V. 8, l. 4.* **bc**: svo augu þín út fljúgi (*ligeså i n. v.*).
*V. 11, l. 4.* illa, **bc**: en illa (*ligeså i n. v.*).
*V. 12, l. 4.* haldið, **bc**: og haldið (*ligeså i n. v.*).
*V. 13, l. 3—4.* **bc**: Með mínum augum sá eg á,
að erkibiskup hjá henni lá.
*V. 14, l. 1—2.* **bc**: sá eg á, að erkib. *o. s. v.* *L. 4.* hjá, **bc**: að hjá (*ligeså i n. v.*).
*V. 16, l. 4.* þar, **bc**: er (**c** *ligeså i n. v.*).
*V. 17, l. 4.* dró, **bc**: og dró (**c** *ligeså i n. v.*).
*V. 18, l. 3.* daginn hann, **bc**; **a**: daginn og. *L. 4.* middags svo, **bc**; **a**: miðja (*ligeså i n. v.*).

V. 19, l. 2. þriðja, **b**: hinn þriðja.
V. 23, l. 3. járn, **be**: járn eitt mál (*ligeså i n. v.*).
V. 24, l. 1. **be**: Járn eitt mál. *L. 3.* járn, **be**: járnin hál. *L. 4.* tíu, **be**: og tíu.
V. 25, l. 1. **be**: Járnin hál. *L. 4. sál.* **be**; **a**: svo stukku af henni járnbönd (*ligeså i n. v.*).
V. 26, l. 4. **be**: en G. að sprundi (*ligeså i n. v.*).
V. 27, l. 3. sè, **be**; **a**: stè (*ligeså i n. v.*). *L. 4.* stè, **be**; *fattes i* **a** (*ligeså i n. v.*).
V. 28, l. 4. veri, **ab**; **e**: sè.

---

# 13.

# Hörpu kvæði.

Der kom bejlere i jomfruernes gård og bejlede til den yngste af de to søstre. Signe var hendes navn, hun var lys og fager. Men de forsmåde den ældste, Hilde ved navn, som var både sort og led. Hilde bad sin søster følge sig ned til stranden at to. Signe gjorde så, men da hun tren ud på en sten, stødte Hilde hende ud i vandet. Signe rakte sine hænder op og bad søsteren hjælpe sig i land. Men Hilde forlangte først hendes guldsko derfor; dem gav Signe hende gærne. Hilde forlangte endnu hendes fagre åsyn; Signe svarede: det kunde hun ikke skænke hende. Endelig forlangte Hilde hendes fæstemand; men da svarede Signe: alt giver jeg dig, hvad jeg ejer, men min fæstemand må råde sig selv. Så rakte Hilde hende ingen hånd, men vinden kom fra sønden og slog Signe ned til havsens bund. Atter kom vinden fra norden og kastede liget op i land. Fæstemanden kom gangende på stranden, hvor liget var drevet i land. Han tog det biege legeme og lagde det i viet muld. Men af hendes gule hår snode han tre harpestrenge.

Der var bryllup i gårde; Hilde sad som brud på bænke. Da slog brudgommen harpen:

Mældte det strengen den første:
„bruden hun var min søster."

Svarede bruden på bænken sad:
„den harpe gör os megen umag."

Mældte det strengen den anden:
„mig røved hun fæstemanden."

Svarede bruden så rød som blod:
„den harpe gör os så stor uro."

Men brudgommen slog harpen af al magt, og nu lød det fra den tredje streng: bruden var min bane, — og da brast Hildes falske hjærte. Opskr. **B** tilföjer:

Signe blev jordet på kirkegård,
tolv riddere stode om hendes bår.

Hilde blev lagt udi vilden hede,
der færdes end hendes ånd den lede.

---

Denne vise er almindelig bekendt i norden; den haves:

**færøisk**: i Svabo's håndskr. I, s. 291; trykt hos Afzel., I, s. 86; Nyeste skilderi af Kbhn. f. 1821, nr. 63;

**norsk**: Landstad, nr. 53; Norske univ. og skole-annaler f. 1850, ss. 287. 496;

**svensk**: Afzel. nr. 17 og 69; Arwidss. nr. 99;

**dansk**: Tilskueren f. 1821, nr. 41—42; Danm. gl. folkev., 2den del;

**engelsk**: Pinkerton's Ballads, I, s. 18; W. Scott's

Minstrelsy, III, s. 79; Jamieson's Ballads, I, s. 48; Sharpe's Ballad book, nr. 10; Buchan's Anc. Ballads, II, s. 128; oversat på dansk i Engelske og skotske folkev., nr. 15.

---

## A.

(**a**: kgl. fol., 79. **b**: G. Ív., 79.)

1.

Biðlar komu í jómfrúr garð,
— og herja á landið fríða —
þeirrar var beðið, sem yngri var.
— benja af vendi blóðugar undir svíða.

2.

Sú en yngri var svo skær á hold,
en hin eldri var svört sem mold.

3.

Systir talar við systur góða:
„gaungum við okkur til sjáfarflóða!"

4.

Sú yngri settist upp á stein,
hin eldri hratt henni ofan í straum.

5.

Hún rèttir upp sína hvítu hönd:
„systir, gefðu mèr hjálparlönd!"

6.

„Eg gef þèr eigi hjálparlönd mín,
nema þú gefir mèr gullskó þín."

7.

„Gullskó skaltu gjarnan fá,
ef þú lætur mig landi ná."

8.

Hún rèttir upp sína hvítu hönd:
„systir, gefðu mèr hjálparlönd!"

9.

„Eg gef þèr eigi hjálparlöndin,
nema þú gefir mèr yfirlit þinn."

10.

„Yfirlit minn má eg þèr ekki gefa,
guð vill ei láta það svo vera."

11.

Hún rètti upp sína hvítu hönd;
„systir, gefðu mèr hjálparlönd!"

12.

„Eg gef þèr eigi hjálparlöndin,
nema þú gefir mèr biðilinn þinn."

13.

„Gef eg þèr allt það eg gefa má,
biðill minn á sèr sjálfum ráða."

14.

Þá kom vindur á sunnan,
líkinu sló til grunna.

15.

Þá kom vindur að handan,
líkið rak að landi.

16.

Biðillinn gekk á sandi,
þar líkið rak að landi.

17.

Hann tók hennar hvíta hold,
gróf hann það í vígða mold.

18.
Hann tók hennar gula hár,
gjörði úr hörpustrengi þrjá.

19.
Svaraði strengurinn fyrsti:
„brúðurin var mín systir!"

20.
Svaraði brúður, í bekknum sat:
„harpan gjörir oss mikið ómak!"

21.
Svaraði strengurinn annar:
biðilinn mèr hún bannar."

22.
Svaraði í bekknum brúðurin rjóð:
„harpan gjörir oss mikinn móð."

23.
Svaraði strengurinn kani:
„brúðurin varð minn bani."

24.
Hann sló hörpu af magni,
— herja á landið fríða —
brúðurin sprakk af harmi.
— benja af vendi blóðugar undir svíða.

---

B.

(Gunnl. Jónss., 11.)

1.
Systir talar við systur góð:
— í landinu svo víða —
„gaungum við út á sjáfarflóð!"
— vel má herinn af Danmörk út ríða.

2.

„Hvað skulum við til sjáfarflóð?"
„Silki-tvinna eigum að þvó."

3.

Sú yngri gekk þá fram á stein,
sú eldri hratt henni út af stein.

4.

Hún rètti út sína hönd:
„kæra systir, hjálp í lönd!"

5.

„Eg hjálpa þèr ekki í lönd um sinn,
nema þú gefir mèr biðil þinn."

6.

„Gefa þèr allt hvað gefa eg má,
á biðlinum á eg engin ráð."

7.

Gefa skal eg þèr bæði
biðil og brúðar klæði."

8.

Þá kom vindur af hafi,
líkinu sló í kafi.

9.

Þá kom vindur og bylgjan blá,
líkinu tók til lands að slá.

10.

Biðillinn reið með ströndum,
meyjuna rak að löndum.

11.

Hann tók í hennar gula hár,
spann í hörpu strengi þrjá.

12.

Svo lèt strengurinn fyrsti:
„brúðurin er vor systir!"

13.
Svo lèt strengurinn ani:
„brúðurin er vor bani."

14.
Hann sló hörpu af magni:
brúðurin sprakk af harmi.

15.
Signý var grafin í hörðum hól,
stóðu yfir henni hirðmenn tólf.

16.
Hildur var grafin í hörðum haug,
allir sögðu, hún yrði að draug.

17.
Þeir hinnar ýngri báðu,
— í landinu svo víða —
hina eldri forsmáðu.
— vel má herinn af Danmörk út ríða.

---

*Overskrift.* **B**: Kvæði um tvær systur.
*Omkvæd 1.* og, *står kun i 1ste v. i begge hdskrr.*
*2. for* vendi *har* **a** *otte gange* veldi.
**A**, *v. 2. Sål.* **b**; **a**: Sú en ýngri var svo göld,
en hin eldri var svo svört sem mold.
— *v. 13, l. 2.* ráða, **b**: ráð.
— *v. 15, l. 2.* rak, **b**; **a**: eg.
— *v. 16 og 17 ombyttes i* **b**.
— *v. 21. Sål.* **b**; **a**: Svaraði strengur manni hjá:
biðillinn var bannaður.
— *v. 22, l. 1.* í bekknum, *fattes i* **b**. *L. 2.* **b**; **a**: brúðurin varð minn bani.
— *v. 24, l. 1.* hörpu, **b**; **a**: hörpuna.
**B**, *v. 7, l. 2.* belti og brúðar klæði *turde være den rigtige læsem.*
— *v. 17, er her ikke på sin plads, men hører nok til en begyndelse, hvoraf denne opskrift har tabt resten.*

## 14.

# Margrètar kvæði.

1.
Ville i høre og lyde på,
imeden jeg kvæder frem:
åtte kongen af Danemark
sön og datter væn.
Vi love den Gud, som løst haver al vor vånde.

2.
Fostredes der i riget op
de kongebörn så spæde:
først de kunde gange på gulv,
da bare de skarlagens klæder.

3.
Fostredes der i riget op
de kongebörn så unge;
det vil jeg for sanden sige:
deres lykke gjordes så tunge.

4.
Kongen udaf Danemark
han er så dydefuld:
han gav sin datter i kloster ind
med alt sit røde guld.

5.
Der hun havde i kloster været
fulde måneder tre:
længtes hende Margretelil
fader sin at se.

6.
Der hun havde i kloster været
fulde måneder fem:

## A.

(Arnam. 153, f, 3.)

1.

Kristín situr í Skáney,
hún þiggur ei gull af láni.
— Sèr hún ei þann öðlíng.

2.

Hún átti ekki barnið nema Málfríði ein,
hennar stáru augun uppá ángist og mein.

3.

Ásbjörn hèt sem hennar bað,
hennar móðirin gaf hana heiman úr stað.

4.

Svo var brúðlaup í Skáney sett:
Málfríður var til Sallands flutt.

5.

Ellefu ár í Sallandi var,
ellefu börn í heiminn bar.

6.

Svo leið á það tólfta ár,
hún Málfríður með sínu sveinbarni stár.

7.

Ásbjörn vill í leiðángur fara,
Málfríður biður hann heima vera.

8.

„Því var mèr spáð, þá eg var mey:
eg skyldi að mínu tólfta barni dey."

9.

Ásbjörn svarar og varð við reiður:
„trú þú aldri spákonu, meðan þú lifir!

10.

Trú þú aldri spákonu meðan þú lifir!
trúðu heldur á það vit, sem guð hefir þèr gefið!"

11.

Ásbjörn býr sína gilda fley,
svo siglir hann undir Viðarey.

12.

Fyrstu nótt hann lá undir Viðarey,
þá dreymir hann sína gullhríngs mey.

13.

Ásbjörn vaknar og upp hann sá:
„guð ráði nú hvernig mín Málfríður má!"

14.

Ásbjörn vendar sínum skipunum á geim:
svo siglir hann til Sallands heim.

15.

Þegar hann kom í kirkjunnar hlið,
krossinn á staðnum stóð þar við.

16.

Þegar hann kom í kirkjunnar garð,
annarr krossinn fyrir honum varð.

17.

Þegar hann kom fyrir kirkjunnar dyr,
gulldregnar stóðu þar börurnar við.

18.

„Eg bið þess karl og kvinnur:
að lofa mèr við líkið að mynnast!"

19.

Svo mynntist hann við líkið fast:
í níu hlutina hjartað brast.

20.
Meiri var þar grátur en þar var gaman:
þrjú fóru líkin í steinþró saman.

21.
Eitt var hann Ásbjörn, annað hans ektafrú,
þriðja var hennar móðir, af sárum sorgum dó.

22.
Venda eg mínu kvæðinu í kross:
jómfrú María veri með oss!
— Sèr hún ei þann öðlíng.

---

**B.**

(**a**: kgl. fol., 31. **b**: G. Ív., 32.)

1.
Kristín situr í Skáney,
tekur hún [ei] gull að láni.
— Sèr hún ei þann öðlíng.

2.
Skáney,
tekur hún [ei] gull að láni.
Hún á ekki barn nema hana Málmfríði ein,
henni gengur daglega sorg fyrir mein.
— Sèr hún ei þann öðlíng.

3.
Málmfríði ein —
Þar kom herra Ásbjörn og hennar bað,
Málmfríður gefin var þegar í stað.

4.
Hennar bað —
Sjö vikur voru þau í Sælandi saman,
undu sèr við gleði og gaman.

5.

Í Sælandi saman —
Herra Ásbjörn vill sig í leiðángur fara,
en Málmfríður bað hann heima vera.

6.

Í leiðángur fara —
„Þess var mèr spáð, þá eg var mey:
eg skyldi að mínu fyrsta barni dey."

7.

Þá eg var mey —
„Trúðu aldrei spákonu spá!
treystu heldur þeim, sem allt gott má!

8.

Spákonu spá —
Trúðu aldrei spákonu, meðan þú mátt lifa!
treystu heldur vorum herra, sem allt gott má gefa!"

9.

Meðan þú mátt lifa —
Herra Ásbjörn vendir sínum skipum á fley,
svo siglir hann undir Viðarey.

10.

Skipum á fley —
Fyrstu nótt þeir lágu undir ey,
herra Ásbjörn dreymdi gullhlaðs-reið.

11.

Undir ey —
Vaknaði hann Ásbjörn, upp að hann sá:
„guð ráði hvernig Málmfríður má!"

12.

Upp að hann sá —
Herra Ásbjörn vendir sínum skipunum á geim,
svo siglir hann til Sælanda heim.

13.

Skipunum á geim —
Kastar hann akkeri á hvítan sand,
þar gekk herra Ásbjörn fyrst á land.

14.

Hvítan sand —
Þegar hann kom í borgarhlið:
líkið á börunum stóð þar við.

15.

Í borgarhlið —
þegar hann kom í kirkju inn:
líkið á börunum stóð honum ígjen.

16.

Í kirkju inn —
„Hver á það bið ljúfa lík,
sem þèr berið svo virðuglega?"

17.

Ljúfa lík —
Svaraði hennar ýngsti bróðir,
sá bleikur stóð undir börum.

18.

Bróðir —
„Það er mín ýngsta systir,
sem þèr fyrir skemmstu festuð."

19.

Systir —
„Þess bið eg karl og kvinnu:
þèr lofið mèr við líkið mynnast!"

20.

Kvinnu —
Hann mynntist við hennar munn svo fast:
í níu hluti hans hjartað brast.

21.

Munn svo fast —
Þar var meiri grátur en gaman:
þrjú fóru líkin í steinþró saman.

22.

Grátur en gaman:
þrjú fóru líkin í steinþró saman.
Eitt var hann Ásbjörn, og annað hans frú,
en þriðja hans móðir, af sorgunum dó.
— Sèr hún ei þann öðlíng.

---

C.

(Kgl. okt., 5.)

1.

Kristín býr í Skáney,
hún þiggur ei gull af láni.
— Sèr hún ei þann öðlíng.

2.

Hún á ei barn nema hana Málfríði ein,
hún giptir hana engum óríkum svein.

3.

Þar kom hann Ásbjörn og hennar bað,
honum var hún Málfríður gefin í stað.

4.

Ásbjörn vill sig í leiðángur fara,
Málfríður biður hann heima vera.

5.

„Því var mèr spáð, þá eg var mey:
að eg skyldi að mínu fyrsta barni dey."

6.

„Trúðu alldrei spákonu spá!
treystu á þann guð, sem allt gott má!"

7.

Tók hann sitt skipið, og vendaði í kross:
svo sigldi hann undan Sælandafoss.

8.

Fyrstu nótt hann tjaldaði undir ey:
hann Ásbjörn dreymdi sína festarmey.

9.

Upp að hann leit og út hann sá:
„guð ráði hvernig mín Málfríður má!"

10.

Tók hann sitt skipið og vendaði á geim,
svo sigldi hann til Sælanda heim.

11.

Þegar hann kom í kirkjunnar hlið:
líkið á börunum stóð þar við.

12.

„Hver á þetta ljósa lík,
er þèr berið við værðinni slík?"

13.

Svaraði hans ýngsta systir:
„þú fyrir skemmstu festir."

14.

„Þess bið eg alla, karla sem kvinnur:
að þèr lofið mèr við líkið að mynnast."

15.

Svo mynntist hann Ásbjörn við líkið fast:
í níu hlutina hans hjartað brast.

16.

Þar var meiri grátur en gaman:
þrjú fóru líkin í steinþró saman.

17.

Eitt var hann Ásbjörn, og annað hans frú,
þriðja hans móðir, af sorgum dó.
— Sèr hún ei þann öðling.

---

## D.

(Arnam. 151, d, 4.)

1.

Kristín bjó í Skáney,
tekur hún gull af Láney.
— Sèr hún ei sinn öðling.

2.

Skáney —
tekur hún gull af Láney.
Hún átti ekki barn, nema Málfríði ein,
hún giptir hana engum slèttum svein.
— Sèr hún ei sinn öðling.

3.

Málfríði ein —
Ásbjörn úngi hennar bað,
móðirin gaf hana burtu í stað.

4.

Hennar bað —
Í Skáney var brullaupið sett,
síðan heim til Sælanda flutt.

5.

Brullaupið sett —
Níu mánuði voru þau saman,
undu sèr með gleði og gaman.

6.

Voru þau saman —
Ásbjörn vill í leiðángur fara,
Málfríður bað hann heima vera.

7.

Í leiðángur fara —
„Því var mèr spáð, þá eg var mey:
eg skyldi að mínu fyrsta barninu dey."

8.

Þá eg var mey —
„Trúðu aldrei spákonum meðan þú lifir!
haltu þeirri trú, sem guð hefir þèr gefið!"

9.

Meðan þú lifir —
Ásbjörn vendar sínum skipum á fley,
og sigldi svo undir Viðarey.

10.

Á fley —
Fyrstu nótt hann lá við ey,
dreymdi hann sína festarmey.

11.

[Lá við ey —]
Upp hann leit og út hann sá:
„guð ráði hvernig Málfríður má!"

12.

Út hann sá —
Ásbjörn vendar sínum skipum á seim,
svo siglir hann til Salanda heim.

13.

Á seim —
Þegar hann kom í garðsins hlið,
krossinn á börunum stóð þar við.

14.

Garðsins hlið —
þegar hann kom í kirkjuna inn,
lík Málfríðar lá honum ígjen.

15.

Í kirkjuna inn —
Meiri var þar harmur, en þar var gaman:
þrjú fóru lík í steinþró saman.

16.

[En þar var gaman —]
Fyrst var hann Ásbjörn, þá var hans frú,
barnið það í sorgunum dó.

17.

Þá er hans frú,
barnið það í sorgunum dó.
Venda eg mínu kvæði í kross:
guð og María sè með oss!
— Sèr hún ei sinn öðlíng.

*Overskrift.* **B**: Kvæði af Málmfríði [**b**: Málfríði]. (*Denne forskel i navn er gennemgående.*)

**A**, *v. 6, l. 1.* á, *hdskr. synes at have:* ei.

— *v. 17, l. 2.* gulldregnar, *hdskr.:* gulldregðar.

— *v. 19, l. 2.* hjartað, *hdskr.:* sier það.

**B**, *Omkvæd.* **a** *har for ei undertiden* eigi

— *v. 4, l. 3.* undu, **b**; **a**: unntu (*ligeså i gentagelsen*).

— *v. 7, l. 3.* treystu; **a** *i gentag.:* trúðu.

— *v. 9, l. 2.* skipum, **b**: skipunum (*ligeså i gentagelsen*).

— *v 11, l. 2.* upp, *fattes her i* **b**. *L. 3.* Málmfríðar, **b**: hún M. (*ligeså i gentag.*).

— *v. 14, l. 1.* **b**: Á hvítan sand

— *v. 17, l. 3.* sá, **b**: er (*men i gentag.:* sá).

— *v. 18, l. 3.* sem, **b**: er.

— *v. 19, l. 3.* mynnast, **b** *har i gentag.:* að mynnast.

— *v. 21, l. 3* líkin, **b**: lík (*ligeså i n. v.*).

— *v. 22, l. 4.* af, **b**; **a**: er af.

**D**, *v. 2, l. 4.* hún, *fattes i gentagelsen. L. 4.* engum, *hdskr. begge gange:* úngum (*jfr.* **C**, *v. 2*).

— *v. 3, l. 3.* burtu, *i gentag.:* burt.

— *v. 7, l. 3.* eg, *sål. gentagelsen; her:* að eg.

— *v. 9, l. 3.* og sigldi, *i gentag.:* siglir.

— *v. 12, l. 3.* seim, *som håndskr. har begge gange, turde måske være en fejl for:* geim.

erholder uden Betaling et Exemplar af de efter hans Indtrædelse udgivne Skrifter.

§ 5. Naar Samfundet tæller 500 Medlemmer, paaligger det Raadet, at bringe under Forhandling i Samfundet, hvorvidt nye og udførligere Love skulle vedtages. Indtil da skal Raadet paa det aarlige Møde afgive Beretning om det forløbne Aars Virksomhed og aflægge Regnskab.

Samfundet har udgivet:

*I. Hrafnkel Freysgodes Saga*, besørget af K. Gislason og oversat af N. L. Westergaard. 1847. Bogladepris 40 Sk.

*II. Droplaugarsona saga*, besørget og ledsaget med en Analyse og Ordsamling af K. Gislason. 1847. Bogladepris 1 Rdl. 8 Sk.

*III. Hervarar saga ok Heiðreks konungs*, besørget af N. M. Petersen og oversat af G. Thorarensen. 1847. Bogladepris 72 Sk.

*IV. Bjarnar saga Hítdælakappa*, besørget og oversat af H. Friðriksson. 1847. Bogladepris 84 Sk.

*V. Vápnfirðinga saga*, þáttr af Þorsteini hvíta, þáttr af Þorsteini stangarhögg, Brandkrossa þáttr, besørget og oversat af G. Thordarson. 1848. Bogladepris 76 Sk.

*VI. Sagan af Þórði hreðu*, besørget og oversat af H. Friðriksson. 1848. Bogladepris 72 Sk.

*VII. Lucidarius, en Folkebog fra Middelalderen*, besørget ved C. J. Brandt. 1849. Boglpr. 80 Sk.

*VIII. Tvær Sögur af Gísla Súrssyni*, udgivne ved K. Gislason. Med en Forklaring over Kvadene af Dr. S. Egilsson. 1849. Bogladepris 1 Rdl. 32 Sk.

*IX. Kong Waldemar den andens Jyske Lov*, ved N. M. Petersen. 1850. Bogladepris 84 Sk.

*X. Bandamanna Saga*, ved H. Friðriksson. 1850. Bogladepris 60 Sk.

*XI. Grágás*, Islændernes Lovbog i Fristatens Tid, udgivet og oversat af V. Finsen. (Förste Hefte.) 1850. Bogladepris 68 Sk.

*XII. Sjurðar kvæði*, ved V. U. Hammershaimb. 1851. Bogladepris 1 Rdl. 24 Sk.

*XIII. Valdemars sællandske Lov* ved P. G. Thorsen. 1852. Bogladepris 80 Sk.

*XIV. Eriks sællandske Lov* ved P. G. Thorsen. 1852. Bogladepris 1 Rdl. 16 Sk.

*XV. Fóstbræðra Saga* ved K. Gislason. (Förste Hefte.) 1852. Bogladepris 68 Sk.

*XVI. Grettis Saga* ved G. Thordarson. (Förste Hefte.) 1853. Bogladepris 1 Rdl. 32 Sk.

*XVII. Grágás*, udgivet og oversat af V. Finsen. (Andet Hefte.) 1853. Bogladepris 64 Sk.

*XVIII. Skånske Lov*, ved P. G. Thorsen. 1854. Bogladepris 2 Rdl.

Til Pressen forberedes:

*Fóstbræðra saga* ved K. Gislason. (Andet Hefte.)

*Grágás*, besørget og oversat af V. Finsen. (Tredie Hefte.)

*Grettis Saga* ved G. Thordarson. (Andet Hefte.)

*Hávarðar saga Ísfirðings* ved G. Thordarson.

*Udsigt over Nordens gamle Literatur* ved P. G. Thorsen.

*Njáls saga* ved K. Gislason.

*Færöiske Kvæder* ved V. Hammershaimb. (Andet Hefte.)

*Íslenzk fornkvæði*, ved Sv. Grundtvig og Jón Sigurðsson. (Andet Hefte.)

Tiltrædende Medlemmer kunne erholde alle af Samfundet udgivne (I-XVIII) Skrifter for 15 Rdl. Anmældelser om Indtrædelse i Samfundet modtages saavel hos Samfundsraadets Medlemmer: *K. Gislason* (Forhaabningsholm Nr. 3), *A. F. Krieger* (Kronprindsessegade 401 C), *O. Stephensen* (Boldhusgade 222), *P. G. Thorsen* (Kronprindsessegade 408) og *N. L. Westergaard* (Gammelstrand 7), som i den *Gyldendalske Boglade* (Klareboderne 8) og udenfor Kjøbenhavn hos dennes Commissionærer.

# Nordiske Oldskrifter

udgivne

af

**det nordiske Literatur-Samfund.**

---

## XXIV.

## Íslenzk fornkvæði,

*ved Svend Grundtvig og Jón Sigurðsson.*

---

Andet Hefte.

---

**KJØBENHAVN.**

Berlingske Bogtrykkeri ved N. H. Stenderup.

1858.

Udgivet for første Halvaar 1857.

## DET NORDISKE LITERATUR-SAMFUND.

---

*Det nordiske Literatur-Samfund* har til Formaal at udbrede Kundskab til Nordens ældre Literatur, navnlig ved at udgive nordiske Oldskrifter paa en med Almenhedens Tarv overenstemmende Maade, og ved at udbrede disse i saa vid en Kreds som muligt. Samfundet vil derfor nærmest foranstalte Haandudgaver af de vigtigste islandske og andre oldnordiske Skrifter med en vel bearbeidet Text, og vil ved Siden heraf ogsaa søge at fremkalde lignende Udgaver af de senere Sprogmindesmærker, navnlig af Levningerne fra vor egen Middelalder. Men da Kundskaben til Nordens Oldsprog er saa lidet udbredt, vil Samfundet, i det mindste indtil Tilvejebringelsen af andre fornødne Hjælpemidler gjör det overflødigt, ledsage hine Textudgaver med Oversættelser eller saadanne Oplysninger, som ere nødvendige til fuldstændig at forstaae det udgivne. De af Samfundet besørgede Skrifter skulle indrettes saaledes, at Texterne og Oversættelserne eller Oplysningerne kunne samles i særskilte Bind. Samfundets Love ere:

§ 1. Samfundet har til Formaal, at fremme Kundskab til Nordens ældre Literatur, nærmest ved at udgive og udbrede nordiske Oldskrifter og de til disses Benyttelse fornødne Hjælpemidler.

§ 2. Aarlig afholdes i Kjøbenhavn et Møde, hvorpaa samtlige Medlemmer have Stemmeret.

§ 3. Til at bestyre Samfundets Anliggender vælges paa det aarlige Møde et Raad af 5 Medlemmer. Af disse afgaae efter det første Aar tre, næste Aar to, og saa fremdeles.

§ 4. Medlemmer optages af Samfundsraadet. Det halvaarlige Bidrag er 1 Rdl. Den der undlader at betale, betragtes som udtraadt af Samfundet. Ethvert Medlem erholder uden Betaling et Exemplar af de efter hans Indtrædelse udgivne Skrifter.

## 25.

# Kvæði af Íngu lífstuttu.

Ingelil bor sig op i land,
af guld vare hendes akselband.

Mange mænd bejlede til hende, men ingen af dem vilde hun have. Kongen selv bejler, men får også afslag. Da kom en ridder ridende i land: ham gaves Ingelil til ægte. I ni dage levede de sammen i glæde, men den tiende nat fik Ingelil helsot. Hun lod da sin husbond kalde, sagde ham, af hun følte døden nærme sig, og spurde, hvorledes han vilde bære hendes tab. Han svarer, at han vil jorde hende i viet muld og selv leve efter med sorg. Ingelil siger da, at han skal ride til Hunevig, der er en mø, som er hende lig: denne skal han ægte og derved glemme sin kvide. Så døde Inge, og ridderen levede efter med sorgen. — Opskr. **A** tilföjer, at da Inges lig bares i kirken, da døde ridderen af sorg; **C** derimod, at han fulgte hendes råd og ægtede møen fra Hunevig.

**Dansk** findes denne vise i flere opskrifter fra 16de årh.; en sådan er trykt i Levninger, II, nr. 15 og hos Abr., nr. 216. For Húnavík har den danske Slesvig.

**Svensk** står den, efter et hdskr. fra 16de årh., hos Arwidss., nr. 131.

(**A**, **a**: kgl. fol., 69. **b**: G. Ív., 69. **B**, **a**: Giss. Sv., 13. **b**: kgl. fol., 13. **c**: G. Ív., 13. **C**: Arch. L, 5.)

1.

Ínga litla út í lönd,
— og undir hlíða —
gull voru hennar axlabönd.
— vel mátti hún hans bíða —
grænt og fagurt aldin undir hlíða.

2.

Hennar báðu margir menn:
ei vill frúin giptast enn.

3.

Hennar bað svo kóngurinn sjálfur:
ei vill frúin giptast heldur.

4.

Þar kom einn riddari ríðandi í land:
honum var Ínga gefin á hand.

5.

Níu nætur voru þau saman,
undu sèr með gleði og gaman.

6.

En á þeirri tíundu nótt
þá tók Ínga banasótt.

7.

Kalla lèt hún hann til sín:
„góði riddari, gá til mín!

8.

Hvernig muntu bera þig?
dauðinn tekr að sigra mig."

9.

„Eg mun lifa við sút á fold,
en þú munt grafin í vígða mold."

10.

„Ríðtu þig í Húnavík!
þar er sú mey, sem mèr er lík.

11.

Þegar þú kemr á hennar arm,
þá er í burtu tregi og harmr."

12.

Ínga gaf upp sína önd,
riddarann spenntu sorgarbönd.

13.

Líkið var borið í kirkju inn:
— og undir hlíða —
dauðr lá þar og riddarinn.
— vel mátti hún hans bíða —
grænt og fagurt aldin undir hlíða.

---

*Overskrift.* **A**: Kvæði af Íngu; **Ba**: Íngu kvæði; **Bbc**: Kvæði af Íngu lífstuttu.

*Omkvæd.* 1 (og undir hlíða): og, *udelades hyppig i* **A Bab**; **C** *overalt:* hlíðar. 2 (vel... bíða): **B** *stundom,* **C** *overalt:* og vel... 3 (grænt... hlíða): *fattes i* **B**; **C** *overalt:* hlíðar.

*V. 1, l. 1.* **C**: Ínga litla á önnur lönd. *L. 2.* gull, **Bbc**: gulleg.

*V. 2, l. 2.* ei, **Bb C**: ekki. *L. 2.* frúin, **C**: Ínga.

*V. 3 fattes i* **BC**.

*V. 4, l. 1.* einn riddari, **Ba**: riddarinn; **Bbc**: riddari einn. *L. 1.* í, **C**: á. *L. 2.* á hand, **Ba**: á hönd; **Bbc**: í hand.

*V. 5, l. 1.* Níu, **B**: Sex. *L. 2.* undu, **Ab**; **Aa B**: unntu; **C**: unnust þau m. g. o. g. *L. 2.* með, **B**: við.

*V. 6, l. 1 fattes i* **C**; **B**: það var á hinni sjöundu nótt.
*V. 7 fattes i* **C**. *L. 1.* **B**: Kalla lætr hún kóng [**Bb**: konúng] til sín. *L. 2.* gá, **B**: gakk.
*V.* 8. **C**: Hv. ætla þú berir þig, ef dauðinn &c. *L. 1.* muntu, **B**: skaltu.
*V. 9 fattes i* **C**. *L. 1.* **B**: E. m. l. við vatn og [**Bb**: af; **Bc**: á] fold. *L. 2.* en, *fattes i* **B**.
*V. 10, l. 2.* **B**: þar er sú frú að mèr er lík.
**C**: þar fær þú mey sem mèr er lík.
*V. 11 fattes i* **C**. *L. 2.* **B**: minka mun þèr tregi og harmr.
*V. 12, l. 1.* **C**: Ínga litla gaf upp önd. *L. 2.* **Ba**: riddarinn spennir s. b.; **Bbc**: riddarann spenna s. b.
*V. 13 fattes i* **B**; **C** (9): Hann reið sig i Húnavík,
þar fèkk hann mey sem henni var lík.
*L. 1.* kirkju, **Ab**: kirkjuna. (*Slutningsverset i* **A** *synes, ligesom det i* **C**, *at være senere tilsætning*).

---

## 26.

## Símonar kvæði.

---

Stander op, ædle hovmænd,
om i ville vise lære:
sættes skal ting i dannerkonges hal;
hvad bønder ville kære,
nu kunne hovmænd lære.

Herre kong Simon rider til tinge med sine danske hovmænd. Var fru Ingegerd her, siger han, så skulde jeg vel komme til rette med hende. Da fremstod fru Ingegerd med sit gule hår og førte sin klage: hun havde givet kong Simon både øl og mad og opredt sæng, men ilde havde han lönnet hende derfor: han brød med magt ind i loftet, hvor hun lå, lod

sine svende holde hende, medens han fremmede sin onde vilje, tog hende i gulen lok og svøbte hendes hoved i særk, medens han udførte sit nidingsværk; hun gik da med sin husbonds barn: livløst kom det til verden for hans skændige gernings skyld. Da stod voldsmanden frem og bød hende tredive mark guld: han vilde tilmed falde hende til fode og göre afbigt. Men fru Ingegerd svarer, at hun vil hverken have hans røde guld eller hans fodefald: han skal lade sit liv for al verdens öjne. Så toge de herre kong Simon og hugge hans hoved af; fru Ingegerd holdt selv i hans gule lok: hun kastede hans hoved i skarnet med de ord, at det var lön som forskyldt.

---

**Dansk** haves denne vise med andre navne: hr. Tidemand eller Ebbe Galt; trykt står den hos Vedel, III, nr. 17 (en isl. oversættelse hos G. Ív., 126) og hos Abr., nr. 63.

**Færøisk:** „Ebba karls kvæði", endnu utrykt; en opskrift i Schrøters hdskr. (ny kgl. saml. 346. 8vo), nr. 10.

---

(**a**: Giss. Sv., 12. **b**: kgl. fol., 12. **c**: G. Ív., 12.)

Standið upp, eðla hofmenn!
ef þèr vilið vísu læra:
setja skal þíng í Dana kóngs bý;
hvað vilja bændur kæra,
nú mega hofmenn læra.

1.

Það er hann herra kóng Símon,
hann ríðr á mannamót
með sína dönsku hofmenn,
glaðir reiða spjót.
Hvað vilja bændur kæra, nú mega hofmenn læra.

2.

Það er hann herra kóng Símon,
hann talar í brysti sèr:
„væri hèr frúin Íngigerður,
hún bæri sætur af mèr."

3.

Fram kom frúin Íngigerður
með sitt gula hár:
„heyrðu það, herra kóng Símon!
eg sè vel hvar þú stár.

4.

Eg gaf þèr minn öl og mat
á míns herrans traust:
heyrðu það, herra kóng Símon!
þú þást það þakkarlaust.

5.

Eg gaf þèr minn öl og mat,
sem þú vildir þiggja:
sængin stár með rauða gull,
þar þú áttir að liggja.

6.

Þú brauzt upp mitt hæga lopt,
þar að eg inni lá:
bæði hurð og gættir,
plokkaðir lokur í frá.

7.

Þú lèzt þína sveina
halda fótum mín,
meðan þú, herra kóng Símon!
framdir vilja þín.

8.

Þú tókst í minn gula lokk
og vattst mitt höfuð í serk:
heyrðu það, herra kóng Símon!
þú vannst þar níðíngsverk.

9.

Eg var mig með bóndans barni
í það sama sinn:
það kom ekki lífs í heim
fyrir skemdar-gjörníng þinn."

10.

„Þrjátigi merkur rauða gulls
býð eg þèr til bóta:
vilir þú mína þjónustu þiggja,
þá fell eg þèr til fóta."

11.

„Eg vil ei þitt rauða gull
og ei þitt fótafall:
þú skalt missa lífið í dag
fyrir veröldinni all."

12.

Þeir tóku hann herra kóng Símon
og hjuggu hans höfuð við stokk:
en hún frúin Íngigerður
hèlt úti hans lokk.

13.

Hún tók í hans gula lokk
og kastaði hans höfði i saur:
„heyrðu það, herra kóng Símon!
þú gjörðir svo til vor!"

14.

Engin skyldi kvinnan
svíkja sinn eiginn mann:
hèr er óðr á enda kominn,
læri hver sem kann!
Hvað vilja bændur kæra, nú mega hofmenn læra.

---

*Overskrift:* Kvæði af herra kóng Símoni.
*Omkvædets stamme, l. 2.* ef, **bc**; *fattes i* **a**. *L. 3.* Dana kóngs bý, **bc**: Dana kóngs [**b**: konúngs] höll.
*V. 1, l. 4.* glaðir, **bc**: sem glaðir.
*V. 2, l. 4.* bæri sætur, *sål.* **a** (*fejl f.: tæki sættir?*); **bc**: bæri blak.
*V. 3, l. 2.* gnla, **bc**: fagra.
*V. 4—5 ombyttes i* **b**; *v. 5 fattes i* **c**.
*V. 4, l. 1.* minn, **b**: mitt (*sål. også* **bc** *i n. v.*). *L. 2.* herrans, **bc**: herra.
*V. 5, l. 3.* stár, **b**: stóð. *L. 4.* **b**: þar áttir þú í að liggja.
*V. 6, l. 2.* þar að, **bc**: þar eð. *L. 3.* gættir, **bc**: gættum.
*V. 7, l. 2.* halda, **bc**: halda upp.
*V. 8, l. 3—4.* **bc**: meðan þú h. k. S. vannst það níðíngsverk.
*V. 9, l. 1.* mig, **b**: úng. *L. 1.* barni, **bc**; **a**: barn.
*V. 11, l. 1 og 2.* ei, **b**: eigi. *L. 4.* all, **bc**: allri.
*V. 12, l. 2.* hans, **b**: honum.
*V. 14, l. 4.* læri, **bc**: hæli.

---

## 27.

# Kvæði af Magnúsi Jónssyni.

Ellen var br. Davids enke; hende lokkede Magnus Jonssön og lovede hende troskab. Magnus red af Ellens gård; hun fulgte ham på vej, og hendes sidste ord til ham

var det: svig mig ikke, Magnus Jonssön, og bryd ikke den tro, du har lovet mig! Men Magnus fulgte sine frænders råd og fæstede sig en anden viv, Ingegerd ved navn. Så faldt talen dem imellem:

Hør du det, fru Ingegerd, fæstemøen min:
giv du hende fru Ellen brudeklæder din'!

För skal jeg i ilden brænde brudeklæder gode:
end hun Ellen, frille din, hun skal for dem råde.

För skal jeg i ilden brænde alt hvad min fader mig gav:
end hun Ellen, frille din, skal have glæde deraf.

Lave Davidssön tjente i kongens gård; han bad om orlov og fik den; inden syv dage skal han være tilbage igjen, at følge kongen i leding. Lave rider i sin moders gård, og fru Ellen taler mangt et lönligt ord med sine sönner: det duer ikke at dølge, siger hun, at meget er nu anderledes, end da vi skiltes sidst; i dag skal jeg til kirke at se Ingegerd, om hun er så dejlig, som der går ord af. Begge de stolte kvinder ginge sammen i én kirkestol, og midt under messen kom de til ords sammen. Det er ikke min skik, siger Ellen, at tale under messen; men når du taler, så må jeg svare. Det vil jeg da sige dig, Ingegerd, at det bedste du har i dit eje, det hører mig til. Magnus Jonssön sidder imens tavs med sin bog i hånd: han ser Davidssönnerne, det var skönne karle, men han kender dem ikke. De toge Magnus Jonssön imellem sig og spurde, hvad bod han vilde give, for han havde lokket deres moder. Skibe i sø og herligt gods, en abbildgård og tredive mark guld vil han give deres moder Ellen. Hun beder sine sönner at tage imod de rige bøder og at lade Magnus leve. Men:

Alt for østen kirken de hugge ham hoved fra hals:
Ellen stod for sønden, hun græd foruden al fals.

Det var hende fru Ingegerd med sit store hovmod:
alt for østen kirken så hun sin herres blod.

Toge de hende fru Ingegerd, de toge hende i favn:
skæbne skulde nu skiftes om, og hun bære frillenavn.

Nu da måtte fru Ingegerd leve med den barm:
nætter ni hun frille lå på herre Laves arm.

Så trådte de stien til borgen.

---

**Færøisk** haves samme vise i Schrøters hdskr. (ny kgl. saml. 346. 8vo), nr. 6, hvor den begynder:

Tað var Magnus Jegvansson,
hann giljar alt hann mátti:
hann giljaði tað væna vív,
íð ungi Dávan átti.

---

(**a**: Giss. Sv., 1. **b**: kgl. fol., 1. **c**: G. Ív., 1.)

1.

Vilið þèr nokkuð hlýða mèr
um eina litla hríð:
hversu hann Magnús Jónsson
ginnti væna víf.
Þeir troða stiginn til borgar.

2.

Ginnti hann hið væna víf,
sem herra Davíð átti:
lofaði hann henni staðlegri trú
í öllu því hann mátti.

3.

Það er hann Magnús Jónsson,
út af garði reið:

Elen tók sína kápu
og fylgði honum á leið.

4.

„Heyrðu það, Magnús Jónsson,
og allir þínir menn:
svíktu mig ekki í staðlegri trú!
þess bið eg þig enn.

5.

Heyrðu það, Magnús Jónsson,
og allir þínir sveinar:
svíktu mig ekki í staðlegri trú!
hver sem það vill meina."

6.

Það er hann Magnús Jónsson,
hann fór að frænda ráði:
festi hann sèr annað víf
og jók sèr litlar náðir.

7.

„Heyrðu það, frúin Íngigerður,
festar-mærin mín:
gefðu henni Elenu
brúðar-klæðin þín!"

8.

„Fyrr skal eg í eldi brenna
brúðar-klæðin mín:
en hún Elen, frilla þín,
hún eignist þíngin mín.

9.

Fyrr skal eg í eldi brenna
góz sem faðir minn gaf:

en hún Elen, frilla þín,
hún gjöri sig glaða af."

10.

Það er hann Logi Davíðsson,
inn fyrir kónginn gekk:
beiddist hann þar orðlofs,
snögglega hann það fèkk.

11.

„Heyrðu það, Logi Davíðsson!
lofa eg þèr að ríða:
innan liðnar nætur sjö
þá skulum vær heiman stríða."

12.

Það er hann Logi Davíðsson,
hann stígr í gylta hrínga:
svo reið hann til borgarinnar,
að jörðin náði að springa.

13.

Dregnir voru dúkar,
slegin voru borð:
Elen talar við sína syni
svo margt leynilegt orð.

14.

„Heyrið það, mínir kæru synir!
þess tjáir ekki að dylja:
margt hefir mèr til rauna borið,
síðan við fórum að skilja.

15.

Eg skal mig til kirkju í dag,
frú Íngigerði að sjá:

vita hvort hún er svo voldugleg,
sem sögurnar gánga frá."

16.

Báðum var þeim eljunum
skipa á einn stól:
en í miðri messunni
hófu þær sín mál.

17.

„Það er ekki minn siður
í messunni að tala:
fyrst að þú mig orða biður,
þá vil eg þèr svara.

18.

Eg hirði ekki, Íngigerður!
að þiggja orð af þèr:
það þú átt bezt í eigu þinni
gjalda ættir þú mèr."

19.

Það er hann Magnús Jónsson,
hann heldr á bók í hendi:
hann leit aldrei vænni menn,
og ei hann bræður kenndi.

20.

Þeir tóku hann Magnús Jónsson
og leiddu á millum sín:
„hvað skulum við hafa í staðinn þess,
þú ginntir móður mín?"

21.

„Eg á mèr einn skipaflota,
og gjörvallt góz eg á:

það vil eg svo gjarnan
ykkar móður fá.

22.

Eg á mèr einn eplagarð,
hann stár með aldinblóma,
þrjátigi merkur rauða gulls:
það aflar vel til sóma."

23.

„Heyrið það, mínir kæru synir!
látið hann Magnús lifa:
þiggið allt það mikla gull,
sem hann vill ykkur gefa!"

24.

Fyrir austan kirkjuna
þeir hjuggu hans höfuð af háls:
Elen stóð fyrir sunnan
og felldi þar tár.

25.

Það er hún frúin Íngigerður,
með svo miklum móð
fyrir austan kirkjuna
leit hún síns herra blóð.

26.

Þeir tóku frúna Íngigerði
og lögðu uppá sinn arm:
ymsar skulu þær skipta um
og bera frillu nafn.

27.

En svo varð hún Íngigerður
að lifa við þann harm:

níu nætur frillan lá
á herra Loga arm.
Þeir troða stiginn til borgar.

---

*Overskrift*: Kvæði af Magnúsi Jónssyni, **a**.
*V. 1, l. 4.* væna, **bc**: hið væna.
*V. 4, l. 3.* ekki, **c**: ei (*ligeså i n. v., l. 3*).
*V. 5, l. 3.* staðlegri, **b**: staðfastri.
*V. 7, l. 4.* þín, **b**: fín.
*V. 8, l. 2.* brúðar-klæðin, **b**: brúðklæðin. *L. 4.* mín, **bc**: fín.
*V. 9, l. 4.* **bc**: gjöri sig glaða þar af.
*V. 11, l. 3.* **a**: innan liðinna nætur sjö; **bc**: innan liðnra nátta sjö. *L. 4.* þá, *fattes i* **bc**. *L. 4.* vær, **bc**: við.
*V. 12, l. 2.* stígr, **bc**: stè.
*V. 13, l. 3.* sína syni, **b**: sveina sína; **c**: synina sína.
*V. 14, l. 3.* mèr, **bc**: oss. *L. 4.* við, **bc**: vèr.
*V. 19, l. 3.* **bc**: aldrei litu þeir vænni mann. *L. 4.* og ei, **bc**: eigi.
*V. 21, l. 2.* eg á, **bc**: þar hjá.
*V. 22, l. 3.* þrjátigi, **bc**: og þrjátigir. *L. 4.* vel til, **bc**: mikils.
*V. 23, l. 4.* sem, **bc**: er.
*V. 24, l. 2.* af, **bc**; **a**: á. *L. 4.* **bc**: og felldi þar harm til máls.
*V. 25, l. 2.* **bc**: með miklum sorgar-móð.
*V. 26, l. 3—4.* ymsir sk. þeir sk. um, að beri hún fr. n.
*V. 27, l. 1.* En, **bc**: Og.

---

## 28.

# Kvæði af Loga í Vallarhlíð.

---

Adeluds (Aðallist) sidder i Danmark, fager som en rose og dertil vel oplært: hun kunde læse runer og sömme silke. To riddere bare elskov til hende: Villum borggreve (Vilhjálmur borgargreifi) og Lave af Voldelide (Logi í Vallarhlíð), dan-

kongens frænde. Hun blev given Villum, og med sorg og harm i hjærtet red Lave hjem i sin gård. Hans moder så hans sorg og spurde om grunden. Han svarer, at hellere vilde han have mistet alle sine frænder, end at Adeluds skulde være given til en anden. Moderen vil trøste ham og lover at finde ham en anden og vænere brud; men Lave svarer:

Farer du end al Danmark om og vide om andet land:
aldrig fødes under sol vænere liljevand.

Moderen beder ham atter at overvinde sin sorg: ti det er ej godt at elske anden mands eje.

Villum og Adeluds holde nu bryllup, og en måned hengår for dem i glæde og gammen. Det var da om en vinternat: Adeluds vågner og beder Villum råde hendes dröm, men han svarer, at det er ikke stormands sæd at råde kvindedrömme. Hun siger ham dog sin dröm: en hvidbjörn mødte ham på hans kirkevej og lagde sin tunge lab fast på hans bryst. Hun beder ham derfor ej at gå ene til kirken, men tage en vel rustet svend med sig. Men Villum agter ikke hendes frygt: han går ene ud i sin silkeskjorte. Der står Lave og venter ham. Det var vel, du kom, siger Lave: nu kan jeg lönne dig for mangt et lönligt kys; og dermed hug han Villum til døde. Adeluds går til kirke; men da hun kommer til kirkestenten, da ser hun Villum ligge død. Hun böjer sig ned over liget og kysser det: i det samme står Lave for hende og siger: tag du nu mig, rige frue, isteden for din borggreve! Tal ikke derom, siger Adeluds: den, som skal hævne ham, er ikke ret langt fra mig.

Glad i hu rider Lave hjem i sin gård; hans moder ser, at hans sværd er blodigt, og spör om årsagen. Lave svarer: nu har jeg vejet den borggreve, som tog den stolte

frue. Da brast hans søster i gråd og sagde: dølgehjælm er end over den, som skal hævne hans bane. Lave siger: vær du kun rolig, hun har hverken sön eller datter, som kan tage hævn.

Villums lig blev stedet til jorde, og fru Adeluds sad sørgende efter på borgen. Ni måneder efter fødte hun en sön, han fik i dåben sin faders navn og vokste op hos sin moder; hendes møer vogtede og varede ham, som var han et helgenskrin. Det var en dag at ungen Villum gik i leg med de andre svende; han blev vred og slog de andre ilde. Da sagde de: bedre var det, om du så til at hævne din fader, end at du lader din styrke gå ud over os. Da blegnede ung Villum, han vilde ikke længer lege, men gik i loft til sin moder og sagde: hvorledes kom min fader af dage? det må du ikke dølge for mig. Moderen siger: først skal du lære vel at svømme og skyde og styre danske heste; så, om tre vintre, skal jeg svare dig på dit spörsmål. Men Villum vil straks have svar og siger: tidlig voxe ungen gris hvasse tænder i munde. Da gik Adeluds til kiste, tog faderens blodige skjorte og lagde i sönnens sked med de ord: det var Lave af Voldelide, som vog din fader. Villum går til sin morbroder og spör ham, hvad han nu først har at göre, om han vil have bod for sin fader. Morbroderen siger, at først skal han nu lade stævne til tinge og sende Lave en stævning. Lave kan ikke vide, hvor den stævning kommer fra, men hans søster siger: nu sandes mine ord: vist har fru Adeluds i löndom opfødt en sön, som vil hævne sin fader.

Lave klædte sig i ringebrynje og fór til tinge. Villum står på tinge; han spör sin morbroder ad: hvad er det for en stor mand, som sidder hist med gylden hjælm? Det er Lave, svarer morbroderen, han, som vog din fader. Nu

tog Lave til orde og sagde: hvi har man stævnet mig hid, at jeg skulde göre min ganger den møde? Da svarede Villum: ikke har jeg fået nogen meget stor bod for min fader, om du end har måttet ride din ganger træt. Lave svarer: hør nu, Villum Villumssön: jeg er kongens frænde og så mægtig en mand, at den skade, du har lidt, må du bære uden bod. Da drog Villum sit sværd, og for hans første hug faldt Laves hoved. Så red han rolig fra tinget med sin morbroder, hjem til sin moder, og sagde: nu har jeg vejet ham, der gjorde dig men. Da blev fru Adeluds glad og sagde: er det sandt, som du siger, da holder jeg ingen mand i Danmark for din overmand.

---

Denne vise har formodenlig hjemme i Danmark, hvor den ogsaa i sin tid må have været meget yndet, siden den findes i ikke mindre end 23 danske håndskrifter. Den er trykt på **dansk** i Tragica, nr. 18, i Levninger, II, nr. 12 og hos Abr., nr. 126; **svensk** (i en meget ufuldstændig optegnelse på 13 vers) hos Arwidss., nr. 15; **færøisk** haves den også, men endnu utrykt. Beslægtet med den er desuden en anden færøisk vise om „Frúin Málnía" i Schrøters hdskr., nr. 1, og en skotsk: „Fause Foodrage", i W. Scott's Minstrelsy, III, s. 3; Motherwell's Minstrelsy, s. 131.

Den her trykte islandske tekst (ti de to opskrifter ere så nær beslægtede, at de kunne betragtes som én) udmærker sig i lige höj grad ved sin simple og rene sagnform og sin mesterlige fremstilling; men den fattes dog måske slutning; i det mindste føre alle de danske opskrifter fortællingen videre: ungen Villum får fred af kongen og efter nogle endogså

hans søsterdatter til ægte. Nogle opskrifter lade ham endvidere krænke søsteren og dræbe broderen til sin faders banemand, der i de danske opskrifter overalt kaldes Svend eller svenden af Voldesløv, svensk: svennen uti Wallanzö, færøisk: sveinur í Vallalíð.

---

(**A**, **a**: Arnam. 151, d, 1. **b**: kgl. kv., s. 343. **B**, **a**: kgl. fol., 178. **b**: G. Ív., 178. **C**: Arnam. 153, e, 3 [kun vers 2].)

Þau voru börnin brigðu smá,
sèr báru horn að munni;
drósin dillaði þeim hún unni.

1.

Frúin sitr í ríkinu,
sú kann mart að vinna:
lesa á bækur rúnamál
og sauma silkitvinna.
Drósin dillaði þeim hún unni.

2.

Frúin sitr í ríkinu,
fögr sem rós eðr lilja:
hennar báðu riddarar tveir
með ást og allgóðan vilja.

3.

Vilhjálm hana keypti,
en Logi hennar bað:
svo syrgir hann eptir hana,
sem fugl á aldinblað.

4.

Vilhjálm hana festi,
en Logi hennar misti:
svo syrgir hann eptir hana,
sem fugl á aldinkvisti.

5.

Þá var Vilhjálmi vífið gefið,
Loga þótti illa:
allan bar hann vilja til þess,
herrans lífi að spilla.

6.

Heim reið Logi í Vallarhlíð
með svo miklu veldi:
hvorki neytti hann matar nè öls
á því sama kveldi.

7.

Til orða tók hún móðir hans:
„því eruð þèr ókátir,
sem þèr hafið í sóttum legið
eða stóra frændur látið?"

8.

„Fyrr vilda eg mist hafa
mína gjörvalla frændur:
heldr en honum Vilhjálmi
vífið gefið í hendur."

9.

„Heyrðu það nú, sonur minn,
syrgðu ei þitt líf!
eg skal fara í önnur lönd
og fá þèr vænna víf."

10.

„Þó þú farir um Danmörk
og víða um önnur lönd:
fæðist ekki undir sól
kurteisligra sprund."

11.

„Heyrðu það nú, sonur minn,
berðu ei aldin-þrá!
það er ei gott að elska það,
sem annar maðrinn á."

12.

Haldið var þar brullaupið
bæði með gleði og gaman:
mánuð einn á nefndri stund
voru þau frúin saman.

13.

Það var eina vintrar-nótt,
vil eg það greina skjótt:
„heyrðu það, úngi Vilhjálmur,
ráðtu minn drauminn fljótt!"

14.

„Heyrðu það nú, Aðallist mín,
sofðu þig til náða!
það er ekki ríks manns siðr
kvenna draum að ráða."

15.

„Það var minn hinn fyrsti draumr:
bjóstu þig til tíða,
hvítabjörn þèr á móti rann,
og sáran vildi svíða.

16.
Kvaddir þú hann góðum orðum,
svaraði hann þèr með þjósti:
lagði hann sinn hinn þúnga hramm
fast að þínu brjósti.

17.
Láttu þèr fylgja röskvan dreng,
sárt tók það mitt hjarta,
sá sem vel kann sverð að bera
og hrínga-brynju bjarta."

18.
Úti stóð Logi í Vallarhlíð,
þótti sèr lángt að bíða:
meðan sá ríki borgargreifi
klæddi sig til tíða.

19.
Úti stóð Logi í Vallarhlíð,
þótti sín æfin laung:
meðan sá ríki borgargreifi
klæddi sig til saungs.

20.
Út gekk hann Vilhjálmur
í silkiskyrtu ein:
þar kom Logi í Vallarhlíð
og vann honum dauðamein.

21.
„Vel fer það nú, Vilhjálmur!
þú hefir fundið oss:
nú verð eg að launa þèr
margan leyndarkoss."

22.

Hjó hann hann með hvössu sverði,
illa mun það vera:
það mun hún frúin Aðallist
um alla æfi bera.

23.

Aðallist sig til kirkju gengr
með sinn hrínginn rauða:
þegar hún kom á kirkjustètt,
hún fann sinn Vilhjálm dauðan.

24.

Laut hún ofan að líkinu
og gaf honum heilagt mynni:
svo jókst henni harmrinn strángr,
hún komst eigi lengra að sinni.

25.

Það var hann Logi í Vallarhlíð,
hann tekr svo margs að beiða:
„kjóstu mig nú, ríka frú,
fyrir þinn borgargreifa!"

26.

„Þegi þú nú, röskur drengur!
taktu ekki slíkt að nefna:
sá er ekki fjarri mèr,
sem hans skal fullvel hefna."

27.

Hjó hann hann með hvössu sverði,
illa unnið víg:
glaður reið hann herra Logi
heim í Vallarhlíð.

28.

Til orða tók hún móðir hans:
„því eru blóðug sverð,
sem þèr hafið riðið yðr
í víganna ferð?"

29.

Logi svarar sinni móður
svo vel sem hann kunni:
„eg hefi drepið borgargreifann,
er stoltar-frúin unni."

30.

Til orða tók hún systir hans
með svo mikinn grát:
„hulinhjálmr er yfir þeim,
sem hans mun hefna brátt."

31.

„Heyrðu það nú, systir mín!
berðu ei aldin-trega:
hún á hvorki son nè dóttur,
eptir hann að vega."

32.

Súngu þeir yfir líkinu,
vel fimm hundruð manna:
„nú má eg," segir ríka frú,
„sáran drauminn sanna."

33.

Frúin sitr í ríkinu
níu mánuði ein:
allt til þeirrar stundar
hún fæddi fagran svein.

33 b.

Barn var borið í kirkjuna inn
með svo miklum seim:
fékk hann þar í föður-arfinn
nafnið aptur í heim.

34.

Ólst hann upp í ríkinu
hjá kæru móður sín:
meyjar hèldu honum á lopt,
sem heilagt væri hann skrín.

34 b.

Sveinninn út á leikvöll fer
með sína alla sveina:
en þegar hann reiður er
þá slár til stórra meina.

35.

Svöruðu þeir hinir elztu sveinar,
sem fram í leikinn fóru:
„skár væri þèr þíns föður að hefna,
en berja á oss svo stórum."

36.

Það var hinn úngi Vilhjálmur
með sína kinn svo bleika:
hann gekk inn í hæga lopt,
hann hirti ei lengr að leika.

37.

„Heyrðu það nú, móðir mín,
eg mun spyrja þig:
hvað varð mínum föður að bana?
dyl þú ei þess mig!"

38.

„Þú skalt læra vel skot-og sund
og stýra vel dönskum hesti:
það vil eg nú segja þèr
að þriggja vintra fresti."

39.

Vilhjálm svarar sinni móður
svo vel sem hann kunni:
„snemma vaxa úngum grís
hvassar tennr í munni."

40.

Aðallist sig til kistu gengur,
skortir ekki fèð:
blóðdregna skyrtuna
lagði hún honum í hnè.

41.

„Eg get ekki sannara
sagt þèr heldr en so:
það er hann Logi í Vallarhlíð,
sem þinn föðurinn vo."

42.

Til orða tók úngi Vilhjálmur
við móðurbróður sinn:
„hvað á nú til ráðs að taka?
því reiðr er hugrinn minn."

43.

„Það er mitt hið fyrsta ràð,
gjöri eg á því skil:
þú stefnir þíng um landið allt
og bjóðir mönnum til."

43 b.

Hann lèt boð senda og yfir gánga,
eins sem fært varð skjótt:
herra Loga á þíng að stefna
bæði um dag og nótt.

44.

Til orða tók Logi í Vallarhlíð,
hann hèlt á gyltum vendi:
„hvaðan koma svo sterkleg mèr
stefnu-brèf að hendi?"

45.

Til orða tók hún systir hans,
fögr sem rós eðr lilja:
„hún mun svein í leyndum hafa alið,
hans mun hefna vilja."

46.

Klæðir hann sig í skikkju
og í bjarta hrínga:
so reið Logi í Vallarhlíð,
að jörðin þótti springa.

47.

Til orða tók úngi Vilhjálmur
við móðurbróður skyldan:
„hver er sá hinn mikli maðr,
er sitr með hjálminn gylltan?"

48.

„Eg get ekki sannara
sagt þèr heldr en so:
það er hann Logi í Vallarhlíð,
sem þinn föðurinn vo."

49.

Til orða tók Logi í Vallarhlíð,
hann tekr so mart að hæða:
„til hvers var eg híngað boðinn,
mína gángvara að mæða?"

50.

„Ekki hefi eg ofmikið
í föður-gjöldin mín:
þó þú mæðir, herra Logi!
gángvarana þín."

51.

„Skyldur er eg kónginum,
og mikið hefi eg traust:
heyrðu það, Vilhjálmr Vilhjálmsson!
þú hefir það bótalaust."

52.

Það var hann úngi Vilhjálmur,
sverð úr slíðrum dró:
það var hans hið fyrsta högg,
höfuð af Loga hjó.

53.

Það var hann úngi Vilhjálmur
með svo mikinn seim:
móðurbróðir á hægri hlið,
og svo riðu þeir heim.

54.

„Heyrðu það nú, móðir mín!
eg mun segja hèr:
eg vo Loga í Vallarhlíð,
sem meinið gjörði þèr."

55.

„Ef það er nú satt,
sem þú segir mèr:
engum skal eg í Danmörk halda
hærra hóf en þèr."
Drósin dillaði þeim hún unni.

---

*Overskrift fattes overalt.*

*Omkvædets stamme* (**B**, v. 1) *fattes i* **C**, *der dog ved versets ende har dets sidste lin.* = **A**. *L. 2.* sèr báru, **B**: er báru sèr. *L. 3.* drósin, **B**: en drósin (*dog fattes en en gang i* **Ba**).

*V. 1* (**B**, 2), *l. 3.* lesa, **B**: að lesa.

*V. 2* (**B**, *3*). **C**: Frúin sitr í ríkinu — fögur sem rós:
hennar báðu riddarar tveir — með ástarhót.
*L. 2.* eðr, **Bb**: og.

*V. 3* (**B**, *4*), *l. 1.* Vilhjálm, **B** *har overalt navneformen:* Vilhjálmur. *L. 4.* á, **B**: við.

*V. 4* (**B**, *5*), *l. 2.* hennar, **Bb**: hana.

*V. 5* (**B**, *6*), *l. 2.* Loga, **B**: en Loga.

*V.* 6 (**B**, *8*), *l. 1.* Logi, **B**: hann Logi. *L. 2.* miklu, **B**: þúngu

*V. 7* (**B**, *9*), *l. 2.* **B**: hví ert þú ókátur. *L. 3.* **B**: hvort hefir þú í s. i. *L. 4.* eða, **Bb**: eður. *L. 4.* stóra, **Aa**: stórar; **B**: ríka.

*V. 8* (**B**, *10*), *l. 1.* mist hafa, **B**: missa. *L. 2.* mína gjörvalla, **Bb**; **Aa Ba**: mínar gjörvallar. *L. 4.* **B**: víflð gæfist í hendur.

*V. 9* (**B**, *12*), *l. 3.* eg skal, **B**: þú skalt.

*V. 10* (**B**, *13*), *l. 1.* þú farir, **B**: eg fari. *L. 2.* víða um, **Bb**: fleiri. *L. 3.* **B**: f. ei u. sólinni.

*V. 11* (**B**, *11*), *l. 2.* **B**: auktu þèr eigi [**Bb**: ei] þá þrá. *L. 3.* elska það, **B**: elska.

*V. 12* (**B**, *7*), *l. 3.* stund, **B**: grund. *L. 4.* frúin, **Aa** *har her den tilföjning:* hjónin — svo segja sumir.

*V. 13* (**B**, *15*). *Forud for dette v.* (*og næst efter tekstens v. 10*) *har* **B** *følgende vers* (*14*):
Heima sat Logi í Vallarhlíð — og gætir sinna eykja:
hugsar hann um það árla og síð — borgarherrann svíkja.

*L. 2 og 4 ere i* **Ba** *ombyttede, dog sål. at rimordene* (skjótt ∞ fljótt) *ere blevne stående. L. 2.* vil eg það, **B**: það vil eg. *L. 3.* úngi, **B**: kæri. *L. 4.* minn, **B**: nú.

*V. 14* (**B**, *16*), *l. 2.* þig, **B**: þèr. *L. 3.* siðr, **B**: háttr. *L. 4.* **B**: kunna drauma að ráða.

*V. 15* (**B**, *17*), *l. 2.* bjóstu, **B**: að bjóstu. *L. 3.* hvítabjörn, **B**: hvíti björn. *L. 4.* **B**: sárt lèt hann þèr svíða.

*V. 16* (**B**, *18*), *l. 2.* með, **B**: af. *L. 3.* hann, **B**; **A**: þann.

*V. 17* (**B**, *19*), *l. 3.* sá, **B**: þann.

*V. 18* (**B**, *20*), *l. 2.* þótti sèr, **B**: og þótti. *L. 3.* **B**: á meðan hinn ríki borgarherra.

*V. 19* (**B**, *21*), *l. 2.* **B**: og þ. s. æfi l. *L. 3.* sá, **B**: inn.

*V. 20* (**B**, *22*), *l. 3.* í, **B**: úr.

*V. 21* (**B**, *24*), *l. 1.* fer, **B**: er. *L. 2.* **B**: að sýnt hefir þú þig oss. *L. 3.* verð, **B**: varð.

*V. 22* (**B**, *23*), *l. 1.* Hjó hann, **B**: Hann hjó. *L. 1.* hvössu, **B**: bitru. *L. 2.* mun, **B**: nam. *L. 3.* hún, *fattes i* **B**.

*V. 23* (**B**, *25*), *l. 2.* rauða, **B**: rauðan. *L. 4.* hún fann, **B**: sá hún.

*V. 24* (**B**, *26*), *l. 1.* ofan, **B**: niðr. *L. 2.* honum, **B**: því. *L. 3.* harmrinn, **B**: harmur. *L. 4.* komst eigi, **B**: fór ei.

*V. 25* (**B**, *27*), *l. 1.* **B**: Til orða tók L. í V. *L. 2.* hann, **B**: og. *L. 3.* kjóstu, **Ba**: kystu.

*V. 26* (**B**, *28*), *l. 1.* nú röskur, **Bb**: nú röskvi; **Ba**: hinn röskvi. *L. 2.* taktu ekki, **B**: og tak ei. *L. 3.* **B**: sá er nú ei fjærri mèr. *L. 4.* sem, **Bb**: er.

*V. 27* (**B**, *29*), *l. 1.* Hjó hann, **B**: Hann hjó.

*V. 28* (**B**, *30*), *l. 2.* **B**: hví er blóðugt sverð. *L. 3—4.* **B**: Svo sem þú hafir verið þig — víganna í ferð.

*V. 29* (**B**, *31*), *l. 1.* svarar, **B**: svaraði. *L. 3.* **B**: e. h. vegið þann borgargreifa. *L. 4.* er, **B**: sem. *L. 4.* frúin, **B**: frúnni. — (*V. 30* = **B**, *32.*)

*V. 31* (**B**, *33*), *l. 2.* **B**: berðu aldrei trega.

*V. 32* (**B**, *34*), *l. 1.* þeir, **B**: þar.

*V. 33* (**B**, *35*), *l. 3.* stundar, **B**: stundarinnar. *L. 4.* **B**: er fæddi hún fríðan svein.

*V. 33 b* ɔ: **B**, *v. 36. L. 3.* þar, **Bb**; **Ba**: það.

*V. 34* (**B**, *37*), *l. 4.* **B**: sem væri hann heilagt skrín.

*V. 34 b* ɔ: **B**, *v. 38. I* **Aa** *står her:* „hèr vantar í eitt að vísu."
*V. 35* (**B**, *39*), *l. 1.* Svöruðu, **B**: Töluðu. *L. 1.* hinir, **Bb**: enu. *L. 2.* sem, **B**: er. *L. 3.* skár, **B**: nær. *L. 3.* föður að, **B**: föðurs. *L. 4.* á, *fattes i* **B**.
*V. 36.* (**B**, *40*), *l. 1.* **B**: Sveinninn burt af leikvöll fór. *L. 3.* **B**: og svo gekk hann í h. l. *L. 4.* **Ba**: hirðir ei framar um leika; **Bb**: hirti ei neitt um leika.
*V. 37* (**B**, *41*), *l. 1.* nú móðir mín, **B**: mín kæra móðir. *L. 2.* **B**: spyrja vil eg þig. *L. 4.* **B**: leyn [**Bb**: leyndu] því ekki mig.
*V. 38* (**B**, *42*), *l. 3.* **B**: þá mun eg það segja þèr. *L. 4.* þriggja, **B**: fjögra.
*V. 39* (**B**, *43*), *l. 3.* grís, **B**: grísi.
*V. 40* (**B**, *44*), *l. 1.* til, **Ba**: að. *L. 2.* **B**: sk. hana ei fè. *L. 3.* **B**: bl. tók þar sk. *L. 4.* lagði hún, **B**: og lagði.
*V. 41* (**B**, *45*), *l. 2.* heldr, *fattes i* **Bb**.
*V. 42* (**B**, *46*), *l. 1.* úngi, **B**: hann. *L. 3.* **B**: hvað er nú að ráði hafa. *L. 4.* því, **B**: þar.
*V. 43* (**B**, *47*), *l. 1—2.* **B**: Heyrðu það úngi Vilhjálmur — það er mèr helzt í vil. *L. 3.* stefnir, **B**: setir. *L. 3.* um, **Bb**: við (*læsefejl:* vᵗ *for* v̄).
*V. 43 b* ɔ: **B**, *v. 48. L. 4.* um, *fattes i* **Bb**.
*V. 44* (**B**, *49*), *l. 1.* Vallarhlíð, **Bb** *har her, i v. 46 og 49:* Vallarholti. *L. 3—4.* **B**: hví mun [**Ba**: munu] mèr svo sterkleg koma — stefna og brèf að hendi.
*V. 45* (**B**, *50*), *l. 3.* **B**: hún hefir sv. í l. alið. *L. 4.* hans, **Ba**: hún; **Bb**: hann.
*V. 46* (**B**, *51*), *l. 1.* í, **B**: með. *L. 2.* og í, **Ba**: svo og með; **Bb**: og so með. *L. 3.* í, **B**: úr. *L. 4.* þótti, **Ba**: rèð að; **Bb**: náði að.
*V. 47* (**B**, *53*), *l. 1.* úngi, **B**: hann. *L. 4.* er, **B**: sem.
*V. 48* (**B**, *54*), *l. 2.* heldr, *fattes i* **Bb**. *L. 3.* það er hann, **B**: að þetta er. *L. 4.* sem, **B**: er.
*V. 49* (**B**, *52*), *l. 1.* **B**: Svarar hann L. í V. *L. 2.* mart, **B**: mjög. *L. 3.* **B**: fyrir hví var mèr híngað boðið. *L. 4.* mína, **B**: utan minn.
*V. 50* (**B**, *55*), *l. 3.* þó, **B**: þótt.
*V. 51* (**B**, *56*), *l. 3.* heyrðu, **B**: heyr.

*V. 52* (B, *57*), *l. 2.* sverð, Ba: er sv.; Bb: hann sv. *L. 3.* það, B: og það. *L. 4.* Ba: höfuð frá hálsi hann sló; Bb: hann höfuð frá hálsi hjó.

*V. 53—54 lyde i* B (*58—59*):

Nóg hafði hann malið gull — og svo brendan seim:
en móðurbróður á hægri hönd, — og svo ríðr hann heim.
Heim kom hann fyrir sína móður — og síðan féll á knè:
„nú hefi eg míns föðurs hefnt — en grædt mèr gull og fè."

*V. 55* (B, *60*), *l. 1.* B: Væri það nú með sanni satt. *L. 3.* skal, B: skylda.

---

# 29.

## Bræðra kvæði.

Jon og Esbern hedde to brødre, begge vældige kæmper. Jon drager ud på en pilgrimsrejse til den hellige grav. Medens han er borte, fæster den unge Sigrljótr hans fæsteme Sidsel, men dræbes af Esbern, som derfor lægges i lænker og kastes i kongens tårn. Imidlertid bæres det Jon for i drömme, at hans broder trænger til hans hjælp. Han vender straks sine skibe og lader sine folk ro, så blodet strömmer dem ud af hver en pore. Jon er førsle mand i land, hvor en fårehyrde byder ham velkommen og mælder ham, at Esbern sidder i tårnet. Jon skænker ham pung og belte og tre gårde til tak. Så gå han og hans mænd til tårnet og bryde Esberns lænker. Herre Jon går nu ind i hallen for kongen med draget sværd under skind, og først hugger han en kærtesvend ned, som han står for kongens bord. Da beder kongen ham at stikke sværdet i balgen: han vil give ham Sidsel med Grækenland

i medgift. Hertil svarer Jon, at Sidsel skulde dog følge ham af gård för sol gik ned, enten kongen så bød eller forbød det; og dermed vog han kongens mærkesmand. Da råber kongen:

Hør du det nu, herre Jon: stik du ind dit sværd!
og lad du mig nu nyde din Jorsalsfærd!

Lad det være min sag, svarer Jon; jeg skal endnu, om jeg lever, komme til Jorsal i år.

Og ikke törrede herre Jon af sværdet det blod:
men der vóg han kongen selv, alt som han stod.

---

**Dansk** haves samme vise noget anderledes og med andre navne: brødrene hedde Karl og Tórd, Karls fæstemø Kirstin, hendes uheldige bejler Tidemand. En opskrift er trykt i Levninger, I, nr. 17; en anden i Molbechs Hist. biogr. saml., s. 507.

---

(**A**, **a**: Giss. Sv., 5. **b**: kgl. fol., 5. **B**: Arnam. 153, e, 5 [kun 1ste vers].)

1.

Herra Jón og Ásbjörn
þeir voru bræður:
vissa eg öngva volduglegri
borna frá mæður.
Skal eg enn dillilla þèr drjúgum.
[*eða:*] Það voru menn og heiðarlegir hofmenn.
[*eða svo:*] Fellur dögg á fagra eik í lundi.

2.

Það heyrða eg fyrst
á þínginu talað:
herra Jón hann vill sig
til Jórsala fara.

3.

Ásbjörn tók sína kápu
og fylgði honum á leið:
„skilju við, bróðir!
vænti eg þín heim."

4.

Það er hann úngi Sigrljótr,
hann vinnr sèr flest í hag:
festi hann frúna Sesselju
þennan sama dag.

5.

Það er hann herra Ásbjörn,
hann er sig röskur drengur:
hann stakk svo til brúðgumans,
að hann lifði ei lengur.

6.

Tekinn var hann Ásbjörn
og klæðunum flettur,
fjötrum bundinn
og í myrkvastofuna settur.

7.

Herra Jón í hafinu
hann dreymdi þúngan draum:
„snúið aptur skipunum
og gefið að því gaum!

8.

So gánga mèr
draumarnir til:
sem að hann Ásbjörn, bróðir minn,
þurfi manna við."

9.

En so reru þeir
af so miklum móð:
undan hverjum hárlokkinum
stökkva tók þá blóð.

10.

Herra Jón hann gengur sig
manna fyrstr á jörð:
hann sá, hvar að smalamaðrinn
rak sína hjörð.

11.

„Vel þú kominn, herra Jón!
þú ert þig maðrinn vitur:
þinn bróðir Ásbjörn
í myrkvastofunni situr."

12.

„Hafðu þökk fyrir, úngi sveinn!
þú sagðir mèr þar frá:
púng og belti gef eg þèr
og bú-garðana þrjá."

13.

Óhræddir gengu þeir
í myrkvastofuna inn:
hjuggu þeir af honum Ásbirni
öll fjötur í senn.

14.

Herra Jón hann gengur sig
í höllina inn:
brugðið hafði hann brandi
undir safala-skinn.

15.

Það vann hann kónginum
fyrsta mein:
hjó hann fyrir borðunum
hans kertasvein.

16.

„Heyrðu það nú, herra Jón:
slíðra þú þinn brand!
gipti eg þèr frúna Sesselju,
og gef eg þèr Grikkland."

17.

„Eg hirði ekki, kóngurinn!
hvort þú bannar eða býður:
burtu skal frúin Sesselja
áðr en sólin af líður."

18.

Það vann hann kónginum
annað grand:
hjó hann fyrir borðunum
hans merkismann.

19.

„Heyrðu það nú, herra Jón:
slíðraðu þitt sverð!
láttu mig nú njóta
þinnar Jórsala ferð!"

20.

„Þú þarft ekki, kóngurinn!
að hyggja að því háð:
eg skal mig til Jórsala,
ef eg lifi í ár."

21.

Ekki þurkaði hann herra Jón
af brandinum blóð:
þar hjó hann kónginn,
sem að hann stóð.
Skal eg enn dillilla þèr drjúgum.
[*eða:*] Það voru menn ● heiðarlegir hofmenn.
[*eða svo:*] Fellur dögg á fagra eik í lundi.

---

*Overskrift.* **A**: Kvæði af herra Jóni og Ásbirni tveimur [*fattes i* **Ab**] bræðrum.

*Omkvæd.* 1) Skal eg..., *sål.* **Aa**, *samt* **Ab**, *der dog først ved v. 1 har omkv.* 2) það voru..., *med tilföjende*: eður svo: Skal eg...; *ved alle flgde v. har* **Ab** *kun omkv. 2.* 3) Fellur dögg... *står alene i* **B**, *som ikke har noget af de to første.*

*V. 1, l. 1.* **B**: Ásbjörn og herra Jón. *L. 3.* volduglegri, **AbB**: voldugri. *L. 4.* borna, **B**: vera borna.

*V. 2, l. 1.* fyrst, **Ab**: allra fyrst. *L. 3.* vill, **Ab**: vildi.

*V. 3, l. 3.* **Ab**: skiljum við nú bróðir.

*V. 4, l. 1.* hann, **Ab**: hinn. *L. 1.* Sigrljótr, **Ab**: Sigrlátr. *L. 3.* Sesselíu, **Ab**: Íngigerði (*ligeså i v. 16; i v. 17:* Íngigerðr). *L. 4.* þennan, **Ab**: þenna.

*V. 5, l. 4.* **Ab**: hann lifði eigi lengur.

*V. 6, l. 3.* fjötrum, **Ab**: fjötrunum. *L. 4.* myrkvastofuna, **Ab**: myrkvastofu.

*V. 7, l. 2.* hann, *fattes i* **Ab**. *L. 4.* **Ab**: gefið að þessu gaum.

*V. 8, l. 1.* mèr, **Ab**: mèr þúngt. *L. 3.* að, *fattes i* **Ab**.

*V. 9, l. 1.* þeir, **Ab**: þeir ákaflega. *L. 2.* so miklum, **Ab**: allmiklum.
*V. 11, l. 3.* þinn, **Ab**: þinn eiginn. *L. 4.* myrkvastofunni, **Ab**: myrkvastofu.
*V. 13, l. 1.* **Ab**: Óhræddur þá gengur hann. *L. 2.* myrkvastofuna, **Ab**: myrkvastofu. *L. 3.* hjuggu þeir, **Ab**: höggr.
*V. 14, l. 3.* brandi, **Ab**; **Aa**: brand.
*V. 15, l. 2.* **Ab**: hið fyrsta mein.
*V. 16, l. 3.* frúna, **Ab**: frú. *L. 4.* Grikkland, **Ab**: Grikkjaland.
*V. 17, l. 1.* kóngurinn, **Ab**: kóngur um. *L. 2.* eða, **Ab**: eður. *L. 3.* burtu, **Ab**: burt. *L. 4.* sólin, **Ab**: sól.
*V. 18, l. 1.* kónginum, **Ab**: konúnginum. *L. 4.* merkismann, **Ab**; **Aa**: merkjamann.
*V. 19, l. 2.* þitt, **Ab**: hratt þitt. *L. 3.* njóta, **Ab**: hafa not. *L. 4.* þinnar, **Ab**: af þinni.
*V. 20. l. 1.* kóngurinn, **Ab**: konúngur. *L. 2.* háð, **Ab**: hár.
*V. 21. l. 3.* kónginn, **Ab**: konúnginn.

---

# 30.

## Ebbadætra kvæði.

Ebbe sejler i leding i kongens følge og efterlader i hjemmet to døttre: Ingegerd og Signe (Åse, **B**). Ivers-sönnerne Peder og Trond tales ved: vi ville ride i Ebbes gård og skænde de fagre møer; der er ingen til deres forsvar, uden en ungersvend; og er han end en tapper mand, han kan dog ikke stå sig imod os to. Hr. Peder klapper på loftets dör: sove i, stolte jomfruer, eller våge i? — End ere vi vågne, svarer Ingegerd, men hvad er det for mænd, der komme her ved nattetid? — Luk kun op, Ingegerd, svarer Peder, så vil du få Iverssönnerne at se. Ingegerd var ikke sen til at springe op og låse dören så godt hun formåde med bolt og slå. Vi ere ikke nyfigne, sagde hun,

efter at se Iverssönnerne. Men bolt og slå holdt ikke mod voldsmændenes anløb: dören sprængtes, og Iverssönnerne gik ind.

Så såre græd de Ebbedøttre udaf ret hjærtens harm,
der de unge Iverssönner de lagdes i deres arm.

Bort da fore de Iverssönner både med glæde og gammen:
fruerne to i höjeloft de sloge deres hænder sammen.

Så såre græd de Ebbedøttre, så såre de græd derved,
der de toge deres hovedguld, lagde dem i kiste ned.

Mældte det da den yngste mø, hun kunde den sorg ej bære:
„Skjule vi os i havets sand, förend Ebbe kommer here!

Skjule vi os i havets dyb, i havets dybe sand,
för disse hådings-tidender de spörges op ad land!"

Men den ældste søster svarer:

Jeg skjuler mig ikke i havets dyb, ej heller i havets sand:
langt heller tager jeg sværd i hånd og ganger mig op ad land.

Dagen efter kom deres fader hjem af leding, og hans første spörsmål var da: hvi have i aflagt eders hovedguld og hyllet eders hoveder i lin? — Iverssönnerne, svare de, gjorde os den vånde. — Da have i en ung broder, siger Ebbe, han skal hævne skade. Men de svare:

Ikke ville vi broder vor have i denne sag:
selv da ville vi Ebbedøttre lægge den vel i lag.

Syv uger forløb, og Ebbedøttrene sade stille i deres faders gård. Da kom den hellige pinsedag, der alt folket fór til kirke, at høre messe; der var også fru Holmfred, Iverssønnernes moder. Da hun så Ebbedøttrene komme til kirken,

da tog hun med smil til orde: her ser jeg mine sönnekoner komme; dem må vi føre til höjsæde, og selv vil jeg tænde alle lysene for Ebbedøttrene. Søstrene svare:

För skal du, fru Holmfred, få sönnelig at klæde,
för du får de kærter tændt for Ebbedøttres sæde.

Da messen var til ende, stode søstrene udenfor kirkedören, en på hver side. Nu ere vi nyfigne efter at se Iverssönnerne, sagde Signe, og i det samme kom Trond ud af dören.

Signe tog i beltet, og Ingegerd i hår:
„Nu skal hævnes nidingsværk, du øved för i år."

Da beder Trond om liv og fred: aldrig, siger han, har jeg för bedet nogen bondedatter derom. Men søstrene svare:

Så skulle vi eder, Iverssönner, fred og frelse yde,
som i lode os Ebbedøttre hæder og ære nyde.

De gjorde alt så liden den rige stormands ret:
hugge de hans hoved af ved den kirkestet.

Da kom en liden smådreng løbende ind til hr. Peder med de ord:

Her sidder du, herre Peder, og drikker mjød og vin:
de Ebbedøttre i gården stå, de voge nu broder din.

Da siger Peder:

Stat op, Katrin, søster min, drik med mig Mariæ minde!
råde Gud fader i Himmerig, når jeg drikker atter her inde!

Så løb han ud; men Ingegerd og Signe stode alt hver på sin side af dören. De grebe ham i belte og hår, svarede ham på hans bön om nåde, som de havde svaret hans broder, og lode ham nyde samme ret. Så fore Ebbedøttrene hjem med deres blodige sværd og sagde deres fader disse tidender.

Det var herre Iver, han fulgte sine sönner til grav;
men det var herre Ebbe, sine døttre i kloster gav.

Hjem da red han Ebbe, han mældte alt som han måtte:
„Sæl er den mand i verden til, der aldrig börnen' åtte."

---

**Dansk** haves denne vise i flere opskrifter, af hvilke to ere trykte: Tragicas nr. 23 og Syvs nr. 92 (Abr., nr. 99 og 100). Navnet Ebbe findes i alle de danske opskrifter, men søstrene kaldes der Trunde og Signild eller Kirstin og Bodil; voldsmændene: Bonde (Brynel, Brömmel) og Skammel (Skeneld, Skinnild). Sagnet har stedfæstet begivenheden både i Jylland og i Sjælland. (Thiele: Danm. folkesagn, I, s. 191—92; 223—24.)

---

## A.

(Arnam. 153, f, 2.)

1.

Ebbi sigldi í leiðángur,
konúnginn að finna:
eptir skildi hann sínar dætur,
bað engan þær ginna.
Þar sem öðlíngar fram ríða.

2.

Úngir voru þeir Ívarssynir,
báru saman ráð:
„við skulum okkr í hæga lopt,
vinna meyjum háð.

3.

Við skulum okkr í hæga lopt,
vinna meyjum mein:
þar er ei eptir, hefndir að taka,
nema einn úngur sveinn.

4.

Þar eru ei til hefndir [að] taka,
nema einn smásveinn:
þó það verði röskur maður,
hann vinnr ei okkur einn."

5.

Herra Pètur klappar
á lásinn og á loku:
„hvort gjöri þið? stolt-jómfrúrnar!
vakið eða sofið?"

6.

„Ekki er okkur svefnsamt,
vakað höfu við enn;
hver er fyrir loptsdyrum?
kenni eg ekki menn."

7.

„Statt þú upp, Íngigerður!
láttu lokur í frá!
hèr máttu fyrir loptsdyrum
þá Ívarssyni sjá."

8.

Upp stóð hún Íngigerður,
ekki var hún sein:
lèt hún fyrir lokurnar
og sterkan járntein.

9.

Lèt hún fyrir lokurnar
og sterka járnslá:
„nú er mèr engin forvitni
þá Ívarssyni sjá."

10.

Herra Pètur sprángar
sínum fætinum á dyr:
upp spruttu allar lokurnar,
sem engin væri fyr.

11.

Hræðilega kvíddu þær
Ebbadætur viður,
þegar að lögðust Ívarssynir
millum þeirra niður.

12.

Burt fóru þeir Ívarssynir
bæði með gleði og gaman;
frúrnar tvær í loptinu
báru ráðin saman.

13.

Sáran kváðu
Ebbadætur viður,
þá þær lögðu höfuðgull
í kistuna niður.

14.

Svaraði sú hin ýngri,
hún bar meira mein:
„gröfu við okkr í harðan sand,
meðan Ebbi kemr ei heim!

15.

Gröfu við okkr í æginn,
og gröfu við okkr í sand:
áðr en þessi ótíðindi
frèttast upp á land!"

16.

„Gref eg mig ekki í æginn
og ekki heldr í sand:
eg hirði ei, þó þau ótíðindi
spyrist upp á land."

17.

Þá þær höfðu talað
um dálitla stund,
þá kom þeirra kæri faðir
ríðandi í lund.

18.

Og so svaraði hann Ebbi
við Signýju dóttur sín:
„hver hefir fellt ykkar höfuðgull?
því faldi þið lín?"

19.

„Það gjörðu þeir Ívarssynir,
þeir færðu okkur lín."
„Þú átt úngan bróður,
hann mun hefna þín."

20.

„Ekki skulu við okkar bróður
hafa í þessum vanda:
sjálfar skulu þær Ebbadætur
í þessum málum standa."

21.

Það var einn so blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
fólkið allt til kirkju fór,
að hlýða sinna tíða.

22.

Og so svaraði hún Hólfríður,
brosti undir sín skinn:
„nú eru þær til kirkju gengnar
sonarkonur mín.

23.

Hægleg skulu vær þeim
hásætin veita:
öll skulu vær ljósin
fyrir Ebbadætrum kveikja.

24.

Hægleg skulu vær þeim
hásætin búa:
öllum skulu vær ljósunum
að Ebbadætrum snúa."

25.

„Fyrri muntu, Hólfríður!
sonar líkin sveipa,
en þú munir ljósin
fyrir Ebbadætrum kveikja.

26.

Fyrri muntu, Hólfríður!
sonar líkin búa,
en þú munir ljósunum
að Ebbadætrum snúa."

27.

Signý fór í stakkinn blá,
styttan upp að hnjám:
„nú er öll mín forvitni
þá Ívarssyni sjá."

28.

Þegar þær vissu
að hann út fór,
sínu megin dyranna
hver þeirra stóð.

29.

Signý tók í beltið,
en Íngigerðr í hár:
„nú skal hefna níðíngsverk,
þú veittir fyr í ár."

30.

„Kæri mínar Ebbadætur!
gefi þið mèr grið!
eg hef öngar bóndadætur
beðið þess fyr."

31.

„Eins skulu þið Ívarssynir
griðunum ná,
og þið lètuð þær Ebbadætur
sæmdirnar fá."

32.

Þær gjörðu lítinn
ríks manns rètt:
hjuggu af honum höfuðið
við hallarinnar stètt.

33.

Þar kom einn lítill piltur
gángandi í höll:
„nú er eg einn vitrari
en þèr eruð öll.

34.

Hèr sitr þú, herra Pètur!
drekkur mjöð og vín:
Ebbadætr í garðinn út
vega hann bróður þinn."

35.

Upp stóð hann herra Pètur,
drakk hann heilagt minni.

* * *

* *

36.

„Stattu upp, Katrín, systir mín!
skenktu Maríu minni!
ráði guð í himiríki,
nær eg drekk hèr inni!"

37.

Þegar að þær vissu
að hann út fór,
sínu megin dyranna
hver þeirra stóð.

38.

Signý tók í beltið,
Íngigerðr í hár:
„nú skal hefna níðíngsverks,
þú veittir fyr í ár."

39.

"Kæri mínar Ebbadætur!
gefi þið mèr grið!
eg hef öngvar bóndadætur
beðið þessa fyr."

40.

„Eins skaltu herra Pètur
griðunum ná,
og þú lèzt þær Ebbadætur
sæmdirnar fá."

41.

Þær gjörðu lítinn
ríks manns rètt:
hjuggu af honum höfuðið
við hallarinnar stètt.

42.

Heim komu þær Ebbadætur
með sín blóðug sverð;
að því spurði þeirra faðir,
hvað þær hefði gert.

43.

Ívar sína synina
til kirkjunnar færði;
Ebbi sínar dæturnar
í klaustrið gaf.

44.

Og so svaraði hann Ebbi,
hann gekk í burtu frá:
„sæll er sá í heiminum er,
er engin börnin á."

Þar sem öðlíngar fram ríða.

---

## B.

(J. Stephanss., 5.)

1.

Ebbi sigldi í leiðángur,
konúnginn að finna:
eptir skildi hann dætur tvær
og bað engan að ginna.
Þar sem öðlíngar fram ríða.

2.

Úngir voru þeir Ívarssynir,
þeir tóku saman ráð:
„við skulum ríða í Ebba garð
og veita meyjunum háð.

3.

Þar er ei til hefndar að taka,
utan einn úngur mann:
hann Ebbi sigldi í leiðángur
með landinu fram.

4.

Þar er ei til hefndar að taka,
utan einn úngur sveinn:
þó hann verði fullvaxinn,
hann vinnr ei á oss einn."

5.

Herra Pètur sprángar
sínum fætinum á dyr:
„hvað gjörið þið? stoltu frúr!
vakið eða sofið kyr?"

6.

„Ekki er okkur svefnsamt,
vaka gjörum við enn;
hver er hèr fyrir ársölum?
eg þekki ei þá menn."

7.

Upp stóð hún Íngigerður
í nærserknum ein:
sló hún fyrir lokurnar
og sterkan járnflein.

8.

Sló hún fyrir lokurnar
og sterka járnslá:
„okkr er enginn huguriun
þá Ívarssyni að sjá."

9.

Herra Pètur sprángar aptur
fætinum á dyr:
allar spruttu upp lokurnar,
sem gjörðu vörnu fyr.

10.

Settust þeir á sængurstokk
og drógu af sèr skó:
heyrðist það í Eingaland,
hverra kjaptur hló.

11.

Svo mjög sáran grètu þær
Ebbadætur viður,
þegar herra Pètur stè
þeirra á milli niður.

12.

Svo mjög sáran grètu þær
Ebbadætur viður,
þá þær lögðu sín höfuðgull
í kisturnar niður.

13.

Systur tvær í garði standa,
töluðu þær saman:
„burtu riðu þeir Ívarssynir
og hendu að okkur gaman."

14.

En því svarar sú eldri,
hún bar meira mein:
„sökkum við oss í sjáfardjúp,
áður Ebbi kemur heim!"

15.

„Eg gref mig ekki í ægirinn,
eg gref mig ekki í sand:
heldur tek eg mèr öxi í hönd
og geng [mig] upp á land."

16.

Þegar þær höfðu þetta sagt
og staðið litla stund,
þá kom þeirra kæri faðir
ríðandi í lund.

17.

„Heilar og sælar sèu þið,
báðar dætur mín!
hvar eru yðar höfuðgull?
og hví faldi þið lín?

18.

Hvar eru yðar höfuðgull?
og hví faldi þið lín?
áttu þið ei sterkan bróður,
er kunni hefna mín?"

19.

„Ekki vildum við bróður okkar
koma í nokkurn vanda:
við skulum sjálfar Ebbadætur
fyrir hefndum okkar standa."

20.

Eiði svarar hann Ebbi þeim
og gekk í burtu frá:
„sá er sæll í heiminum,
sem engin börnin á."

21.

Lángar voru vikurnar sjö,
tóku þó að líða:
fólkið allt til messu fór,
fríðum tíðum hlýða.

22.

Þegar þær komu í garðsins hlið,
axla þær yfir sig skinn:
svo hæverskar gengu þær
með flúrfaldinn inn.

23.

Eiði svaraði Hólmfríður
og brosti undir skinn:
„hverjar voru meyjarnar,
sem hèr gengu inn?

24.

Svo virðuleg skulum vèr
þeim hásætin veita:
öllum skulum vèr ljósunum
að Ebbadætrum kveikja.

25.

Svo virðuleg skulum vèr
þeim hásætin búa:
öllum skulum vèr ljósunum
að Ebbadætrum snúa.

26.

Svo virðuleg skulu þær
hèr hásætin fá:
öllum skulum vèr ljósunum
að Ebbadætrum slá."

27.

Eiði svaraði hún Íngigerður
og brosti undir skinn:
„þú munt ei svo hlæja spozk,
þá kemur kvöldtíminn.

28.

Fyrri muntu, Hólmfríður!
sona líkin sveipa,
en þú munir ljósunum
að Ebbadætrum kveikja.

29.

Fyrri muntu, Hólmfríður!
sona líkin búa,
en þú megir ljósunum
að Ebbadætrum snúa.

30.

Fyrri muntu, Hólmfríður!
sona líkin sjá,
en þú megir ljósunum
að Ebbadætrum slá."

31.

Þegar messan úti var,
og fólkið út fór,
hvorjumegin kirkjudyra
hvor þeirra stóð.

32.

Út gekk sá hinn ýngri sveinn
og bar minna gull:
Þrándur nú þar veginn var,
enn var ei hefndin full.

33.

Þá kom einn lítill piltur
gángandi í höll:
„nú er eg vorðinn vitrari
en þið eruð öll.

34.

Úti eru þær Ebbadætur
að drepa hann bróður þinn:
þú situr hèr, herra Pètur!
og skenkir mjöðurinn."

35.

„Stattu upp, Kristín litla!
og skenktu Maríu-minni!
ráði því guð í himnaríki,
nær eg drekk hèr inni!"

36.

Upp spratt hann herra Pètur
með svo mikinn móð:
hvorjumegin dyranna
hvor þeirra stóð.

37.

Ása greip í beltið hans,
en Íngigerðr í hár:
„við skulum vinna á þèr níðíngsverk,
þú veittir meyjum dár!"

38.

„Mínar kæru Ebbadætur!
gefi þið mèr grið!
engar hefi eg bændadætur
beðað mig svo við."

39.

„Eins skaltu, herra Pètur!
lífinu hèr ná,
og þú lèzt þær Ebbadætur
sæmdirnar fá."

40.

„Hvernig kanntu, Íngigerður!
meiri sæmdir fá,
en að eiga sjálfan mig
og allt hvað eg á?"

41.

Svo lítinn gjörðu þær nú
lögmannsins rètt:
þær hjuggu af honum höfuðið
á miðri kirkju-stètt.

42.

Svo lítinn gjörðu þær nú
lögmannsins dóm:
þær hjuggu af honum höfuðið
á hvítasunnu nón.

43.

Síðan báðar settust þær
í helgan stein:
tveimur ríkum riddurunum
unnu þær mein.
Þar sem öðlíngar fram ríða.

---

## C.

(**a**: cod. Holm., 10. **b**: Arnam. 153, e, 4 [kun 1ste vers].)

1.

Ebbi sigldi í leiðángur,
konúnginn að finna:
eptir skildi hann sínar dætur,
þær skyldi engi ginna.
Þar sem öðlíngar fram ríða.

2.

Úngir voru þeir Ívarssynir,
lögðu saman ráð:
„við skulum ríða í Ebba garð
og veita meyjum háð."

3.

Glaðir ríða þeir Ívarssynir
heim á Ebba garð:
upp spruttu lokurnar
og það sem fyrir varð.

4.

Upp stóð hún Ingigerður
í nærserknum ein:
setti fyrir lokurnar
stóran járntein.

5.

Herra Pètur sprángar
sínum fæti á dyr:
upp spruttu lokurnar,
sem þær væri ryð.

6.

Sáran grètu þær
Ebbadætur viður,
þegar þeir úngu Ívarssynir
lögðust hjá þeim niður.

7.

Að því spyr hann Ebbi
ýngri dóttur sín:
„hvar er ykkar höfuðgull?
og því faldið þið lín?"

8.

„þetta eru þeir Ívarssynir,
okkur færðu lín:
við eigum þann bróðurinn,
hann ætlar að hefna mín."

9.

„Ekki skulu við okkar bróður
koma í slíkan vanda:
sjálfar skulu við Ebbadætur
fyrir okkar málum standa."

10.

Gildar voru það sjö vikurnar,
tóku til að líða:
fólkið allt til kirkju fór,
tíðunum að hlýða.

11.

Og því svarar hún Hólmfríður,
hún brosti undir sín skinn:
„nú eru þær til kirkju komnar
sonakonur mín.

12.

So skal eg þeim Ebbadætrum
hæg sætin búa:
sjálf skal eg ljósunum
að Ebbadætrum snúa.

13.

So skal eg þeim Ebbadætrum
hæg sætin veita:
sjálf skal eg ljósunum
að Ebbadætrum kveika."

14.

„Fyrri muntu, Hólmfríður!
um sona líkin búa,
heldr en þú munt ljósunum
að Ebbadætrum snúa.

15.

Fyrri muntu, Hólmfríður!
um sona líkin sveipa,
heldr en þú munt ljósunum
að Ebbadætrum kveika."

16.

Þar kom einn lítill sveinn
gángandi í höll:
„nú er [eg einn] vísari
en þið eruð öll.

17.

Hèr situr þú, herra Pètur!
að drekka mjöð og vín:
úti eru Ebbadætur
að vega bræður þín."

18.

Út gekk hann herra Pètur,
hann skenkti með móður sinni:
„ráði guð í himnaríki,
nær eg drekk hèr inni!"

19.

Út gekk hann herra Pètur
í kirkjunnar dyr:
þar stóðu þær Ebbadætur
albrynjaðar fyr.

20.

Ása tók í beltið,
en Íngigerðr í hár:
„nú skal vinna níðíngsverk,
þú veittir meyjum báð."

21.

„Heyrið það nú, Ebbadætur!
gefi þèr mèr grið!
eg hef aldrei bóndadætur
beðið þess nú fyr."

22.

„Eins skaltu, herra Pètur!
griðunum ná,
eins [og] þú lèzt þær Ebbadætur
sæmdirnar fá.“

23.

Lítinn gjörðu þær
ríks manns rètt:
hjuggu þær af honum höfuðið
við hallarinnar stètt.

24.

„Gröfum við okkr í æginn,
gröfum við okkr í sand:
áðr en þessi ótíðindi
spyrjast upp á land!“

25.

„Eg gref mig ekki í æginn,
ei heldur í sand:
við skulum taka brand og skjöld
og gánga upp á land.“

26.

Upp gengu þær Ebbadætur,
báru skjöld á baki:
hvar mun nú í heiminum
finnast systra maki!
Þar sem öðlíngar fram ríða.

---

*Overskrift.* **Ca**: Ebba kvæði.
**A**, *v. 2, l. 3.* okkr, *hdskr. her:* okkar.
— *v. 5, l. 4.* vakið, *hdskr.:* vaki.
— *v. 26, l. 1.* muntu, *hdskr.:* mundi.
— *v. 27, l. 1.* blá, *hdskr.:* blám.
— *v. 29, l. 3.* verk, *sål. her; men i v. 38:* verks.
— *v. 31, l. 1.* Eins, *hdskr. her:* Ey; *i v. 40: Eyn.*
— *v. 35. Hdskr. lader plads åben til l. 3-4.*
**B**, *v. 6, l. 3.* ársölum, *hdskr.:* orsölum.
**C**, *v. 1, l. 4.* engi, **b**: enginn.
— *v. 4, l. 4.* stóran, *hdskr.:* stóð á. (*Jfr.* **A**, 8.)
— *v. 5, l. 4.* ryð, *hdskr.:* rið.
— *v. 24-26 ere her indkomne på urette sted; deres plads er mellem v. 6 og 7.* (*Jfr.* **A**, 14—16; **B**, 13—15.)

---

# 31.

## Kvæði af Knúti í Borg.

Knud af Borg har fæstet liden Kirstin og ført hende hjem. På bryllupsdagen kommer Kong Svend sejlende og ankrer med sine Skibe tæt ud for Borg. Knud spör sin unge brud til råds, om han skal indbyde kongen; hun vænter sig intet godt deraf og råder ham derfra; men Knud agter ikke hendes råd: han rider til stranden, byder kongen velkommen og beder ham göre sig den ære endnu i dag at være hans gæst. Hvor mange mænd må følge mig? spör kongen. Så mange som du vil, siger Knud, jeg har mjød og vin nok til dem alle. Kongen tager da mod indbydelsen, beder ham vende hjem og lover snart at komme efter. Kong Svend vender sig nu til sine mænd med de ord:

Vel op, alle mine mænd, og gjorder eder med sværd!
hvor som helst i fare frem, så stolt være kongens færd!

Svarede kongens mærkesmand, han mældte et ord med snille:
„Skal vi i dag til striden gå, eller skal vi fare til gilde?"

Da udbryder kongen:

Hvorlunde skal jeg konning vel over landet være,
om ikke mine tjenere de ville jærnet bære!

Dertil svare kongens mænd:

Alle ville vi med dig fare og drikke mjød i Borg;
men ingen vil være i det råd: at göre fruen sorg.

Fuldt rustet og med stort følge drager kong Svend da til bryllupsgården, hvor han modtages af brudgommen, føres over silketæpper og skikkes til sæde i hallen.

Kirstin sidder på brudebænk, fager er hun som lilje;
svor han det, herre Svend konning: den mø var ret efter hans vilje.

Kongen står op og går langs bordene lige hen til hende, hvor han beder brudepigerne göre plads, at han kan sidde bruden næst. Han taler hende til:

Hvor meget af det røde guld vil du, jeg giver dig:
at du, min væne Kirstin, du vilde love mig?

Hun svarer:

„Arved jeg efter fader min guld og gods at råde:
ej tör jeg ved, Svend konning, at tage sligt af din nåde."

Knud han ganger i hallen om, han tænker på gammen og glæde:
Kirstin sidder på brudebænk, så bitterlig monne hun græde.

Knud går til hende og spör, hvad der er gået hende imod: hvis hun vil gå til sængs, da skulle harper og piber lyde. Hun svarer:

Jeg passer ej på den harpeslæt og ej på de danske piber;
men det tykkes mig alt mere værdt: at kongen han vil dig svige.

Knud søger at stille hendes sind med de ord:

„Hør du det, allerkæreste min: så let kan sig huen forvilde;
end falder den tidt i garnet selv, som andre deri vil hilde."

Op sprang han herre Svend konning, han stod der i pansersærk:
så vog han ham Knud hin unge, det var ikke vådes værk.

Knud han ligger på gulvet, og blodet rinder ham af barm:
„Forglem ikke mig, liden Kirstin, tre nætter på kongens arm!"

Da Knud har opgivet ånden i liden Kirstins arme, beder hun kongen, at hun må våge over liget den nat; men han svarer, at præster og svende skulle våge over det, medens bruden skal føres til brudekamret: hende skal jeg nok selv vogte, siger kongen. Så lader han harper og piber lyde og følger selv bruden til sæng.

Kirstin sidder på sængestok, sine hænder hun vred og slog;
Svend konning stander på gulvet, med dødsens hjærte han lo.

Mældte det liden Kirstin, hun var kun et barn af år:
„Var jeg så sandt min faders sön, den latter dig skulde forgå."

„Ti du kvær, allerkæreste min, og øge du ej din sorg!
ti var du så sandt din faders sön, end leved da Knud i Borg."

Kun én ting vil jeg nu bede dig om, siger Kirstin, om du vil lindre min sorg: at du i tre nætter vil lade mig

hvile som mø ved din side. Gærne vider jeg min brud den første bön, siger kongen, og så blev det. Den første og den anden nat, da kongen lå ved hendes side, da lå han vågen og gav vel agt på hende, der syntes at slumre trygt; men den tredje nat faldt han i en sövn, hvoraf han snart vaktes; ti

Hun stak under hans hærdeblad, så odden i bolstret stod:
„Du våg op, våg op, herre Svend konning, at favne din unge brud!"

Det da mældte Svend konning, så liden da var hans evne:
„Gud forlade dig, kæreste min, du sveg mig så ilde i sövne!"

„Ikke da var jeg kæreste din, den tid du voldte mig sorg;
aldrig lover jeg nogen mand efter ham Knud af Borg."

„Det tykkes mig kun lidet værdt, at jeg nu brat skal dø;
men det tykkes mig stor harm at være: at, Kirstin, end du est mø."

Mældte det liden Kirstin, hun ud under tjælden tren:
„Lovet være Gud og vor frue, at end er jeg mø så ren!"

Mældte det liden Kirstin, hun törred sit blodige sværd:
„Havde jeg nu min ære mist, da var jeg fuld lidet værd."

Gik hun sig til graven ud, hvor herre Knud lå under sten:
sorgen ved hendes hjærterod den gav hende dødsens men.

Graven den gik hun til og fra, hun var ham af hjærtet huld:
nætter syv derefter lagdes hun i sorten muld.

Således fortælle alle de fem islandske opskrifter med meget ringe afvigelser: **D** begynder med nogle vers om, at liden Kirstin havde mistet fader, moder og broder, da Knud (eller som han der kaldes: „Núpr") af Borg fæstede hende; og den slutter med, at ikke blot hun, men også hans moder døde af sorg, og de kom alle tre i én grav. **C** og **E** sige, at Kirstin efter kongens drab gik ind og kysste Knuds lig og straks derpå sank død om, hvorefter hun jordedes med ham.

---

**Dansk** haves visen i flere opskrifter, af hvilke én er trykt hos Syv, nr. 18; Abr., nr. 142;

**norsk** i en meget ufuldstændig opskrift hos Landstad, nr. 31: „Knút í Borgi";

**færøisk** i en utrykt optegnelse: „Svein kongur", ved præsten V. U. Hammershaimb.

Den færøiske har, ligesom alle de islandske, navnet på voldsmanden: kong Svend; den norske kalder ham „kungars hersvein", hvilket kendelig er en fordrejelse af det samme, og de danske opskrr. have: Sander, Sommer el. danner-kongen, af hvilke benævnelser de to første vise tilbage til navnet Svend som det oprindelige. Intet sagn er dog bekendt, der kunde henlede tanken på nogen af de historiske konger af dette navn; hvorimod et yngre sagn vil vide, at Knud af Borg bode i Understed-sogn i Vendsyssel. (Dansk Atlas, V, s. 286.)

---

## A—B.

(**A**: Arnam. 153, a, 16. **B**: kgl. okt., 2.)

1.

Hnútur er í Borginni,
hann festir sèr frú til handa:
Sveinn kóngur fer með skipunum,
hann siglir á milli landa.
Drósin dillaði þeim hún unni.

2.

Sveinn kóngur fer með skipunum,
hann klæðir sig með skrúð:
Hnútur er í Borginni,
hann festir sèr stoltar-frú.

3.

„Heyrðu það, sæla sæta mín!
vinnu við okkr í hag:
bjóðum við Sveini kóngi,
að drekka mjöð í dag!"

4.

Svaraði hún litla Kristín
með fagra kinn og rjóða:
„Þó bjóðir þú Sveini kóngi,
það vinnur þèr lítinn sóma."

5.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
þú kannt það ekki að finna:
hvern dag skylda eg heiðra þig
og sæmdir til þín vinna."

6.

Hann stè á sinn gángvarann
með þeim sömu orðum:
so reið hann til skipanna,
þar kóngrinn sat yfir borðum.

7.

„Vel þú kominn, Sveinn kóngur,
yfir þau breiðu borð!
vili þèr hafa lítilæti
drekka mjöð í Borg?"

8.

Og so svaraði Sveinn kóngur,
hann hugsar um fyrir sèr:
„hversu margir mínir menn
skulu fylgja mèr?"

9.

„Stígðu á þinn gángvarann,
ríðtu hèðan og heim!
eg skal fara aðra leið
og verða eigi ofseinn."

10.

„Upp allir mínir menn,
girðið yðr með sverð!
hvar sem að þèr komið fram,
so dýr sè kóngsins ferð!"

11.

Svaraði kóngsins merkismann,
vitr er hann og vís:
„hvort eigum vèr í hernað gá,
eða því skal ferðin slík?"

12.

„Hvað skal mèr þá kóngurinn
yfir landi vera:
öngvir mínir þènarar
vilja járnin bera!"

13.

„Allir viljum vèr með þèr fara
og drekka mjöð í Borg:
enginn vill í ráðum vera,
að veita frúnni sorg.

14.

Allir viljum vær með þèr fara,
drekka mjöðinn hreina:
enginn vill í ráðum vera,
stolts-jómfrúnni að meina."

15.

Það er hann ríki Sveinn kóngur,
hann spennir gylta hrínga:
so reið hann í Hnúts bý,
að jörðin tók að springa.

16.

Úti stóð hann Hnútur úngi,
hann sá so lánga leið:
það er hann ríki Sveinn kóngur,
í gyltum söðli reið.

17.

„Vel þèr komnir, Sveinn kóngur
og allir yðar menn!
vili þèr hafa lítilæti
og drekka mjöð í senn?"

18.

Pellið og silkið
voru um strætin breidd,
þá hann ríki Sveinn kóngur
var til sætis leiddr.

19.

Kristín sitr á brúðarbekk,
fögur er undir brún:
hárið lá á herðar niður,
rauða gullband í snúr.

20.

Kristín sitr á brúðarbekk,
fögur er hún sem lilja;
þetta sór hann Sveinn kóngur:
hann kvezt slíka vilja.

21.

Upp stóð hann herra Sveinn kóngur,
borðanna að vitja:
„stolts-jómfrúrnar, gefi mèr rúm!
hjá brúðinni vil eg sitja."

22.

„Hversu mikið rauða gull
viltu eg gefi þèr,
skulir þú frúin Kristín
játast mèr?"

23.

„Erfða eg eptir hann föður minn
bæði gull og fè:
eg þarf ekki, Sveinn kóngur!
að þiggja það af þèr."

24.

Kristín sitr á brúðarbekk,
tekr hún til að gráta:
Hnútur er í Borginni,
hann gjörir sig so kátan.

25.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
hvað þyki þèr illa?
þegar villt til sængur gá,
þá skal hörpu stilla."

26.

„Hirði eg ei um þinn hörpuslátt,
nè þína svensku pípu:
það þyki mèr allra mest,
að kóngrinn vill þig svíkja."

27.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
að mörgum hugrinn lýgur:
sá kann opt að falla,
er fángið öðrum býður."

28.

Upp stóð hann herra Sveinn kóngur,
hann fór í hríngabrynju:
og so sló hann Hnútinn únga,
sem yrði ófyrirsynju.

29.

Hnútur lá á gólfinu,
honum rann blóð til dauða:
frúna tekr hann sèr í fáng,
mjög so harma reyða.

30.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
linaðu þínum harmi:
minnstu mín fullar nætur þrjár,
þú liggr á kóngsins armi!"

31.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
það má ekki saka:
eg skal brúðar gæta,
en sveinar yfir líki vaka."

32.

Troðið var þá organ,
blásið í svenskar pípur:
sjálfur leiðir Sveinn kóngur
brúðina so ríka.

33.

Kristín sitr á sængurstokk,
sínar hendr hún kló:
Sveinn kóngur á gólfinu
með feigu brjósti hló.

34.

Svaraði hún litla Kristín,
meybarn má hana kalla:
„væri eg sonur föður míns,
þú skyldir ei hlæja so snjallan."

35.

„Heyr þú, sæla sæti mín!
auktu þèr ekki sorg:
værir þú sonur föður þíns,
lifði Hnútur í Borg."

36.

„Heyrðu það nú, Sveinn kóngur!
linaðu mínum harmi:
láttu mig liggja nætur þrjár
mey á þínum armi!"

37.

Og so svaraði Sveinn kóngur,
hann leggst í sængina niður:
„eg skal gjarnan veita þèr
fyrstu bón, sem biður."

38.

Lágu þau so nætur tvær,
geymdi hann sín so gjörla;
en á þriðju nóttinni
sveik hún hann so illa.

39.

Hún stakk undir hans herðarblað,
so oddurinn óð í dúni:
„vaki þig, herra Sveinn kóngur!
þú lofar Hnútsins brúði."

39 b.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
illa sveikstu mig:
það var ekki vel gjört,
fyrst eg elskaði þig."

40.

„Eg var ekki sætan þín,
þá þú jókst mèr sorg:
eg skal öngvan manninn lofa
eptir hann Hnút í Borg."

41.
„Einskis þyki mèr vert um það,
þó eg eigi að deyja:
það þyki mèr allra mest,
að, Kristín, þú ert meyja."

42.
Og so svaraði hún Kristín,
hún gekk sig undan tjaldi:
„lof sè guði og Maríu minni,
eg hefi meydóm haldið!"

43.
Hún gekk sig á grafarbakka,
sem Hnútur lá undir steini:
sorgfullt hjarta að hún bar,
það varð henni að meini.

44.
Á þeim sama grafarbakka
píndi hún sitt hold:
innan þeirra sjö nátta
fór sú frúin í mold.

45.
Vendi eg mínu kvæði
[vendi eg því] í kross:
sjálfur guð í himiríki
veri með öllum oss!
Drósin dillaði þeim hún unni.

---

## C.

(a: Giss. Sv., 19. b: kgl. fol., 19. c: G. Ív., 19.)

1.

Sveinn kóngur á skeiðunum
siglir á millum landa:
Hnútur er í Borginni,
festir frú til handa.
Hvað syrgir þig liljan so sáran?

2.

„Heyrðu það, sæla sætan mín!
vinnum við okkr í hag:
bjóðum við Sveini kóngi
að drekka hèr í dag."

3.

En so svaraði hún Kristín
með rauða kinn sem blóma:
„bjóðir þú Sveini kóngi,
hann vinnr þèr öngvan sóma."

4.

„Vær skulum söðla hestana
og brjóta af frúinnar orðum."
Þeir komu þar á skipaflota,
sem kóngrinn sat yfir borðum.

5.

„Vel kominn, herra Sveinn kóngur,
yfir þín breiðu borð!
vilið þèr hafa lítilæti
og drekka mjöð í Borg?"

6.

En so svaraði hann Sveinn kóngur,
hann hugði illt með sèr:
„hversu margir mínir menn
skulu vera með mèr?"

7.

Til orða tók hann Hnútr í Borg,
hann tók sèr öngvan vara:
„sem þèr vilið flesta
þá skuluð þèr með yðr hafa."

8.

„Allir viljum vær með þèr fara,
drekka mjöð í Borg:
en enginn vill í ráðum vera,
að auka frúnni sorg.

9.

Allir viljum vær með þèr fara,
drekka mjöðinn hreina:
en enginn vill í ráðum vera,
stolts-jómfrúna að meina."

10.

Það er hann herra Sveinn kóngur,
hann stígr í gylta hringa:
so reið hann til Borgarinnar,
að jörðin náði að springa.

11.

Úti stóð hann Hnútr í Borg
og horfir lánga leið:
gjörla kennir hann Svein kóng,
í gylltum söðli reið.

12.

„Vel þú kominn, Sveinn kóngur
og allir þínir sveinar!
nú er í blöndum mjöðr og vín,
og bauð það enginn meina."

13.

Til orða tók hann Sveinn kóngur,
hann stígr í höllina niður:
„lofi þèr mèr hjá brúðum að sitja!
það er so góður siður."

14.

Sjálfur skipar Sveinn kóngur
sínum mönnum sess:
Hnútur er í Borginni,
hann gáði ekki þess.

15.

En so svaraði Sveinn kóngur,
hann leit undir sín skinn:
„heyrðu það, litla Kristín,
gefðu mèr viljann þinn!

16.

Heyrðu mig, litla Kristín,
gefðu mèr viljann þinn!
en eg þar á móti
borgir og ríkin fimm."

17.

„Nóg átti minn faðirinn
rauða gull og fèð:
ekki þarf eg, Sveinn kóngur!
að þiggja slíkt af þèr."

18.

Hnútur er í Borginni,
hann gjörir sig so kátan:
en Kristín sitr á brúðarbekk,
hún tekr so sárt að gráta.

19.

„Heyrðu það, sæla sætan mín!
hvað þykir þèr illa?
vilir þú þig til sængur gá,
þá læt eg hörpu stilla."

20.

„Eg vil ei þinn hörpuslátt,
og ei þína dönsku pípu:
hitt þyki mèr meira vert,
að kóngrinn vill þig svíkja."

21.

„Heyrðu það, sæla sætan mín!
jafnan hugrinn lýgur:
sá mun fyrri falla,
sem öðrum fángið býður."

22.

Sveinn kóngur undan borðum stökk
í gyltri hríngabrynju:
þar vó hann hann Hnút í Borg,
það varð ófyrirsynju.

23.

Hnútur fèll á hallar gólf,
honum rann blóð til dauða:
riddarar tóku frúna í fáng,
þá var harma ræða.

24.

Hnútur fèll á hallar gólf,
honum rann blóð með harmi:
„minnstu mín, Kristín, nætur þrjár,
þú liggr á kóngsins armi!"

25.

„Sveinar, þèr skuluð vaka
yfir líki í nótt:
en eg skal mig til sængur gá
og gleyma sorgum skjótt."

26.

Sveinar drógu af honum
rauða gull og skó:
heyra mátti mílur fimm,
með feigu brjósti hann hló.

27.

Til orða tók hún Kristín litla,
má hana meybarn kalla:
„væra eg sonur föður míns,
þú skyldir ei hlæja so snjallan."

28.

En so svaraði Sveinn kóngur
fyrir utan alla sorg:
„værir þú sonur föður þíns,
þá lifði Hnútr í Borg."

29.

En so talaði hún Kristín
með so miklum harmi:
„lofaðu mèr að liggja nætur þrjár
mey á þínum armi!"

30.

En so svaraði Sveinn kóngur,
honum heiðrinn vex:
„þú skalt liggja nætur þrjár,
þó þú vilir sex."

31.

Lágu þau saman nætur tvær,
geymdu sig so gjörla;
en á þeirri þriðju
sveik hún hann so árla.

32.

Hún stakk undir hans herðarblað,
so oddrinn náði í dúni:
„vaknaðu, vaknaðu, Sveinn kóngur!
lofa eg þig Hnúts fyrir brúði."

33.

Til orða tók hann Sveinn kóngur,
hann gat sèr hvergi vikið:
„guð fyrirgefi þèr, sætan mín!
þú hefir mig sáran svikið."

34.

„Eg var aldrei sætan þín,
heyri guð mín orð!
èg hef mig öngum manni lofað
utan Hnúti í Borg."

35.

„Það þyki mèr einskis vert,
þó eg láti mitt líf:
hitt þyki mèr meira vert,
að, Kristín, þú ert víf.

36.

Það þyki mèr einskis vert,
þó eg verði að deyja:
hitt þyki mèr meira vert,
að, Kristín, þú ert meyja."

37.

En so svaraði hún Kristín,
hún strauk um blóðugt sverð:
„hefða eg mist meydóminn,
þá væra eg einskis verð."

38.

En so svaraði hún Kristín,
hún gekk sig undan tjaldi:
„lofaðr sè guð í himiríki,
að eg hefi meydóm haldið!"

39.

Hún gekk sig að steininum,
þar Hnútur undir lá:
þegar hún hafði mynnzt þar við,
þá lá hún þar dauð hjá.

40.

Þar var meiri harmur
en þar var gaman:
bæði fóru þau úngu hjón
í eina steinþró saman.
Hvað syrgir þig liljan so sáran?

---

## D.

(**a**: Arnam. 153, g, 14. **b**: Arnam. 153, h, 7 [kun 1ste vers].)

1.

Vili nokkur hlýða til,
á meðan eg segi fram:
hvernig hún únga Kristín
sorgirnar fann.
Hvað grætur þú liljan svo sáran?

2.

Fyrst misti hún sinn föðurinn
og svo sína móður,
þá misti hún sinn
kærasta bróður.

3.

Hennar bað einn herlegr mann,
það var hann Núpr í Borg:
stuttur var þeim aldur lagður,
snemma beygði sorg.

4.

„Heyrðu það, Kristín, sæti mín!
vinnum við okkr í hag:
bjóðum við Sveini konúngi
að drekka mjöð í dag."

5.

Og því svaraði hún Kristín,
það eðla lífið fróma:
„bjóðir þú Sveini konúngi,
þú vinnr þèr lítinn sóma."

6.

Hann stè sig á gángvara
með þau sömu orð:
hann kom þar að kvöldi,
sem kóngrinn sat við borð.

7.

„Vel þèr komnir, Sveinn konúngur
með alla yðar sveina!
ef vilið þèr hafa lítilæti
og drekka mjöðinn hreina."

8.

„Hvernig má eg konúngur
í þessu landi vera:
þar enginn af mínum innlendum mönnum
vilja járnin bera!

9.

Allir vilja þeir fara með mèr,
að drekka mjöð í Borg:
en enginn í þeim ráðum vera,
að auka frúnum sorg."

10.

Þeir stigu sig á gángvara
og spenntu gyllta hrínga:
riðu þeir heim í riddarans garð,
svo jörðin ætlaði að sprínga.

11.

Kristín sat á brúðarbekk,
björt var hún á brún:
hárið ofan um herðar lá
með gullbandi snún.

12.

Kristín sat á brúðarbekk,
skær sem rós og lilja:
kóngrinn sór við sína trú,
hann kvaðst slíka vilja.

13.

„Hversu mikið rauða gull
skal eg gefa þèr,
ef þú, frúin Kristín,
fer og játar mèr?"

14.

„Eg erfði bæði gull og fè
eptir föður minn:
þarf eg ekki, Sveinn konúngur!
þiggja auðinn þinn."

15.

Núpur gengr fyrir borðunum
og elur sig svo kátan:
en hún únga Kristín
tekur sárt að gráta.

16.

„Heyrðu það, Kristín, sæti mín!
hvað líkar þèr illa?
þegar þú vilt til sængur gá,
þá læt eg hörpu stilla."

17.

„Eg hirði ei um þinn hörpuslátt,
nè þína dönsku pípu:
meira þyki mèr það vert,
að kóngurinn þig svíkur."

18.
„Þú hefir heyrt það, sæti mín!
margur hugrinn lýgur:
sá kann opt að falla,
sem öðrum fángið býður."

19.
Sveinn kóngr fram fyrir borðið stökk
í síðri hríngabrynju:
þarmeð vó hann hann Núp í Borg,
það var ei ófyrirsynju.

20.
Núpur lá á hallar gólfi,
hann gat ei mælt fyrir harmi:
„Kristín, minnstu mín nætur þrjár,
þú liggr á kóngsins armi!"

21.
Enginn fannst þar sveinninn,
og engin fannst þar píka:
því leiddi kónguriun
brúðina so ríka.

22.
Kristín sezt á sængarstokk,
hvíta hönd hún kló:
Sveinn konúngr á gólfinu
af feigu hjarta hló.

23.
Því svaraði hún Kristín,
geymdi hún harma sín:
„láttu mig liggja nætur þrjár
mey á armi þín!"

24.

Því svaraði hann Sveinn konúngur:
„fæstra mun það siður;
eg skal þó veita þèr
fyrstu bón, þú biður."

25.

Lágu þau saman nætur tvær,
hún lèt sèr ekki spilla;
en þá hinu þriðju
sveik hún hann svo illa.

26.

Stakk hún hníf fyrir hans brysti
og faldi odd í dúni:
„vaknaðu, vaknaðu, Sveinn konúngur!
og fagnaðu Núpsins brúði!"

27.

Því svaraði hann Sveinn konúngur,
hann gat sèr hvergi vikið:
„guð fyrirgefi þèr, sæti mín,
þú hefir mig svo svikið!"

28.

„Eg var aldrei sæti þín,
þú jókst mèr mikla sorg:
engan skal eg manninn eiga
eptir hann Núp í Borg."

29.

„Ekki þyki mèr það neitt,
þó eg verði að deyja:
hitt þyki mèr meira vert,
Kristín, þú ert meyja."

30.

Hún Kristín gekk sig
undan tjöldum:
lofaði hún helgu Maríu mey,
að hún gat heiðri haldið.

31.

Hún gekk sig á græna fold,
þar Núpr lá undir steini:
bráðan beið hún bana á fold,
sorg varð henni að meini.

32.

Lítil var það hrygðin,
en enn minna gaman:
þrjú voru líkin
í einni steinþró saman.

33.

Fyrst var þar úngi Núpurinn,
og svo hans festarmey,
svo var þar hans móðirin,
af sárum sorgar deyð.
Hvað grætur þú liljan so sáran?

---

## E.

(J. Steph., 6.)

1.

Það er hann herra Sveinn konúngur,
hann siglir á milli landa:
Knútur sitr í Borginni
og fastnar sèr mey til handa.
Hvað syrgir þú liljan svo sáran?

2.
„Heyrðu það, heyrðu það, sætan mín!
hvað eykur þèr kíf?"
„Að hann herra Sveinn konúngur
situr um þitt líf."

3.
„Heyrðu það, heyrðu það, sætan mín!
vinnum við okkr í hag:
bjóðum við Sveini konúngi
að drekka hèr í dag."

4.
Eiði svarar hún frú Kristín
með sinn meyjarblóma:
„þó bjóðir þú Sveini konúngi,
hann sýnir þèr lítinn sóma."

5.
Hann stè á sinn hvíta hest
í því sama orði:
hann kom þar að skipunum,
sem konúngr sat yfir borði.

6.
„Sitið þèr heilir, Sveinn konúngur
og allir yðar sveinar!
vilið þèr hafa lítilæti
að drekka mjöðrinn hreina?"

7.
Eiði svarar hann Sveinn konúngur:
„segja máttu hèr,
hversu margir mínir menn
mega fylgja með?"

8.

Eiði svarar hann Knútr í Borg:
„nóg er vín og vistir:
hafðu svo marga þína menn,
sem þig sjálfan lystir!

9.

Ríði þið í pönzurunum
og brynjum ykkar hrínga!"
Þannig reið hann Sveinn konúngur,
jörðin tók að sprínga.

10.

Sjálfur skipaði hann Sveinn konúngur
sínum mönnum sess:
en hann setti sjálfan sig
mitt á brúðar sess.

11.

Knútur stóð á gólfinu,
skenkti mjöðr á skál:
gulir lágu lokkarnir
ofan á skarlat blár.

12.

Sveinn kóngr undan borðum stökk
í mikilli hríngabrynju:
og lagði sverði til Knúts í Borg,
það var ei ófyrirsynju.

13.

Eiði svarar hann Knútr í Borg
bæði af hörku og harmi:
„minnstu mín, Kristín, nætur þrjár,
þú sefr á kóngsins armi!"

14.

Knútur hnè á gólfið niður,
rann honum blóð til dauða:
frú Kristín í bekknum situr,
sárra kendi hún nauða.

15.

„Gjörið fyrir guðs skuld
og Maríu mey:
lofið mèr yfir líki að vaka!
því sofa vil eg nú ei."

16.

„Leikmenn og prestar skulu nú
yfir líki vaka í nótt:
en við skulum til sængur gá
og sleppa hörmum fljótt."

17.

Þar voru barðar bumburnar,
og blásinn dans í pípur:
Sveinn konúngur sjálfur leiddi
sæmda-frúna ríku.

18.

Settist hún á sængurstokk,
drógu þeir af honum skó:
heyrðist það um mílur fimm,
hvað hátt hann hló.

19.

Eiði svarar frú Kristín,
hún hugsar um hann varla:
„væri eg sonur föður míns,
þú skyldir ei hlæja snjallan."

20.

Eiði svarar hann Sveinn konúngur,
hann jók meyjunni sorg:
„værir þú sonur föður þíns,
þá lifði hann Knútr í Borg."

21.

Eiði svarar hún frú Kristín
bæði af hörku og harmi:
„leyf mèr að sofa nætur þrjár
mey á þínum armi!"

22.

Eiði svarar hann Sveinn konúngur,
svo er hann röskur drengur:
„sofðu það, Kristín, nætur þrjár,
og þó þú vilir lengur!"

23.

Sváfu þau saman nóttina,
og sváfu þau saman tvær;
en á þriðju nóttinni
sveik hún hann svo nær.

24.

Þreifaði hún ofan með stokknum,
þar lá brandrinn búni:
lagði hún til hans Sveins konúngs,
svo lagið nam staðar í dúni.

25.

Eiði svarar hann Sveinn konúngur,
hann vaknar með vein og móð:
„hver er þessi níðíngs son,
sem mèr vökvar blóð?"

26.

„Það er ekki níðíngs son,
og það er ekki grey:
heldur er það Knúts í Borg
fögur festarmey.”

27.

Eiði svaraði Sveinn konúngur,
gat sèr hvergi vikið:
„guð fyrirgefi þèr, sætan mín,
þú hefir mig sofanda svikið!”

28.

„Eg var ei þín sætan þá,
því þú jókst mèr sorg:
engum skal eg unna manni
eptir hann Knút í Borg.”

29.

„Það þyki mèr ekki mikið,
þótt eg megi deyja:
hálfu meira þyki mèr það,
þú ert, Kristín, meyja.”

30.

Eiði svaraði frú Kristín
og veik sèr undan tjaldi:
„guði sè lof og Maríu mín,
að meydóm fèkk eg haldið!”

31.

Hún stè þá undan tjöldunum,
hún stè út á torg:
„þó væri eg ei sonur föður míns,
þá hefnda eg hans Knúts í Borg.”

32.

Hún stè inn á stofu gólf,
þar Knútur dauður lá:
bráðan beið hún bana sín
og andaðist þá.

33.

Fleirum var það hörmúngin,
en fengu af gaman:
þrjú fóru þar líkin dauð
í steinþróna saman.

34.

Eitt var hann herra Knútur,
og annað hans festarmey,
þriðja var hans móðirin,
af sorgum trúi eg hún dey.
Hvað syrgir þú liljan svo sáran?

---

*Overskrift.* **C**: Kvæði af Knút [**bc**: Knúti] í Borg og Sveini kóngi [**b**: konúngi]. **D**: Núps kvæði; **Da** *har herved føjede anmærkn. med Arne Magnussens hånd:* „rectius Knúts kvæði, og so kalla aðrir þann, sem hèr kallast Núpur" (*A. Magn. har også over* Núpr *i v. 3 skrevet*: Knútur).

**A**. *Omkvæd fælles for* **A** *og* **B**.

— *v. 1, l. 1.* **B**: Knútur [*sål. overalt*] er í borgunum. *L. 2.* festir, **B**: kaupir. *L. 3.* skipunum, **B**: skipum. *L. 4.* hann, **B**: og.

— *v. 2 fattes i* **B**.

— *v. 3* (**B**, *2*), *l. 1.* sæla sæta, **A** *har her:* sæli sæta, *og i v. 27, 30 og 31:* sæli sæti, *men i v. 5, 25 og 35:* sæla sæti (*i v. 40:* sætan); **B** *har overalt:* sæli sæti, *men i v. 36:* sætan. *L. 2.* vinnu, **B**: vinnum. *L. 3.* kóngi, **B**: kónginum (*ligeså i n. v.*). *L. 4.* mjöð, **B**: vín.

**A**, *v. 4* (**B**, *3*), *l. 4.* sóma, **B**: góða.
— *v. 5* (**B**, *4*), *l. 3.* skylda, **B**: skal.
— *v. 6* (**B**, *5*), *l. 3.* **B**: þar kom hann til skipanna.
— *v. 7* (**B**, *6*), *l. 1.* **B**: Vel þèr komnir Sv. k. *L. 4.* **B**: að drekka vín í Borg.
— *v. 8* (**B**, *7*), *l. 1.* Sveinn, **B**: hann Sv. *L. 2.* hugsar, **B**: hugsaði. (*Efter dette v. fattes vistnok et, svarende til* **C**, *7;* **E**, *8.*)
— *v. 9—14 ere i teksten ordnede sål. som i* **B**, *der dog fattes v. 12 og 15-17;* **A**'*s orden er åbenbart urigtig.*
— *v. 9* (**A**, *10.* **B**, *8*), *l. 2.* **B**: og ríðtu so heim. *L. 3.* fara, **B**: koma.
— *v. 10* (**A**, *9.* **B**, *9*), *l. 2.* girðið, **B**: og girðið.
— *v. 11* (**A**, *13.* **B**, *10*), *l. 1.* merkismann, **B**; **A**: merkjamann. *L. 3.* eigum, **B**: skulum. *L. 4.* **B**: eður því er ferðin slík.
— *v. 12* (**A**, *14*) fattes i **B**.
— *v. 13* (**A**, *12.* **B**, *11*), *l. 2.* **B**: að dr. vín í B. *L. 4.* **B**: frúnni að veita sorg.
— *v. 14* (**A**, *11.* **B**, *12*), *l. 2.* drekka, **B**: að drekka. *L. 4.* **B**: stolts-jómfrúna að meina.
— *v. 15—17* (**A**, *16, 15 og 17*) *fattes i* **B**.
— *v. 18* (**B**, *13*), *l. 2.* **B**: var um strætið breidt. *L. 3.* þá, **B**: þegar.
— *v. 19* (**B**, *15*), *l. 3.* lá, **B**: liggr. *L. 4.* **B**: rauða gulli bún. (*Læsemåden i* **A** *vel egl.:* rauða gullbandi snún; *jfr.* **D**, *11.*)
— *v. 20* (**B**, *14*), *l. 1.* sitr. **B**: sat. *L. 4.* kvezt, **B**: kvazt.
— *v. 21* (**B**, *16*), *l. 1.* herra, *fattes i* **B**. *L. 3.* **B**: stoltar frúrnar g. m. r. *L. 4.* brúðinni, **B**: frúnni brúðinni.
— *v. 22* (**B**, *17*), *l. 2.* **B**: skal eg gefa þèr. *L. 3.* skulir, **B**: vilir.
— *v. 23* (**B**, *18*).
— *v. 24* (**B**, *19*), *l. 1—2 og l. 3—4 stå i omvendt orden i* **B**. *L. 3.* borginni, **B**: borgunum.
— *v. 25* (**B**, *20*), *l. 2.* þyki, **B**: þykir (*ligeså i n. v.*) *L. 3.* villt, **B**: þú villt.
— *v. 26* (**B**, *21*), *l. 1.* **B**: Eg hirði ei um þ. h. *L. 2.* svensku, **B**: svenska. *L. 4.* að, *fattes i* **B**.
— *v. 27* (**B**, *22*), *l. 4.* **B**: sem öðrum fángið býður.

Silde om aften, da dugg faldt på, da ledtes Björn og Engelborg til brudehus over tæpper af silke og gyldenstykke.

Neder sattes herre Björn alt på den sængestok:
frem gik liden Ingegerd, drog af skarlagens sok.

Drog hun af ham hoser, og drog hun af ham sko:
det braged hende i bryste, af sorg og harm hun lo.

Mælte det fru Engelborg, så mangt randt hende i sinde:
Er det hende Margret, søster din, de stride tårer rinde?

Sørger hun for sin fæstemand, han er hende alt så nær;
det tykkes mig for sandingen: det er dig, hun haver så kær.

Ej duer det længer at dølge for list og snilde din:
at det er liden Ingegerd, og var hun slegfred min.

Hvi fór du da så langt af land, at bedes mig i år,
mens du havde end så væn en viv udi din egen gård?

Fordi fór jeg så langt af land, at bedes til vilje din:
for ikke tyktes mig Ingegerd at være jævnlige min.

Op da sprang hun Engelborg, og det var iså brat:
Lig du neder, fru Ingegerd! og hav du en god nat!

Alt det meget røde guld, jeg førte i gård med mig,
det vil jeg, fru Ingegerd, nu lade give dig.

Det da mælte hun Engelborg, bredte over dem silke og pell:
Lever i vel udi Guds fred, med glæde alt som med skel!

Trende sinde stod jeg brud ved trende ridderes hånd:
hver gang gav jeg brudgom min en anden liljevånd.

Trende sinde stod jeg brud, og endda er jeg mø:
nu vil jeg mig i kloster give, jeg vil en jomfru dø.

Det da mælte fru Engelborg, der hun af gårde red:
Hvert barn leve her udi vor herres fred!

Gav hun sig i kloster, hun var en mø så ren:
trende riddere vandt hun gavn, og ingen vandt hun men.

---

**Dansk** haves denne vise i en eneste hidtil utrykt opskrift, der lyder som følger (Karen Brahes foliohdskr., nr. 167):

1.

Herr Karl rider så vide,
— Men linden gror. —
til sit bryllup at byde.
De blomster de er faldne, som der var på.

2.

Han bød fader og moder,
hans søster og hans broder.

3.

Han bød og til hans slegfredviv:
han holder hende kærer' end sit liv.

4.

Hans slegfred spurde hun herre sin:
„Må jeg nu gå at skænke vin?"

5.
„Alt om du vilt at skænke gå,
da tag ikke alt dit røde guld på!"

6.
„Hvi formener i mig mit guld så rød?
det gav mig min fader, der jeg var mø."

7.
Hun gik hen og drog i mantel blå:
det røde guld i sömmene lå.

8.
Hun drog guldet over guld:
alle hendes fingre dennem satte hun fuld.

9.
Hun tog to sølvkar på sin hand,
så går hun ind for bruden at stand'.

10.
Så skænked hun vin af harme:
hun spildte på brudens ærme.

11.
Det mælte bruden på bænke:
„Hvem er den frue, der skænker?"

12.
Det svared herr Karl hans moder [så]:
„Det er min sön hans slegfredmår."

13.
„Imen han havde slig en slegfredviv [prud],
hvi loved han mig da til unge brud?

14.
Tre gange haver mit bryllup været gjort;
men altid er jeg bleven mø hjemført.

15.

Det første det voldte mig stifmoder strid,
min skæbne er vorden mig meget ublid.

16.

Det andet det voldte mig sværd og kniv,
men dette haver voldt mig slegfredviv.

17.

I spænder nu hesten' for karme brat!
jeg vil hjem til min fader i nat."

18.

„Karmen' er ikke rede,
og hesten' er ude på hede."

19.

„Imen jeg kan ikke karm få,
da skal jeg nu på min fod hjemgå."

20.

Hun slog over sig kåbe blå,
så monne hun udaf gården gå.

21.

Og der hun kom til borgeled,
ud' stander hendes fader, han hviler sig ved.

22.

„Hør du det, kære datter min!
hvi kommer du så fra bryllup din?"

23.

„Herr Karl han haver en slegfredviv:
jeg vil ikke være hans hådingsviv.

24.

Jeg skal nu aldrig mere
trolove nogen ridder flere."

25.

Stolt Ellin monne sig i kloster give:
— Men linden gror. —
herr Karl drak bryllup med sin slegfredviv.
De blomster de er faldne, som der var på.

Som beslægtede viser kunne også nævnes den om skön Anna, Syvs nr. 17 (Abr., nr. 177, der også findes på svensk, hollandsk og engelsk), og den om stolt Elinsborg, Levn., I, nr. 14 (Abr., nr. 214; også svensk).

**Norsk** haves af visen en endnu utrykt optegnelse ved Jørgen Moe med navnene Bendik og Videme.

**Færøisk** haves denne vise: „Brúnsveins vísa", i en mellem den danske og den islandske liggende form, trykt i Antikvarisk tidsskrift f. 1849—51, s. 93.

**Skotsk** genfindes visens grundtræk i „Thomas o'Yonderdale", hos Buchan, I, s. 221.

---

## A.

(**a**: Giss. Sv., 8. **b**: kgl. fol., 8. **c**: G. Ív., 8.)

1.

Herra Björn og Íngigerður
töluðu þau sèr gaman:
en í hæga loptinu
lágu þau bæði saman.
Sá er enginn glaður, eptir annan þreyr.

2.

„Hvernig skaltu, Íngigerður!
una við þitt líf,
ef eg fer í önnur lönd,
að fastna mèr víf?"

3.

„Annaðhvort mun eg
lifa eða dey,
þó þú farir í önnur lönd
og fastnir þèr mey."

4.

Að því spurði hún Íngigerður
herra Björn þá:
„hver er nú sú voldugleg,
að þinn stár hugrinn á?"

5.

„Engilborg heitir sú,
kóngsins barn:
hana vilda eg vefja
á mínum arm."

6.

Að því spurði hún Íngigerður
herra Björn sinn:
„nær á eg að bera
mín gulli búin skinn?"

7.

„Á morgun skaltu bera
þín gulli búin skinn:
gánga so glaðlega
fyrir brúðirnar inn.

8.

Gánga so glaðlega
fyrir brúðirnar inn:
nefnast frúin Margrèt,
systir mín."

9.

Troðið var þar organ
og slegið symfón,
þá hún ríka Engilborg
ríður sig í tún.

10.

Silkið og pellið
var á bekkinn breidt,
þá hún ríka Engilborg
var til sætis leidd.

11.

Að því spurði hún Engilborg
herra Björn sinn:
„hver skenkir mjöðinn
og það skíra vín?"

12.

„Það er hún frúin Margrèt,
systir mín:
hún skenkir mjöðinn
og það skíra vín."

13.

„Sè hún það frúin Margrèt,
systir þín:
því falla henni so
tárin á kinn?"

14.

„Því falla henni
tárin á kinn:
hún þreyr eptir
festarmanninn sinn."

15.

„Þreyi hún eptir
festarmanninn sinn:
giptu hana Hnúti kóngi,
kæra bróður mín!"

16.

„Eg get ekki sannara
sagt þèr í frá:
Hnút bróður þinn
vill hún ekki sjá."

17.

Síðan aptnar,
rökkur fellur á:
herra Björn vill sig
til sængrinnar gá.

18.

Hún dró af þeim
gulli búinn skó:
óx henni harmur
um hjartað nóg.

19.

Hún breiddi yfir þau
það hvíta lín:
„sofi þið með yndi,
hreppið aldrei pín!"

20.

Seinast breiddi hún
pellið á:
„sofið þið með yndi,
hreppið aldrei þrá!"

21.

Að því spurði hún Engilborg
herra Björn þá:
„hver er nú so voldugleg,
að pellið breiðir á?"

22.

„það er hún frúin Margrèt,
systir mín:
hún breiðir pellið
og það hvíta lín."

23.

„Sè hún það frúin Margrèt,
systir þín:
því falla henni
tárin á kinn?

24.

So falla henni
tárin á kinn:
sem hún hafi eitthvert sinn
verið unnustan þín."

25.

„Eg get ekki dulið þig
fyrir vísdómnum þín:
það er hún frúin Íngigerður,
festarmærin mín."

26.

Hún gekk sig til svefnstofu,
heyrði að hún kvað:
„hvort gjörir ríka frúin,
sefur eða vakir?"

27.

Svaraði sú
hin ríka frú:
„sofið hef eg til þessa,
en vaki eg nú."

28.

Upp stóð hún Engilborg
af herra Bjarnar armi:
„leggstu niður, Íngigerður,
linaðu þínum harmi!

29.

Allt það rauðagull,
sem eg flutta með mèr,
það skal eg, frúin Íngigerður!
láta gefa þèr.

30.

Það skal eg, Íngigerður!
láta gefa þèr:
og yndið hans
herra Bjarnar með."

31.

En so var hún Engilborg
af höllinni út:
ekki náði hann herra Björn
í hennar skikkjuskaut.

32.
Þetta talar hún Engilborg,
hún reið sig undan tjaldi:
„hvert barn lifi hèr
í vors herra valdi!"

33.
Þetta talar hún Engilborg,
hún reið sig úr hliði:
„hvert barn lifi hèr
í vors herra friði!"
Sá er enginn glaður, eptir annan þreyr.

---

B.

(a: Arnam. 151, d, 3. b: kgl. kv., s. 361.)

Framan eptir firðinum
sigla fagrar fleyr:
sá er enginn glaður,
eptir annan þreyr.

1.
Herra Björn og Íngigerður
töluðu þau sèr gaman:
upp í hæga lopti
þau lágu bæði saman.
Sá er enginn glaður, eptir annan þreyr.

2.
Íngigerður spurði
herra Björn sinn:
„nær á eg að bera
mín gulli búin skinn?"

3.

„Á morgun skaltu bera
þín gulli búin skinn:
gánga so glöð
fyrir brúðirnar inn."

4.

Íngigerður spurði
hann herra Björn þá:
„hver er sú hin volduga,
þinn stár hugrinn á?"

5.

„Engilborg heitir hún,
kóngs er hún barn:
hana hefi eg hugað
að vefja á minn arm."

6.

Þar var troðið organ
og slegið simfún,
þegar sú ríka Engilborg
hún reið í tún.

7.

Gullið og pellið
var á strætið breidt,
þegar sú ríka Engilborg
var til sætis leidd.

8.

Engilborg spurði
hann herra Björn þá:
„hver er sú hin volduga,
skenkir mjöðinn á?"

9.

„Það er hún Ólöf,
systir mín;
giptu hana Knúti kóngi,
bróður þín!"

10.

„Fyrr skal hann Knútur kóngur
dauðann fá:
heldr en hana Ólöfu
með augum sjá."

11.

Gullið og pellið
var á strætið breidt,
þegar hún ríka Engilborg
var til sængur leidd.

12.

Herra Björn settist
á sængurstokk:
en hún únga Íngigerður
dró af honum skarlats sokk.

13.

Leysti hún af honum
sútaðan þveng:
brakaði í brjóstinu,
búið var við spreng.

14.

Leysti hún af honum
hosur og skó:
og af sárum treganum
hún Íngigerður hló.

15.
Engilborg spurði
herra Björn þá:
„hver er sú hin volduga,
pellið breiðir á?

16.
Títt falla henni nú
tárin á kinn,
eins og hún þreyi
eptir unnusta sinn."

17.
„Mig tjáir ekki að dylja
viturleika þín:
það er hin litla Íngigerður,
leyndarkona mín."

18.
„Því fórstu so lángt út
í lönd eptir mèr,
fyrst þú hafðir so volduga
heima hjá þèr?"

19.
„Því fór eg so lángt út
í lönd eptir þèr:
að mèr þótti hún Íngigerður
ekki hæfa mèr."

20.
So gekk hún Engilborg
hart undan tjaldi,
að hann herra Björn
gat henni ekki haldið.

21.

Upp stóð hún Engilborg
af riddarans armi:
„leggstu niður, Íngigerður,
linaðu þínum harmi!"

22.

Þetta mælti hún Engilborg,
hún breiddi pellið á:
„lifið þið í friði guðs!
hreppið enga þrá!

23.

Þremur hefi eg verið
mönnunum gipt:
allar hafa mig eljurnar
yndinu svipt."

24.

Það var hún Engilborg,
hún settist í helgan stein:
síðan vann hún engum
kónginum mein.

25.

Venda eg mínu
kvæðinu í kross:
herra guð og María
veri með oss!
Sá er enginn glaður, eptir annan þreyr.

## C.

(a: Arnam. 153, g, 2. b: Arnam. 153, e, 7 [kun 1ste vers].)

1.

Herra Björn og Íngigerður
tõluðu þau sèr gaman:
upp í hæga loptinu
lágu bæði saman.
Sá er enginn glaður, sem eptir annan þreyr

2.

Íngigerður spurði
herra Björn þá:
„hver er sú hin volduga,
þinn stár hugrinn á?"

3.

„Það er hún Elínborg,
kóngs er hún barn:
hana hef eg hugleikið
að vefja minn arm."

4.

Pellið og silkið
var á strætið breidt,
þegar hún ríka Elínborg
var til hallar leidd.

5.

Niður sezt hún Elínborg
honum herra Birni hjá:
en hún ríka Íngigerður
skenkti vínið á.

6.

Elínborg spurði
herra Björn þá:
„hver er sú hin volduga,
skenkir vínið á."

7.

„Það er hún Margrèt,
systir mín,
sem í allan dag
skenkir vín."

8.

„Sè það hún Margrèt,
systir þín:
giptu hana Knút'num ríka,
bróður mín!"

9.

„Fyrr skal hann Knútur
dauðann sjá,
en hann eigi hana Margrètu
með allt það hún á."

10.

Pellið og silkið
var á gólfið breidt,
þegar hún ríka Elínborg
var til sængur leidd.

11.

Niður leggst hún Elínborg
herra Birni hjá:
en hún ríka Íngigerður
breiddi pellið á.

12.

Elínborg spurði
herra Björn sinn:
„því falla henni
so þrátt tár á kinn?"

13.

„Eg get ekki dulið þig
fyrir viturleiki þín:
það er hún Íngigerður,
leyndarkona mín."

14.

„Því fórstu so lángt
í löndin eptir mèr,
fyrst þú áttir so volduga
heima hjá þèr?"

15.

Upp stóð hún Elínborg
herra Birni frá:
„leggstu niður, Íngigerður,
linaðu þinni þrá!"

16.

Niður leggst hún Íngigerður
herra Birni hjá:
en hún ríka Elínborg
breiddi pellið á.

17.

„Þremur hef eg mönnunum
verið gipt:
allar hafa mig eljurnar
yndinu svipt."

18.

Út gekk hún Elínborg
undan fögru tjaldi:
„lof sè guði og Maríu minni!
meydóm hef eg haldið."
Sá er enginn glaður, sem eptir annan þreyr.

---

D.

(Arch. D, 2.)

1.

Herra Björn og Íngigerður
hjöluðu þau sèr gaman:
í því háfa loptinu
voru þau bæði saman.
Sefr hin ríka rós á hans armi.

2.

„Hvernig muntu, Íngigerður!
una þèr við þitt líf,
ef eg fer á morgun,
að kaupa mèr víf?"

3.

„Annaðhvort í veröldinni
lifi eg eða dey,
þó þú farir á morgun,
að kaupa þèr mey."

4.

Og svo sagði hún Íngigerður,
hún felldi tár á brá:
„hver er sú hin volduga,
er þèr stár hugrinn á?"

5.

„Það er hún Íngibjörg,
kóngs er hún barn:
gjarnan vildi eg vefja hana
uppá minn arm."

6.

„Sè það hún Íngibjörg,
kóngs er hún barn:
ekki mun hún auka mèr
stórugum harm."

7.

Þá var troðið organ
og slegið symfón,
þegar hún ríka Íngibjörg
reið sig heim í tún.

8.

Gullið og pellin
voru á strætin breidd,
þegar hún ríka Íngibjörg
var til sætis leidd.

9.

Og svo sagði hún Íngibjörg
við herra Björn sinn:
„hver er sú hin fagra,
er fellir tár á kinn?"

10.

„Það er hún Sigríður,
systir mín:
byrlar hún bjórinn,
og blandar hún vín."

11.

„Sè það hún Sigríður,
systir þín:
þúngan ber hún harminn
í brjóstinu sín.

12.

Sè það hún Sigríður,
systir þín:
giptu hana Knúti kóngi,
bróður mín!"

13.

„Dugir mèr ei að dyljast
fyrir viturleika þín:
það er hún Íngigerður,
fylgikona mín."

14.

„Því fórst þú í önnur löndin
eptir mèr,
þegar þú áttir jafnvæna
brúðurina þèr?"

15.

„Því fór eg í önnur löndin
eptir þèr:
að mèr þótti hún Íngigerður
aldrei sóma mèr."

16.

„Sjö hefir mig mönnunum
minn faðir gipt:
allar hafa mig eljurnar
yndinu svipt."

17.

Og svo sagði hún Íngibjörg
við herra Björn þá:
„eigðu hana Íngigerði!
svo hennar lini þrá."

18.

Og svo sagði hún Íngibjörg,
þá komið var nætur húm:
„njótist þið í náðum,
og gángið þið bæði í rúm!"

19.

Og svo sagði hún Íngibjörg,
hún breiddi klæðin á:
„njótist þið í náðum
og bíðið aldrei þrá!"

20.

Og svo sagði hún Íngibjörg,
hún gekk í helgan stein:
„njótist þið í náðum,
og bíðið aldrei mein!"
Sefr hin ríka rós á hans armi.

---

E.

(J. Steph., 10.)

1.

Herra Björn og Íngigerður
mart frömdu þau gaman:
uppi í efra loptinu
lögðu þau ráðin saman.
Sefr hún ríka Rósa á hans armi.

2.

„Hvernig muntu, Íngigerður!
una við þitt líf,
ef eg fer á morgun,
að fastna mèr víf?"

3.

„Það er annaðhvort í heiminum
eg lifi eða eg dey,
þó þú farir á morgun,
að fastna þèr mey."

4.

Þá voru barðar bumburnar
og sleginn symfóninn,
þegar hún ríka Rósa í Borg
reið í garðinn.

5.

Sett var hún á brúðarbekk
konúnginum hjá:
allur lèk hann herra Björn
af fögnuði þá.

6.

Að því spurði hún Rósaborg
hann herra Björn þá:
„hver er sú hin volduga,
er skenkir mjöð á?"

7.

En því svaraði hann herra Björn
ríku Rósu sín:
„það er hún únga Margrèt,
systir mín."

8.

Herra Björn og Rósaborg
til sængur gá:
allrahanda hljóðfærin
slegin voru þá.

9.

En því svaraði hún Rósaborg
við herra Björn sinn:
„því fellir hún Margrèt svo
tárin á kinn?"

10.

„Þess tjáir ei að dylja þig,
Rósaborga mín!
það er hin únga Íngigerður,
leyndarkona mín."

11.

„Því fórstu svo lángt í lönd,
að leita eptir mèr,
fyrst þú hafðir aðra
eins góða hjá þèr?"

12.

„Því fór eg svo lángan veg
í löndin eptir þèr:
engum þótti Íngigerður
samboðin mèr."

13.

Upp stóð hin ríka Rósaborg
honum herra Birni frá:
„leggstu niður, Íngigerður,
og lina þína þrá!

14.

Þremur hefi eg mönnunum
fyrmeir verið gipt:
allar hafa eljurnar
mig yndinu svipt."

15.

Hún settist í helgan stein,
jómfrúin hrein:
þremur riddurum vann hún gagn,
en ekkert mein.
Sefr hún ríka Rósa á hans armi.

---

*Overskrift.* **A**: Kvæði af herra Birni og Íngigerði.
**A.** *Omkvædet uforandret*; *kun har* **b** *både* enginn *og* engi.
— *v. 1, l. 3.* en, **bc**: inni. *L. 3.* hæga, **b**: hægra.
— *v.* 3. **bc**: A. m. e. lifa — ellegar eg dey — ef þú ferr í ö. l. — og fastnar þ. m.
— *v. 4, l. 2—4.* **bc**: hann h. B. þ. — hv. e. sú hin voldugiega — er þinn st. h. á.
— *v. 5.* **bc**: E. h. sú — og er k. b. — hana vilda eg öðlast — að vefja á minn arm.
— *v. 6, l. 4.* **bc**: m. gullbúin sk.
— *v. 7, l. 1—3.* **bc**: Að morgni sk. b. — þ. gullbúin sk. — og gánga s. gl.
— *v. 8, l. 2.* inn, **b**: fín; **c**: sín. *L. 3.* **c**: og nefnast f. M.
— *v. 9, l. 3.* hún, **bc**: hin.
— *v. 10, l. 2.* **bc**: voru á bekki breidd. *L. 3.* hún, **bc**: hin.
— *v. 11, l. 2.* sinn, **bc**: sín. *L. 3.* **bc**: hv. skenkir hèr m. *L. 4.* skíra, **bc**: skæra.
— *v. 12, l. 1.* hún, *fattes i* **bc**. *L. 4.* skíra, **bc**: skæra.
— *v. 13, l. 1.* hún, *fattes i* **bc**.
— *v. 14, l. 1.* **bc**: þ. f. h. svo. *L. 3.* **bc**: eða þreyr hún eptir.

**A**, *v. 15, l. 2.* **bc**: festarmanni sín. *L. 3.* Hnúti, **bc**: Knúti (*ligeså i n. v.*). *L. 3.* kóngi, **b**: konúngi.
— *v. 16, l. 3—4.* **c**: Knút kóng bróður þinn — vill hún ekki fá.
— *v. 17, l. 1—2.* **bc**: S. þegar apt. — og rökkur f. á. *L. 4.* **b**: t. sængur g.
— *v. 18, l. 1—3.* **bc**: H. d. þegar af þ. — gulli búna skó — o. h. harmurinn. *L. 4.* **c**: í hjartanu nóg.
— *v. 20, l. 1—2.* **bc**: En seinast breiddi hún — silki og pellið á. *L. 4.* **bc**: og hr. a. þ.
— *v. 21, l. 3—4.* **bc**: hv. er sú hin volduga, — er p. br. á.
— *v. 22, l. 1.* frúin, **bc**: frú. *L. 1.* Margrét, **b**: Margrèta (*sål. have* **bc** *i n. v.*). *L. 3—4.* **bc**: h. br. p. á. — og hvíta lín.
— *v. 23, l. 1.* hún, *fattes i* **bc**.
— *v. 24, l. 4.* unnustan, **b**: unnusta.
— *v. 25, l. 2.* vísdómnum, **bc**: vísdómi. *L. 3.* hún, *fattes i* **bc**. *L. 4.* **bc**: festarkona mín.
— *v. 26, l. 2.* **bc**: svo hún heyrði hvað um er.
— *v. 27. l. 1—2.* **bc**: Svaraði aptur henni — sú hin ríka frú.
— *v. 28, l. 4.* **bc**: og linaðu þ. h.
— *v. 29, l. 1—2.* **bc**: Allt saman það r. g. — er eg flutti m. m.
— *v. 30, l. 2.* láta, **bc**: allt saman. *L. 3.* og, **bc**: og svo.
— *v. 31, l. 1.* var, **bc**: fór.
— *v. 32, l. 1.* talar, **bc**: talaði. *L. 3.* **bc**: hv. b. inni lifi hèr.
— *v. 32—33. Mellem disse have* **bc** *dette vers*:

Sjö hefi eg mönnunum — alls verið gipt,
en allar hafa mig [**b**: enn] elfurnar — yndinu svipt.

— *v. 33, l. 3.* barn, **bc**: barnið.

**B**, *v. 9. Kun ved en hukommelsesfejl er dette vers opstået af de to*: **A**, *12 og 15;* **C**, *7 og 8;* **D**, *10 og 12. Det er derfor urigtigt, når forslaget om Ingegerds giftermål med Knud her kommer fra herr Björn, og afslaget fra Engelborg, isteden for omvendt.*

---

# 49.

# Gunnars Kvæði.

---

Gunnar spör sin hustru Halgerd, hvor hun har fået nogle oste fra (som hun ikke er kommen til på en ærlig måde). Hun svarer studst, at det kommer ikke ham ved. Han giver hende da en kindhest. Hun gæmmer sin hævn, indtil Gunnars fjender angribe ham på hans gård, da hans buestreng er brusten, og han beder hende om en lok af hendes hår til en ny, og lægger til: at det gælder hans liv. Da siger Halgerd: så vil jeg nu mindes dig den kindhest, du gav mig, og ikke vil jeg hindre din død. Og så blev da Gunnar dræbt.

---

Det samme vel bekendte træk af Njáls saga er besunget i det færøiske „Gunnars kvæði", hvoraf et brudstykke er trykt hos Hammershaimb, II, nr. 8.

---

(**a**: Giss. Sv., 3. **b**: kgl. fol., 3. **c**: G. Ív., 3.)

1.

Gunnar hèt bóndi á Hlíðarenda,
þángað vilda eg vísu venda.
— Á þíngi,
betr unni Brynhildur Hríngi.

2.

Kona hans hèt Hallgerðr að nafni:
þeirra var ekki lund að jafni.

3.

Gunnar talar við Hallgerði sína:
„heyrðu mig, hústrú fína!

4.

Segðu mèr, eg ætla þig að spyrja,
eg vil so ræðu byrja.

5.

Hvaðan koma Hallgerði ostar?
þeir eru so góðra kosta."

6.

„Víða koma oss konum ostar:
mèr gefast þeir af ljúfum losta."

7.

„Mikið skal til almælis hafa,
eg er so djarfr að skrafa.

8.

Ekki skyldu þeir vera ófrjálsir?
þau koma mèr orð úr hálsi."

9.

Hann sló henni pústr á vánga,
blóðið varð út að gánga.

10.

Liðu so fram lángar stundir:
Hallgerðr þykkir í þeli undir.

11.

Loksins sóktu heim óvinir Gunnar:
þeir vildu honum ekki lífi unna.

12.

Gunnar talar af móðugu hjarta:
„heyrðu mig, frúin bjarta!

13.

Ljáðu mèr hár þitt fína
í bogastrengi mína!

14.

Ljáðu mèr hár þitt góða!
nú stár mitt líf til voða.

15.

Ljáðu mèr hár þitt, lauka ná!
nú liggur mitt lífið á."

16.

„Eg ljæ þèr ekki neitt hár að sinni,
það er í hyggju minni.

17.

Lítt man eg þá kinnhestinn gamla:
eg hirði ei þínum dauða að hamla."

18.

Ekki vildi hún Hallgerðr hárið ljá,
þar lá Gunnars lífið á.

19.

Tóku þeir hann Gunnar bónda
og gjörðu honum flest til vonda.

20.

So lyktaði þeirra fundum,
að Gunnar lá dauðr á grundu.

— Á þíngi,
betr unni Brynhildur Hríngi.

---

*Overskriften:* Kvæði af Gunnari á Hlíðarenda, *står i alle tre hdskrr.*
*Omkvæd:* unni, **b** *overalt:* unni hún. — **b** *har ved v. 1—10:* Grímhildur *for* Brynhildur; *men afskriveren har i randen ved v. 1 skrevet:* Brynhildur potius.
*V. 4, l. 1.* þig, *fattes i* **be**.
*V. 5, l. 2.* þeir, **e**: sem. *L. 2.* góðra kosta, **be**: góðir kostar.
*V. 6, l. 1.* konum, **e**: konunum. *L. 2.* **e**: af ljúfum þeir gefast mèr losta.
*V. 7, l. 1.* almælis, **b**: ámælis. *L. 2.* eg er, **e**: er eg.
*V. 9, l. 2.* blóðið, **be**: svo blóðíð.
*V. 11, l. 2.* lífi, **be**: lífs.
*V. 14, l. 2.* til, **be**: í.
*V. 15, l. 2.* mitt **e**: mèr.
*V. 16, l. 1.* neitt, **e**: eitt.
*V. 17, l. 2.* ei, **b**: eigi.
*V. 20, l. 1.* fundum, **be**: fundi. *L. 2.* lá, **e**: lá þar.

---

## 50.

# Ólafs vísur.

---

### 1.

Olav konning, Haralds sön,
han give os sejer og held!
han give mig og lykke til
at kvæde vel om ham selv!

2.

Olav konning, Haralds sön,
han red gennem tykke skove:
der så han lidet spor i ler,
det må vi vel alle love.

3.

Det da mælte Fin Arnesön,
red fremmest udi den flok:
„Så væn da var denne liden fod,
var den udi skarlagens sok!"

4.

„Og hør du det, Fin Arnesön,
og hvad jeg lader dig vide:
denne samme mø skalt du mig få,
för sol ganger under lide."

5.

Så rede de sig lidt bedre frem,
den væne mø de funde:
bøde de hende at stige på stub
og ride med sig gennem lunde.

6.

Det da mælte han konningen,
han red hende alt så nær:
„Hvad da hedder du, pigelil,
som os skulde møde her?"

7.

„Alfhed hedder jeg, herre konning!
jeg takker eder for eders nåde:
det jeg skulde møde eder her i dag,
det vorder mig vist til både."

8.

„Far du hjem til dronning min,
og tjen du hende med tro!
hæder og ære, lykke og held
du finder i hendes bo."

9.

„Hør i det nu, dronning dyre!
jeg siger eder så for sand:
Olav konning sendte mig hid,
jeg skulde gå eder til hand."

10.

Det da var den dronning rig,
så lidet mon hun det love:
at hun måtte om vinternat
ene i sængen sove.

11.

Det var en så årle morgen,
som solen monne opskinne:
dronningen sendte Alfhed bort
for saks og söm at finde.

12.

Alfhed ledte om saks og söm,
hun ledte i loftet inde;
mælte det kongen, i sængen lå:
„Hvad agter du her at finde?"

13.

Så da spurde han Olav konning:
„Hvad søger du her i lön?"
faldt hende ord af munde så:
„Jeg søger mig her en sön."

14.

Så da svared han Olav konning,
så hjærtelig ved han lo:
„Stig du da op i sæng til mig!
dine fødder vel du to!"

15.

Det var alt ved fuldmåne-tid
og ved den höje søflod:
undfanget blev en drottens dag
Magnus den konning-god.

16.

Ved fulde måne og höjen flod
— for sanden kan jeg det kvæde —
da avled kongen den sön så gæv,
os alle til gavn og glæde.

17.

Det da mælte de kongens mænd,
og så da haver jeg spurt:
at kongen han havde bødet den synd,
forinden han havde den gjort.

18.

Alfhed drömte første dröm,
og den var hende vel god:
hende tyktes alt Norges land
at flyde op for sin fod.

19.

Alfhed drömte anden dröm:
hun stod på kirkegulv,
tændtes der på hendes hånd
de fagre kærter tolv.

20.

Alfhed drömte tredje dröm,
den gik hende vel til gavn:
hende tyktes den gyldne stråle
at flyve ud af hendes favn.

21.

Alfhed hun ganger ud og ind,
hende randt så mangt i sinde:
at barn hviled hende under barm,
hun kunde vel på sig finde.

22.

Dronningen bød for hendes drömme
gårde tolv med liste:
at gifte hende så rig en svend;
hun vilde dem dog ej miste.

23.

Det da mælte han konningen,
„Her er vel ondt at vælge:
men aldrig dog du drömme dine
for gods og penninge sælge!"

24.

Og det da mælte han konningen,
för han af gårde fór:
„Hav dem selv og lev du vel!
og nyd du drömmen god!"

25.

Alfhed ganger i stenstue ind,
føder svend så liden og svag;
det mælte alle de kvinder gode:
„Det barn lever ikke til dag."

26.

Det da mælte han Sighvat skjald,
det stander i bogerne så:
„Hvad heller vil i nu barnet døbe,
eller vil i for svarene stå?"

27.

Det da svared de kongens mænd,
og raske helte de vare:
„Vi ville lade dig råde selv,
du må det for kongen svare."

28.

Sighvat ganger i hallen ind,
som kongen sad over bord:
„Hil sidder i, herre kong Olav!
hvi haver i sendt mig ord?"

29.

Det da mælte han konningen,
han taled ikke meget blidt:
„Hvo gav dig, Sighvat, lov dertil
at døbe så barnet mit?"

30.

„Fordi lod jeg hannem Magnus kalde,
— det ganger ham vel til gavn —
at ej véd jeg bedre konning på jord,
end ham, Karl Magnus ved navn."

31.

Det da svared han Olav konning,
han mælte et ord med skel:
„Alle de dage, du leve må,
tjen du hannem Magnus vel!"

32.
Herre Jesus Krist, Mariæ sön,
han løste os af vor nød:
stande han end os alle bi
og både i liv og død!

---

Denne vise foreligger alene i en egenhændig afskrift af Arne Magnusson (Arnam. 319. 4to), forsynet med denne påtegning af ham: „Vísa um getnað og fæðíng Magnúss konúngs góða, sonar Ólafs helga, Noregs kóngs, úr bók in 4to minori frá Þorði Pèturssyni á Hólmi; var þar inni skrifuð með greyhendi, ekki gamalli." Det nævnte håndskrift, hvori forskriften fandtes, er skindbogen Arnam. 622. 4to, der ifølge katalogen skulde indeholde også et „kvæði um Ólaf helga" som nu fattes, fordi Arne Magnusson, efter at have taget sin afskrift deraf, selv tilintetgjorde bladet, da det var så råddent, at det ikke kunde bevares. Herom, samt om forskriftens alder (fra 16de århundredes første halvdel), giver han selv i 622 disse oplysninger: „Hèr voru inn á milli í bókinni . . . Ólafs konúngs vísur, með andstygðar hendi; . . . hálfar Ólafsvísur voru ritaðar á það gamla pergamentið, sem autt hafði verið látið aptan við Píslargrát; eptri partur af Ólafs vísum . . . var ritað[ur] á óhræsisligt pergament, sem hèr hafði verið fest inn á milli arkanna, þegar bókin hefir umbundin verið. . . . Bandið á bókinni mun vera hèrum de anno 1549, en bókin sjálf nokkru eldri, þó ekki myklu, sem af skriptinni er að sjá."

Om end denne opskrift ikke skulde være ældre end fra 16de årh., så er selve visen dog kendelig meget ældre. En sammenligning med sagaberetningen: Heimskr., Ólafs

saga helga, kap. 131; den store Ólafs saga (ved Keyser og Unger, 1853), kap. 111; den lille Ólafs saga (ved Munch og Unger, 1849), kap. 46 — viser, at den ikke er digtet efter denne, men støtter sig på udførligere sagn, der vel her have fået et legendeagtigt præg og en poetisk afrunding i ægte folkevisestil, men derfor ikke have tabt præget af en umiddelbar og troværdig historisk tradition.

---

(Arnam. 319. kv.)

1.

Ólafr kóngur, Haralds son,
hann gefi oss sigr og tíma!
so að eg hafi djörfúng til
um aðferð hans að ríma.

2.

Ólafr kóngur, Haralds son,
hann reið um þykkvan skóg:
hann sá lítið spor í leir,
slík eru minnin stór.

3.

Svaraði hann Finnur Árnason,
var honum á því þokki:
„fallegr mundi sá lítill fótur,
væri hann í skarlats sokki."

4.

„Heyrðu það, Finnur Árnason,
hvað eg segi þèr:
áðr en sól til viðar rennur,
meyna fáðu mèr!"

5.

Þeir sáu fram á fögrum skógi
eina mey so fríða:
þeir buðu henni á stofn að stíga
og so með sèr ríða.

6.

En so svaraði kóngurinn,
hann dvaldist þar um stund:
„hvert er heiti þitt, fagra fljóð,
sem komið er á minn fund?"

7.

„Álfeiðr heiti eg, göfugr herra!
sízt mun virðíng þrjóta:
nú er eg komin á yðar fund,
og þar mun eg giptu af hljóta."

8.

„Farðu heim til drottníngar,
og þjóna þú henni með sóma!
þá muntu í mínu ríki
njóta sigurs og blóma."

9.

„Heyrðu það nú, dýra drottníng!
trúa máttu mèr:
Ólafr kóngur, Haralds son,
hann skipaði mèr hjá þèr."

10.

Drottníng brauzt frá göfugum herra,
varð henni að því mein:
því hún varð um vintrar nátt
að byggja sængina ein.

11.

Það var einn so snemma myrgin,
sólin skein í tíma:
drottning sendi Álfeiði
að leita saxa sinna.

12.

Álfeiðr sig til svefnskemmu gekk,
þessi brúðrin svinna:
kóngrinn spurði það einka fljóð:
„hvað vildir þú finna?"

13.

En því svaraði Ólafr kóngur,
hann fréttir víðið teita;
hún lèt sèr það orð af munni verða:
hún kvaðst sèr sonar leita.

14.

En so svaraði kóngurinn,
að því gefr hann gætur:
„stígðu upp í sæng til mín,
og þvoðu vel þína fætur!"

15.

Það var rètt með fullu túngli
og miðju sjáfar flóði:
byrjaðr var á drottins dag
Magnús kóngrinn góði.

16.

Með fullu túngli og flóði að sjá,
tel eg af góðs manns æði,
tiggi byrjaði tiginn son
fyrir utan ángr og mæði.

17.
En so svöruðu kóngsins menn,
so er á bókum ort:
fyrri hafði hann bætt þá synd,
en hann hafði hana gjört.

18.
Álfeiði dreymdi fyrsta draum,
og var sá lengst í loti:
að henni þótti á sinni æfi
Noreg öll á floti.

19.
Álfeiði dreymdi annan draum:
stè hún á kirkju-gólf:
að henni þótti á sinni hendi
kveikjast ljósin tólf.

20.
Álfeiði dreymdi þriðja draum,
get eg, hún giptu fángi:
að henni þótti hinn fagri geisli
fljúga sèr úr fángi.

21.
Álfeiðr hugsar um sinn hag
af alls öngum þjósti:
finnr hún það með sjálfri sèr,
að hún hafi barn fyrir brjósti.

22.
Drottníng bauð við hennar drauma
tólf sín [beztu] bú:
gipta hana lendum manni,
neitaði hún því þó.

23.

En því svaraði kónguriun:
„vant er um að velja;
þú skalt aldri þína drauma
rètt með verði selja."

24.

En því svaraði kóngurinn,
áðr hann reið til hófa:
„eigðu sjálf og untu vel
og njóttu draumsins góða!"

25.

Álfeiðr fángar þúnga sótt,
sú gekk helzt af magni:
konurnar sögðu kõrlum til,
að lítið væri að barni.

26.

En so svaraði hann Sigvatr skáld,
so er á bókum ritað:
„hvort viljð heldur skíra barn
eða fyrir svörum sitja?"

27.

En so svöruðu kóngsins menn,
prýddir vel til dáða:
„þennan bjóðum vèr kostinn þèr,
vær látum þig sjálfan ráða."

28.

Sigvatr gekk þar inn í hõll,
sem kóngrinn sat yfir borðum:
„skylt væri mèr inna til
eitt [. . . .] tal með orðum."

29.

En so svaraði kóngurinn,
legg eg við so ríkt:
„hver gaf þèr, Sigvatr! orðlof til
að skíra barnið mitt?"

30.

„Því lèt eg hann Magnús heita,
gjöra skal á því grein:
eg vissa ekki æðra nafn
veraldar kóngs í heim."

31.

En so svaraði kóngurinn,
hann hèlt á borða ljóma:
„þú skalt alla þína æfi
[honum] Magnúsi þjóna."

32.

Jesús Kristus Maríu son
leysti oss frá nauðum:
þar næst hjálpi hann allri þjóð
bæði lífs og dauðum!

---

*Arne Magnussen har taget sin afskrift med diplomatarisk nöjagtighed, også i henseende til stavemåden, som dog ikke er fulgt i nærværende aftryk. Hvor noget i forskriften har været utydeligt, findes det i afskriften betegnet ved prikker underneden; og således betegnes:* nú *i v. 7, l. 3;* þar *eller* hèr *i v. 7, l. 4;* herra *i v. 10, l. 1;* f *i* af *i v. 16, l. 2;* a *eller* e *i* hafði *eller* hefði *i v. 17, l. 4;* helzt *eller* hæst *i v. 25, l. 2. Ganske ulæselige steder eller udeladelser i originalen betegner A. M. ved klammer; således* beztu *i v. 22, l. 2;* honum *i v. 31, l. 4, samt lakunen i v. 28, l. 4. Fejlskrift i original eller afskrift må det være, når i v. 22, l. 1 læses* draumur *for* drauma.

# 51.

## Karla-Magnúsar kvæði.

---

Dronningen står i höjeloft og hører sin husbonds ord til hendes terne Ingeborg: Gid min dronning var vel død! da skulde du være min allerkæreste. Hun lader ternen kalde for sig og vil af hende selv høre, hvad kongen har sagt; men Ingeborg vil intet tilstå. Næste dag sender dronningen hende da bort til et andet land. Da budskabet herom kommer kongen for øre, hvor han sidder over bord, byder han straks sine svende at göre snekken rede, og samme nat var han Ingeborgs gæst og sov ved hendes side. Du skal føde mig en sön, siger kongen, og ham skal du kalde Magnus.

Kongen kommer hjem af leding og bydes velkommen af dronningen, som spör ham om tidende. Den tidende har jeg at bære, som længe har været dulgt, siger kongen, at jeg har mig en sön, som skal arve mit rige. — Så er det da sket, siger dronningen, som jeg længe frygtede: at en anden end mit barn skal arve landet. Ret som de tales ved, da kommer Karl Magnus ridende. Velkommen, min sön! siger kongen, du skal styre riget efter mig; du har en søster, som intet ondt vil göre: hende skal du gifte med din ypperste mand; og over mine ben skal du rejse en kirke med et guldkors i hvert hjörne.

---

Denne vise handler vistnok ikke om den bekendte „Karla-Magnús" ɔ: kejser Karl den store, men har samme æmne som den forrige, så dens Magnus el. Karl Magnus er

den norske kong Magnus den gode, og kongen i visen altså Olav den hellige. Slutningsversets ord: selve Gud og Karl Magnus være med os, ere vel isåfald en forvanskning for: selve Gud og Sant Olav. — Visen deler sig kendelig i to afsnit, af hvilke det sidste begynder med v. 14. Da sönnen her alt er voksen, må en rum tid tænkes forløben imellem første og andet afsnit.

---

(a: kgl. fol., 91. b: G. Ív., 91.)

1.

Drottníngin stár undir loptsins sala,
— Mitt hjarta grór svo gjarna —
hlýddi á það, hennar kóngr rèð tala.
— sól og hin ljósa stjarna.

2.

„Eg vilda, mín drottníngin væri dauð:
þá skylda eg unna þèr, rósin rauð!"

3.

Drottníng spyr að skemmumey sín:
„hvað talaði minn kóngr til þín?"

4.

„Hann vildi mig í moldu,
en þig á grænni foldu."

5.

„Skrökvar þú, Íngibjörg, skemmumey mín!
annað talaði minn kóngr til þín."

6.

Það var einn myrgin, dagr fór í hönd:
flytja lèt hún Íngibjörgu á önnur lönd.

7.

Það var einn morgun, sól skein í heið:
flytja lèt hún Íngibjörgu á heljarleið.

8.

Kóngrinn stakk sínum hnífi í borð:
hvorki át hann nè drakk eptir þessi orð.

9.

Kóngrinn talar við sveina sín:
„Þèr skuluð búa til ferju mín."

10.

Svo var kóngi á ferðinni ótt:
gisti hann hjá Íngibjörgu þá sömu nótt.

11.

Kóngrinn talar við sveina sín:
„berið hana Íngibjörgu í sæng til mín!"

12.

Báru þeir Íngibjörgu undir gulltjald:
hvert þeirra orðið var skrifað upp á spjald.

13.

„Son skulum við eiga, vera til fús;
gefa gott nafn og kalla Magnús."

14.

Kóngrinn hèlt úr leiðángri heim:
úti stendr drottníng og fagnaði þeim.

15.

„Kom þú lofsæll, kóngr minn hèr!
þú munt kunna tíðindi að segja mèr."

16.

„Son á eg í vonum, þó farið hafi hljótt:
hann skal verða kóngr yfir allri drótt."

17.

„Nú er það fram komið, sem fyrr hefi eg kvítt:
hann mundi ráða löndum, en ekki barn mitt."

18.

Þegar þau höfðu hjalað um litla stund,
þá kom hann Karla-Magnús á þeirra fund.

19.

„Kom þú lofsæll, sonrinn minn!
þú skalt ráða löndum eptir daginn minn.

20.

Eina áttú systur, er vinnur engum mein:
giptu hana þínum ágætasta svein!

21.

Kirkju skaltu reisa láta við bólstað hjá oss,
en í hvert hornið setja gullkross."

22.

Vendi eg mínu kvæði í kross:
— Mitt hjarta grór svo gjarna' —
sjálfur guð og Karla-Magnús sè með öllum oss!
— sól og hin ljósa stjarna.

---

*V. 3, l. 2.* þín, b; a: mín.
*V. 17, l. 1.* fyrr, b: fyrir. *L. 2.* barn, b: barnið.
*V. 21, l. 2.* hornið, b: hennar horn.

## 52.

# Soffíu kvæði.

---

Kong Valdemar og Burislev ere søskendebörn. Der skal holdes en ledingsfærd, og de to frænder kaste lod om, hvem af dem der skal fare i leding. Lodden træffer Burislev: han skal fare, medens kongen skal sidde hjemme. Da lægger Burislev sig syg, så Valdemar må fare i hans sted. Så snart han er borte, bliver Burislev atter frisk og går did, hvor møerne lege.

Burislev lagde sine lokker i krans,
så gik han did, som møer hulde dans.

Ej var han blå, og ej var bleg,
der han kom did, som møer var i leg.

Der danser han så lang som dagen er med kongens søster Kirstin, og om natten sove de sammen. Endnu medens kongen er borte, føder Kirstin to börn; en sön og en datter. Da kong Valdemar kommer hjem af leding, møder hans dronning Sofie ham på strandbredden med det budskab, at hans søster har sovet på Burislevs arm. Det er umuligt, siger kongen: de ere jo søskendebörn. Da er det dog sandt, svarer dronningen, at hun har Burislevs börn ved sit bryst. Kongen sender da bud efter sin søster: han lader hende sige, at han er bleven farlig såret i krigen med Venderkongen (eller: med kong Svend), og hun må straks komme til ham, om hun skal træffe ham i live. Svendene fare afsted og komme til Kirstins bur, hvor der brænder lys i hver en vrå: gjennem gluggen se de to små

börn ligge i vuggen. De banke da på, Kirstin beder dem vænte, indtil hun får vækket sine terner; men de bryde låsene, gå ind og røgte kongens ærinde. Hun svarer, at det kan alle da se og vide, at hun er ikke skikket til slig en færd. Så sætter hun skrin på knæ og uddeler gods og guld til alle sine undergivne med de ord:

Görer i vel mod börnen' min!
aldrig se de moder sin.

Vogter mest liden Karen, den væne mø,
hvad heller hendes moder skal leve eller dø!

Længe klædte hun liden fod:
så lidt længtes hende sin broder imod.

Længe tode hun liden hånd:
så liden glæde var hende i vån.

Længe kæmte hun fagre hår:
hende lysted så lidt for sin broder at stå.

Hun stiger så til hest og følger med sendebudene til kongens gård. Kongen tager venlig imod hende og skikker hende til sæde hos sig, för han begynder at prøve hende: han beder hende først bytte belte med sig, hvortil hun svarer, at hun er ikke så belteprud: hun er kun gjordet med en silkesnor. Da siger kongen:

Skam få du, Soffi! du skalt dø:
löjet har du på svend og mø.

Men dronningen beder ham først at prøve sin søster bedre og viser ham mælken af hendes bryst. Kongen spör hende, hvor den mælk kommer fra; Kirstin svarer, at den kommer af hjærtesorgen ved at skilles så brat fra sine terner.

Kongen beder hende nu at blande mjød og vin; men Kirstin undskylder sig med sin ungdom: hun kan ikke stå for skænken for så mange. Kongen lægger sin arm om hendes liv: hun er så smal som en anden mø. Så tager han hende under skind og træder i dans med hende. Længe danse de ud og ind, og der er ingen møde på hende at se; men endelig rinder blodet ned under hendes skarlagensskind og hun synker død om i sin broders arme. Da angrer kongen sin hårdhed og siger til dronningen, at aldrig mere vorder han hende blid, for hun har forrådt hans søsters liv.

Således lyder fortællingen, fuldstændigst i **AB**, men i alt væsenligt overensstemmende i alle opskrr. Kirstin kaldes i **C** Katrín, medens omvendt hendes datter, som i **ABE** hedder så, i **CD** kaldes Kristín. For **AB**'s Venderkonge (Vintr-kóngr = Vindakóngr) have **CDE**: kong Svend, hvorved må tænkes på Svend Grade, da vi vide, at det er den danske kong Valdemar den første, hans dronning Sofie, hans søster Kirstin og hans næstsøskendebarn Buris Henrikssön, om hvem visen handler. Når **CDE** have det for mange islandske viser fælles slutningsvers: tre fore lig i grav tilsammen, da er dette kun et nyere tilhæng.

Opskr. **E** skulde egenlig slutte med det nævnte vers (50); hvad der følger efter, hører ikke did, men til „Stjúpmóður kvæði", nr. 11 her foran.

Det ene vers, der står til sidst som opskr. **F**, er egenlig ikke noget vers af denne vise, men må have tilhørt dens fortsættelse: visen om liden Kirstins og Burises datter, der da her kaldes, ikke Katrín eller Kristín, men — som i den danske vise — Lusie. Den d a n s k e vise, som på islandsk kun gjenfindes i dette ene vers, er Syvs nr. 42; Abr., nr. 65; Danm. gl. folkeviser, nr. 127.

**Dansk:** Syv, nr. 41; Abr., nr. 62; Danm. gl. folkev., nr. 126.
**Svensk:** Arwidss., nr. 53; jfr. Danm. gl. folkev., III, s. 69.
**Norsk:** se Danmarks gamle folkeviser, III., s. 69.
**Færøisk:** Schrøters hdskr. (ny kgl. saml. 346. 8vo), nr. 4; Danm. gl. folkev., III, s. 67.
**Tysk:** Müllenhoff, s. 492 (Wunderhorn, IV., s. 79); Hoffmanns Schles. Volksl., nr. 27. Wunderhorn, II, s. 272 (2den udg., II, s. 273). og II, s. 259 (2den udg., II, s. 276); Simrock, nr. 16; Zuccalmaglio, nr. 89;
**Vendisk:** Haupt og Schmaler, I, nr. 53.
**Skotsk:** Herd, I, s. 162; Finlay, II, s. 62; Sharpe's Ballad Book (Motherwell, s. 139). Buchan, I, s. 97.

---

## A.

(Arnam. 153, a, 14.)

1.

Kóngrinn og Burtleifr, systrúngar tveir,
— Þann blíða —
í leiðángr skyldu halda báðir þeir.
— vèr skulum til hófa ríða.

2.

Lögðu þeir hlutinn á sinn sala:
hvor þeirra skyldi í leiðángr fara.

3.

Burtleifr skyldi í leiðángr fara,
en kóngrinn skyldi heima vera.

4.

Burtleif fángaði hættleg sótt:
hann svaf hvorki dag nè nótt.

5.

Kóngrinn spurði systrúng sinn:
„batnar þèr ekki sóttar enn?"

6.

„Mèr er enn samt og mèr var í sinn:
haltu í leiðángr, systrúngr minn!"

7.

Kóngrinn hèlt í leiðángr fljótt:
Burtleifi batnaði sóttar skjótt.

8.

Ei var hann blár, og ei var hann bleikr:
þar kom hann fram, sem meyjar voru á leik.

9.

Kristín rètti hönd frá sèr:
„Burtleifr frændi, dansaðu með mèr!"

10.

Dönsuðu allan daginn um kríng,
en um nótt sváfu þau í einum býng.

11.

Áðr en sól á fjöllum rauf,
Kristín þoldi sára nauð.

12.

Þegar sól á fjöllum skein,
Kristín fæddi fljóð og svein.

13.

Soffía sat á sandi:
kóngrinn sigldi að landi.

14.

„Velkominn, Valdimar, kóngr minn, [hèr]!
nóg eru tíðindi að segja þèr."

15.

Kóngrinn spurði drottníng sín:
„hvernig má fólkið í ríki mín?"

16.

„Vel má fólk í ríkjum þín,
utan hún Kristín, systir þín.

17.

Eina nótt með engum harm
Burtleifr svaf á Kristínar arm."

18.

„Hættu þig, Soffía, talaðu ei so!
systkinabörnin eru þau."

19.

„Það skal eg ekki ljúga:
börn eru komin að sjúga."

20.

Kóngrinn talar við sveina sín:
„kallið á hana Kristínu, hún komi til mín!

21.

Segið, eg hafi barizt í ár,
og hafi fengið eitt dauðlegt sár!

22.

Segið, eg hafi beðið hana skyndilega fara,
ef hún vildi lifandi við mig tala!"

23.

Sveinninn reið og rendi:
fagran folann sprengdi.

24.

Sveinninn lagðist á hliðglugga þrjá:
þar brann ljós í hverri krá.

25.
Fögr var sú síldin, í vöggunni lá,
og sá sveinninn, er þar svaf hjá.

26.
Klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp, Kristín, láttu mig inn!"

27.
„Bíð þú mín um litla hríð,
meðan eg vek upp þernur mín!"

28.
Mjúkar hefir hann fingr og smá:
með listum kroppar hann lokur í frá.

29.
Kristín kastar kodda blá:
„smásveinn úngi, sit þar á!"

30.
„Eg vil ekki sitja þar á:
eg má vel á gólfi stá.

31.
Kóngrinn sendi boð með mèr:
bað þig koma og vera hjá sèr.

32.
Hann hefir fengið hættlegt sár:
hann hefir barizt við Vintr-kóng í ár.

33.
Hann beiddi þig skyndilega að fara,
ef þú vildir lifandi við sig tala."

34.
„Allir mega það vita og sjá:
mèr er ei hægt um ferðir þær."

35.

Kristín setti sèr kistil í hnè:
býtti hún sínum skemmumeyjum gulli og fè.

36.

„Gjöri þèr vel við börnin mín!
þau sjá aldri móður sín.

37.

Einkanlega við hana Katrínu mey!
hvort sem hennar móðir lifir eða deyr,"

38.

Kristín var sett á hvítan hest:
allra kvenna reið hún mest.

39.

Hægra fæti í höllina stè:
„heill, systrúngr! hvað viltu mèr?"

40.

Kóngrinn kastar kodda blá:
„Kristín systir, hvíldu þig þar á!"

41.

„Eg vil ekki sitja þar á:
gullbúið saxið undir lá.

42.

Gullbúið sax og gullbúinn hníf:
það svíkur mitt únga líf."

43.

„Heyrðu það, Kristín, systir mín:
býttu belti við bróður þinn!"

44.

„Eg er ei so beltisprúð:
eg hefi um mig silki-snúr."

45.

„Hættu þig, Soffía! þú skalt þig dey:
þú hefir logið á svein og mey."

46.

„Heyrðu það, Valdemar, kóngur minn:
reyndu betr Kristínu, systur þín!"

47.

„Heyrðu það, Kristín, systir mín!
því fer mjólk úr brjóstum þín?"

48.

„Það er ei mjólk, og það er ei vín:
heldr er það treginn af hjarta mín."

49.

„Því er það treginn af hjartanu þín?" —
„að eg skilda við þernur mín."

50.

„Heyrðu það, Kristín, systir mín:
blandaðu með mèr bjór og vín!"

51.

„Eg er svo úng, og eg það ei kann:
skenkja vín fyrir margan mann."

52.

Hann tók hana Kristínu undir sín skinn:
dansaði hann með hana út og inn.

53.

Dansaði hann með hana daginn, dansaði hann þrjá:
öngva mæði á henni sá.

54.

Dansaði hann daginn, og dansaði hann fimm:
þá rann blóð um söðla-skinn.

55.

Það var kónginum mest til harms:
dauð lá hún Kristín á hans arm.

56.

„Það skal eg, Soffía! launa þèr:
þú skalt aldri í sænginni sofa hjá mèr."

57.

Vendi eg mínu kvæði í kross:
— Þann blíða —
sankti Markus sjáðu oss!
— vèr skulum til hófa ríða.

---

B.

(Kgl. okt., 1.)

1.

Kóngrinn og Burtleifr, systrúngar tveir,
— Þann blíða —
í leiðángr áttu að sigla báðir þeir.
— vær skulum til hófa ríða.

2.

Lögðu þeir hlutinn á sinn sala:
hver þeirra átti í leiðángr að fara.

3.

Burtleifr átti í leiðángr að fara,
en kóngrinn átti heima að vera.

4.

Burtleifr fángaði dapra sótt:
hann svaf hvorki dag nè nótt.

5.

Kóngrinn spurði systrúng sinn:
„batnar þèr ekki sóttar enn?"

6.

„Mèr er samt og mèr var senn:
haltu í leiðángr, systrúngr minn!"

7.

Kóngrinn hèlt í leiðángr skjótt:
en Burtleifi batnaði sóttar skjótt.

8.

Hann var ei blár, hann var ei bleikr:
hann kom þar fram, sem meyjar voru á leik.

9.

Kristín rètti hönd frá sèr:
„Burtleifr frændi, dansaðu með mèr!"

10.

Dönsuðu þau so daginn um kríng:
en nóttina sváfu í einum bíng.

11.

Þegar var sól á fjöllum rauð,
Kristín þoldi þúnga nauð.

12.

Þegar að sól á fjöllum skein,
hún Kristín fæddi mey og svein.

13.

Soffía sitr á sandi,
en kóngrinn sigldi að landi.

14.

„Velkominn, Valdemar kóngur, hèr!
nóg eru tíðindi að segja þèr."

15.
„Heil vertu, Soffía, drotníng mín!
hvernig má fólk í ríkjum mín?"

16.
„Vel má fólk í ríkjum þín,
nema hún Kristín, systir þín.

17.
Eina nótt með öngvan harm
Burtleifr svaf á Kristínar arm."

18.
„Hættu þig, Soffía, talaðu ei so!
systkinabörnin eru þau tvö."

19.
Kóngrinn kallar á smásvein sín:
„kallaðu á Kristínu, hún komi til mín!"

20.
Sveinninn reið og renndi:
fagran folann sprengdi.

21.
Sveinninn lagðist hliðglugg á:
þar brann ljós í hverri krá.

22.
Þar brann ljós í hverri krá:
einkanlega þar Kristín lá.

23.
Fagr var sá sveinninn, í vöggunni lá,
og sú síldin, honum lá hjá.

24.
Klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp, Kristín, lát mig inn!"

25.

„Bíddu mín um litla tíð:
meðan eg vek upp þernur mín!'

26.

Fattar hefir hann fíngr og smá:
með listum plokkaði hann lokur í frá.

27.

Kristín kastaði kodda blá:
„úngi riddari, sittu þar á!"

28.

„Kóngrinn sendi boð með mèr:
hann bað þig að koma og vera hjá sèr.

29.

Hann bað þig skyndilega að fara,
ef þú vildir við sig lifandi tala.

30.

Hann hefir fengið eitt hættlegt sár:
hann hefir barizt við Vintr-kóng í ár."

31.

Kristín setti sèr kistil í hnè:
hún býtti sínum skemmumeyjum gull og fè.

32.

„Gjörið þið vel við börnin mín!
þau sjá aldrei móður sín.

33.

Einkanlega við hana Katrínu mey!
hvort eg hennar móðir lifi eðr dey."

34.

Kristín settist á hvítan hest:
allra kvenna reið hún mest.

35.

Kristín axlar sín skallats skinn:
so gekk hún fyrir kónginn inn.

36.

Hægra fæti í höllina stè:
„sittu heill, kóngr! og hvað villtu mèr?"

37.

„Heyrðu það, Kristín, systir mín:
býttu beltum við bróður þín!"

38.

„Eg er ei so beltisprúð:
en þitt er vafið í silkissnúð."

39.

„Heyrðu það, Kristín, systir mín:
blandaðu með mèr bjór og vín!"

40.

„Eg er so úng, og eg það ei kann:
að blanda vín fyrir margan mann."

41.

„Heyr það, Kristín, systir mín!
því fer mjólk úr brjóstum þín?"

42.

„Það er ei mjólk, og það er ei vín:
heldur treginn frá hjarta mín."

43.

„Því er það treginn frá brjósti þín?" —
„að eg skildi so skjótt við skemmumeyjar mín."

44.

Hann fór um hana með höndum eptir sinni vild:
hún var so mjó sem önnur síld.

45.

„Hættu þig, Soffía! því þú skalt dey:
því þú hefir logið á svein og mey."

46.

„Heyrðu það, Valdemar, kóngur minn:
reyndu betr Kristínu, systur þín!"

47.

Hann tók hana undir sín skinn:
dansaði hann með hana út og inn.

48.

Dönsuðu þau so dagana þrjá:
öngva mæði á henni sá.

49.

Dönsuðu þau so dagana fimm:
þá rann blóð um safala-skinn.

50.

Það varð kónginum mest að harm:
dauð lá hún Kristín á hans arm.

51.

„Það skal eg, Soffía! launa þèr:
þú skalt aldrei í sænginni sofa hjá mèr."

52.

Vendi eg mínu kvæði í kross:
— Þann blíða —
guð á himnum veri með oss!
— vær skulum til hófa ríða.

## C.

(Arnam. 151, d, 13.)

1.

Valdimar og Burtleifr, systrúngar tveir,
— Þann blíða —
í leiðángr vildu halda báðir þeir.
— vær skulum til hófa ríða.

2.

Burtleifr lagðist í sótt svo stinn:
fyrir það fèkk hann viljann sinn.

3.

Valdimar spurði bróður sinn:
„batnar þèr ekki sóttar þín?"

4.

„Mèr er ekki betra en mèr var í gær:
sigldu í leiðángur, Valdimar!

5.

Valdimar siglir í leiðángr í ár:
upp stóð hann Burtleifr, gjörðist maður hnár.

6.

Burtleifr lagði sína lokka í krans:
gekk hann þángað, sem meyjar slógu dans.

7.

„Heyrðu það, Katrín, systir mín!
þú skalt gá í dans með mèr."

8.

Burtleifr klappar í sæng hjá sèr:
„Katrín systir, sof hjá mèr!"

## 57.

# Þiðriks kvæði konúngs.

Kongedatteren står i abbildgård, da ungersvenden kommer gående. Hvad vil du her? siger hun. Jeg går mit eget ærinde, svarer han. Du går da ikke i bejletanker, siger hun, husk på, du er ene og venneløs her. Det behøver du ikke at minde mig om, svarer svenden, men hvor fornem du end er, tör jeg dog vel møde dig. Ja, får min fader det at vide, siger møen, da er det ude med dig. Min kærlighed er mig dyrbarere end mit liv, svarer ungersvenden, og jeg vil og må vinde din igen.

Nogen tid efter spör kongen sin datter: hvi er din kjortel bleven så kort? Jeg gik mig i lund, svarer hun, og det var så hedt; så lod jeg mine terner korte min kjortel med saksen. Ikke er dette dine terners værk, siger kongen, men snarere er det kong Diderik gerning. Birger (så kaldes kongen) sætter da skib i sø og farer did, hvor kong Diderik er, kæmper med ham i tre dage og lader livet i kampen.

---

(Arnam. 153, a, 6.)

Viðrinn vex, en völlrinn grór
í lundi,
harpan er mín hugarbót,
við skulum mæla með okkur mót,
munu þá hittast fundir;
Jómfrúin gleður menn allar stundir.

1.

Eg sá standa í borgartúni
eina frú,
hún er ekki á fréttum sein:
„og hvað viltú?“
Jómfrúin gleður menn allar stundir.

2.

„Eg fer minna erindanna“,
sagði sveinn.
„Falaðu ekki stúlkurnar!
því þú fer einn.“

3.

„Þú þarft ekki að minna mig
á málin slík:
eg skal finna þig, falda brík!
þó þú sért rík.“

4.

„Talaðu ekki þvílík undur!“
sagði frú:
„faðir minn sviptir lífi þig,
ef fréttir nú.“

5.

„Þó eg láti líf og önd
fyrir elsku þín,
eg skal mig í samri stund
í sæng til þín.“

6.

Kóngrinn spurði litlu síðar
dóttur sín:
„því er svo orðinn lágr og stuttur
möttull þinn?“

7.

„Eg sat undir eikinni,
mèr varð heitt:
mínar þernur tóku söxin
og skáru breitt.“

8.

„Þínar þernur kunna ekki
að skera serk:
heldur er það Þiðriks kóngsins
handaverk.“

9.

Birgir setti bátinn fram
á hlunna mar:
sigldi hann svo til landanna,
sem Þiðrik var.

10.

Börðust þeir svo dagana þrjá
á grænni grund:
þá misti kóngur lífið sitt
á Þiðriks fund.
Jómfrúin gleður mennu allar stundir.

---

*Omkvædets stamme. L. 4.* við . . . mót *gentages i hdskr. L. 5.* munu, *hdskr.*: mana.

## 58.

# Klerksins kvæði.

Der er en klerk i pavens borg,
han er en höjbåren herre:
han haver faret vide om land
og vundet stor pris og ære.

Han kommer i fremmed land til en konges datter, bydes til hendes bord og fatter elskov til hende. Ved nattetid går han til hendes bur og udtaler sin kærlighed. Hun beder ham skynde sig derfra: hendes fader kommer did hver nat, og hans liv er da i fare. Men han svarer med at ønske sig og hende til sit fødeland: der skal al deres sorg slukkes.

Kongen kommer årle til buret at vække sin datter; men modtager der af munke og møer budskabet om, at datteren er borte: hun er da römt af land med den romerske klerk. Kongen sender da breve og bud ud over alt Serkland (Afrika) at de to flygtninge skulle gribes og brændes på bål. — Hermed afbrydes den eneste opskrift vi have af denne vise, der da vistnok fattes slutningen.

---

(Arnam. 153, a, 7.)

1.

Sá er einn klerkr í páfans borg,
er prýddur veraldar skrauti:
hann hefir víða farið um lönd
og unnið stórar þrautir.

2.

Það var klerksins óðalag,
að sigla á millum landa:
hann fann eina fylkis dóttur
og frètti allt hið sanna.

3.

Hún bauð klerkinum undir sín borð
að eta og að drekka:
gjörla kennir hann frúinnar orð
og hrindir sút og ekka.

4.

Hann sá eina háfa höll
ljóst með kertum brenna:
hann leit upp í frúinnar sæng,
lèk honum hugr til hennar.

5.

„Hættu þig, hættu þig, úngur riddari!
forðaðu þínu lífi!
hèr kemur minn faðir hverja nótt
og veit hvað um mig líður.“

6.

Hann leit á sitt liljublað,
talar hann þessum orðum:
„á því landi vildi eg vera,
sem eg var fæddur forðum.

7.

Á því landi vildi eg vera,
sem mínum ekka hrindi:
þángað mínar sorgir sendi,
enginn mann þær fyndi.“

8.

Kóngrinn sig til skemmu gekk
með sitt gjörvallt mengi:
„stand[ið] upp, hin ríka frú!
þèr hafið sofið oflengi.“

9.

Anza honum allir í senn,
múnkar og so meyjar:
„burt er horfin yðar ríka dóttir,
þèr megið eptir þreyja.“

10.

Kóngrinn sendir sterkleg brèf
út í Serkja veldi:
þau skulu dapran dauðann fá
og brenna á björtum eldi.

---

## 59.

## Systkina kvæði.

Jomfruen gik til brønd at blege lærred og lin; der kom en ridder ridende: han bød hende alt sit guld, om hun vilde love ham. Hvad skal jeg svare min moder, siger møen, når hun ser mig bære det guld? Ridderen svarer: sig, du har fundet det i lunde. Da siger møen:

Sid du neder og tal med mig!
alle mine sorger siger jeg for dig.

Jeg blev fød der hanen gol,
min moder døde, der oprandt sol.

Der de lagde min moder i muld,
da ringed de for min faders sjæl.

Da genkender ridderen hende, som sin søster og udbryder:

Ikke för jeg det vidste
at du varst min søster.

---

Fuldstændigere haves denne vise på **dansk** hos Syv, nr. 70; Abr., nr. 202; **svensk** i fire opskrifter hos Afzel., nr. 8 og II, s. 207; Arwidss, nr. 126,

---

## A.

(**a**: Giss. Sv., 41. **b**: Brit. mus. 174., 42. **c**: kgl. fol., 39. **d**: G. Ív., 39).

Skipin liggja hèr við sand,
þar er á fjöldi kalla;
dagur fagur prýðir veröld alla.

1.

Jómfrú gekk til brunna,
— þar er á fjöldi karla —
hún bleikir sinn hvítan tvinna.
— dagur fagur prýðir veröld alla.

2.

Bleikti hún sinn hinn hvíta fald,
þar kom riddari ríðandi í garð.

3.

„Allt mitt rauða gull gef eg þèr.
ef þú vilt, frúin! lofast mèr.“

4.

„Hvað skal eg minni móðurinni segja,
ef hún sèr mig rauða gull bera?“

5.

„Segðu, þú hafir fundið
undir einum lundi!“

6.

„Seztu niður hjá mèr!
eg skal segja þèr sorgir.

7.

Eg var fædd þegar haninn gól,
mín móðir dó þegar upp kom sól.

8.

Þá mín var móðir moldu hulin,
þá var hríngt til föðurs sálar.“

9.

„Eg það ekki vissi,
— þar er á fjöldi karla —
að þú varst mín systir.“
— dagur fagur prýðir veröld alla.

---

## B.

(Jón Ól. Grv. Lex. isl. v. fagr).

Dimmt er í heiminum drottinn minn,
deginum tekr að halla;
dagur fagur prýðir veröld alla.

---

*Overskrift.* **B**: Incipit cantilena qvædam.
**A**, *v. 2, l. 1.* hinn hvíta fald, **cd**: hvíta hadd. *L. 2.* kom riddari, **cd**: komu riddarar.
— *v. 5, l. 1.* **cd** *indskyde* það *foran* fundið.
— *v. 6. l. 1.* **cd** *indskyde* þá *foran* hjá.
— *v. 7. l. 1.* fædd, **b**: fæddur. *L. 2.* mín móðir, **b**: móðir, **cd**: móðir mín.
— *v. 8, l. 1.* var móðir, **d**: móðir var.
— *v. 9.* **cd**: Eg það aldrei vissi fyrr, — nú vill aukast nauða styr.

---

# 60.

# Ásu kvæði.

1.
Åse gik ad stræde;
— Skrid vel skib —
fagert hørte hun kvæde.
— ved Sikelø;
fagre tjælde sloge de under Samsø.

2.
Åse ind i huset så,
fangen træl der bunden lå.

3.
„Velkommen, Åse lille hid!
du est kommen at løse mig.“

4.
„Ikke da tör jeg løse dig
jeg véd ikke, om du sviger mig.“

5.

„Så hjælpe mig Krist hin rige:
ingen skal anden svige!“

6.

Løste hun lænker, løste hun bånd,
løste hun både fod og hånd.

7.

„Faret har jeg om lande ni:
sveget har jeg de møer ti.

8.

Nu skal du være den ellevt' i tal:
aldrig jeg dig slippe skal.“

Hermed er visen ude i **ABC**; men **DEFIK** fortsætte:

9.

„Bid du mig kun en liden stund,
medens jeg går i grönne lund.“

10.

Bied han der en stund så lang,
aldrig kom hun hannem til hand.

11.

Satte hun sig til hviden hest,
af alle kvinder red hun best.

---

I denne visestump genkende vi en af de mest udbredte folkeviser, der i langt fuldstændigere former forekommer:

**dansk**: i en række af opskrifter, der alle ere trykte i Danm. gamle folkev. nr. 183 og én i S. Grundtvigs Engelske og skotske folkeviser, s. 233;

**norsk**: hos Landstad, nr. 69 og 70;

**svensk**: hos Afzel., nr. 82 og 83; Arwidss., nr. 44;

**engelsk**: Herd, I, s. 93; Sharpe's Ballad Book, nr. 17; Motherwell, s. 67; Sheldon, nr. 194; The Borderer's Table Book, VII, s. 367; Buchan, I, s. 22; II, s. 45 og 201; Eng. og sk. folkev., nr. 35, 36 og 37; jfr. Motherwell's Introduction, s. LXX; Jamieson's Illustr. of North. Antiq., s. 348.

**nederlandsk**: Mone's Anzeiger, V, sp. 448; Uhland, nr. 74 D; Horæ Belgicæ, II, s. 162 (2den udg., nr. 9 og 10); Willems, nr. 49 og 72; Eng. og sk. folkev. s. 239;

**tysk**: Uhland, nr. 74; Meinert, s. 61 og 66; Herder, I, s. 79; Hoffmann's Schles, Volksl., nr. 12 og 13; Wunderhorn, I, s. 37; II, s. 274; IV, s. 101 og 301; Erk, I, 6, nr. 56; II, 3, nr. 13 og 14; Rochholz, s. 24; Simrock, nr. 6 og 7 (jfr. 8); Gräter's Idunna f. 1812, nr. 35; Erlach, II, s. 120; III, s. 450; IV, s. 216 og 598; Niulais Fegner, Almanach, II, s. 10; Kretschmer, nr. 72 og 92; Zuccalmaglio, nr. 95.

**italiensk**: fra Alessandria, i Canti populari, raccolti da Oreste Marcoaldi, Genova 1855, s. 166; oversat på tysk i Literaturblatt des deutschen Kunstblattes, Decemb. 1858, s. 144;

**vendisk**: Haupt og Schmaler, I, nr. 1;

**servisk**: i tysk oversættels hos Talvj, II, s. 74;

**estnisk**: Neus, nr. 2;

**finsk**: Schröter's Finnische Runen, s. 115.

**bretonsk**: Villemarqué's Barzas-Breiz, 4de udg. I, s. 305; på tysk hos Keller og Seckendorff, nr. 13.

---

**A(BC).**

(**A**, **a**: Giss. Sv., 44. **b**: kgl. fol., 41. **c**: G. Ív., 41. **d**: Brit. mus. 174., 44. **e**: Arnam. 153, e, 64 [kun 1ste vers]. **B**: Arnam. 151, d, 5. **C**: Arch, K. 2.)

1.

Ása gekk um stræti:
— Far vel fley —
heyrði hún fögur læti.
- við Sikiley;
fögrum tjöldum slógu þeir undir Sámsey.

2.

Ása gekk í húsið inn:
hún sá þrælinn bundinn.

3.

„Ása litla, leystu mig!
eg skal ekki svíkja þig.“

4.

„Eg þori ekki að leysa þig:
eg veit ei, nema þú svíkir mig.“

5.

„Viti það kóngrinn ríki:
hvorki annað svíki!“

6.

Leysti hún bönd af hans hönd,
og svo fjötur af hans fót.

7.

„Níu hef eg farið lönd:
tíu hef eg svikið sprund.

8.

Nú ertú hin ellefta:
— Far vel fley —

þèr skal eg aldrei sleppa.“
— við Sikiley;
fögrum tjöldum slógu þeir undir Sámsey.

---

## D(EFGHIKLM).

(**D**: Arch. O, 1. **E**: J. Steph., 13. **F**: Arch D, 5. **G**: Arch. B, 6. **H**: Arch. F. 22 [kun 1ste vers]. **I**: Berggreen, I. 85 (2den udg.). **K**: Ól. Davíðss. **L**: Gísli Konráðss., 15. **M**: Gísli Konráðss. 16).

1.

Asa gekk um stræti:
— Far vel fley —
heyrði hún fögur læti.
— við Sikiley;
fögrum tjöldum slógu þau undir Sámsey.

2.

Ása gekk í húsið inn:
sá hún mann einn bundinn.

3.

„Heil og sæl, Ása mín!
nú ertu komin að leysa mig.“

4.

„Eg þori ekki að leysa þig:
eg veit ei, nema þú svíkir mig.“

5.

„Veit það sá hinn ríki,
að hvorugt annað svíki.“

6.

Leysti hún bönd af hans höndum,
og fjötur af hans fótum.

7

„Níu hefi eg farið lönd,
en tíu hefi eg svikið sprund.

8.

Nú ert þú hin ellefta:
þèr skal eg aldrei sleppa.“

9.

„Bíðtu mín svo litla stund,
meðan eg geng í grænan lund!“

10.

Hann beið hennar lánga stund:
en aldrei kom hún á hans fund.

11.

Ása tók sinn hvíta hest:
allra kvenna reið hún mest.

12.

Ása gekk í helgan stein,
— Far vel fley —
aldrei gerði hún manni mein.
— við Sikiley;
fögrum tjöldum slógu þau undir Sámsey.

---

*Overskrift.* **AadB**: Ásu kvæði; **Abc**: Kvæði af Ásu.
**A**, *v. 1, l. 2.* heyrði hún fögur, **d**: fögur heyrði hún.
— *v. 2, l. 1.* í húsið inn, **B**: í lundinn; **C**: um grundu. *L. 2.* hún sá, **C**: sá hún; **B**: hún fann.
— *v. 3.* **B**: Vel þú komin, Ása mey! — þú munt ætla að leysa mig. **C**: Hèr ertu komin, Ása mín! — þú ert komin að leysa mig.
— *v. 4, l. 2.* nema, **Abcd**: utan.
— *v. 5, l. 1.* kóngrinn, **AbcB**; **Aad**: kóngr í; **C**: sá hinn. *L. 2.* hvorki, **B**: hverigt; **AbcC**: að hvörugt.

**A.** *v. 6, l. 2. so fattes i* **C**. *L. 2.* fót, **C**: fótum.
— *v. 8, l. 1.* **C**: þú ert nú sú ellefta.
**B.** *Omkvæd: som i teksten sål. i* **DEFIKL**, *der alle have* þau *i sidste omkv. med undtagelse af* **L**, *der har* þeir *og optegneren af* **G** *kender dem også, når han siger:* Sumir hafa viðlagið: Far vel fley – fögrum tjöldum slógu þeir undir Sámsey. *Men visen synges nu også med tre barbariske omkvæd, der træde i de tre gamles sted;* **HM** *har alene dem, medens* **DFG** *have både dem og de ældre. I* **D** *stå de med den bemærkning:* Svona er viðkvæðið eptir Hljóða-Bjarna við þetta kvæði; *i* **F** *hedder det kun:* Aðrir hafa viðdragið svona, *og i* **M**: Brot af sama kvæði með öðru viðkvæði:

1) með kurt og pí, **DH**; með kurtóbí, **FM**; *i* **G** *gives bægge disse læsemåder.*

2) við Salófí, **DGM**; við Lelódí, **F**; við Salódí, **H**. (*der lader de to første omkvæd bytte plads*).

3) hægini hó, sýngini pump, kansilórum kantintórum pumpí, **D**; hæanna hó, sínganna pump, sekulórum konditórum pumpí, **F**; hæjanna [*el.*: hýanna] hó, sýngjanna pump [*el.*: bú], kansillórinn kantintórinn og pumpí [*el.*: kansillórum kantinórum filomela og pumpi], **G**; sýngjum pump kontidórum babilórum fim fè, **H**; hæjanna hó, hýanna hó, sýngjanna pumpí [*el.* pumpu] pumbú [*dette sidste dog kun én gang*], kansillórum kantintórum og pumpí [*el.*: kansellórum kantinórum filomel og pumpí], **M**.

**D.** *v. 2 fattes i* **L**. *L. 2.* sá [**GM**: hitti, **K**: fann] hún þrælinn bundinn **FGIK**.
— *v. 3, l. 2.* nú, *fattes i* **K**. *Dette vers lyder i* **L** (*v. 2*) *således:*

Velkomin Ása meyjarlig
(*el.*: Vel er Ása mey komin),
eg vænti þú ætlir að leysa mig.

— *v. 4, l. 1.* **FI**: Ekki þori eg að leysa þig; **GM**: Eg kann ekki að leysa þig. *L. 1.* ekki, **L**: ei.

**D**, *v. 4. Efter dette vers følger i* **M** *ett vers (v. 4) sålydende:*

Åsa tók að kalla hátt,
þá kom hennar faðirinn brátt.

— *v. 5.* **I**: það veit guð hinn ríki, — að eg þig ei svíki; **F**: Viti það sá hinn ríki *etc.* **M**: Viti það Pètur í ríki *etc.* **L**: Konúngurinn ríkinu í, — hann veit að eg svík þig ei.

— *v. 6, l. 1.* Leysti hún, **E**: Skar hún, **L**: Hún leysti. *L. 1.* höndum, **EFIML**: hönd. *L. 2.* og fjötur, **DE**: fjötur; **I** og fjöturinn; **L**: einnig fjötur. *L. 2.* fótum, **L**: fót.

— *v. 7, l. 1.* Níu, **E**: Um níu. *L. 1.* farið, **L**: kannað. *L. 1.* lönd, **IM**: um lönd. *L. 2.* en *fattes i* **EIML**.

— *v. 8.* **F**: Nú ertu búin að leysa mig, — aldrei skal eg sleppa þèr. *L. 1.* **EI**: þú ert mín [**IML**: sú] hin [*fattes i* **M**] ellefta.

— *v. 8, Efter dette vers følger i* **L** *(der er en blanding af* **A**- *og* **D**-*klassen) ett vers (v. 8), der lyder:*

Hún lèt binda hans hönd og fót,
einnig fjötur á hans fót.

— *v. 9, l. 1.* svo, **I**: hèr, **M**: um.

— *v. 9—10. Mellem dem har* **E** *(v. 10—11) en gentagelse af v. 4—5 sålydende:*

Eg þori ei að sleppa þèr,
eg veit ei nema þú svíkir mig.

það veit sá hinn ríki,
hvorugt annað svíki.

— *v. 10. Hertil svarer* **E** *12:*

Åsa gekk í grænan lund,
aldrei kom hún á þrælsins fund.

*L. 1.* lánga, **M**: svo lánga, **I**: litla. *L. 2.* en *fattes i* **FIM**. *L. 2.* hún, **M**: Åsa.

---

*Versefølgen ses af denne tavle.*

| | | | | | | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **ABC:** | 1 | 2 | 3 | 4 | . | 5 | 6 | 7 | 8 | . | . | . | . | . | . | . |
| **D:** | 1 | 2 | 3 | 4 | . | 5 | 6 | 7 | 8 | . | 9 | . | . | 10 | 11 | 12 |
| **E:*** | . | . | . | . | . | . | 6 | 7 | 8 | . | 9 | 10 | 11 | 12 | . | . |
| **F:** | 1 | 2 | 3 | 4 | . | 5 | 6 | . | 7 | . | 8 | . | . | 9 | . | . |
| **G:** | 1 | 2 | . | 3 | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . |
| **H:** | 1 | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . |
| **I:** | 1 | 2 | 3 | 4 | . | 5 | 6 | 7 | 8 | . | 9 | . | . | 10 | . | 11 |
| **K:** | 1 | 2 | 3 | 4 | . | 5 | 6 | 7 | 8 | . | 9 | . | . | 10 | . | . |
| **L:** | 1 | . | 2 | 3 | . | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 | . | . | . | . | . | . |
| **M:** | 1 | 2 | . | 3 | 4 | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . | . |

* *Ett blad med de fem første vers er udrevet af hdskr.*

# 61.

## Åsu dans.

Åse og Signe vare Gunnars døttre. Signe blev bortgiftet, men Åse bar end sit hovedguld. Da går hr. Peder, som véd, at Åse er ene i sit bur, did om nat, banker på og beder hende lade sig ind. Men Åse svarer:

Ingen da haver jeg stævne sat,
og ingen lader jeg her ind om nat.

Da plukker hr. Peder nagler og låse fra dören og går ind og i sæng til hende. Om morgenen giver han Åse en guldring med de ord: skulde du føde et barn, så sig dog ingen dets faders navn! Og dermed fór hr. Peder bort på sit skib. Tiden led, og det ord kom Gunnar for øre, at hans datter Åse fór ikke ene, men havde barn under hjærte. Han sender da bud efter hende. Længe tode hun fod og hånd, og længe kæmmed hun sit fagre hår, ti nødig gik hun for sin fader. Da hun kommer til ham, slår han hende under øre, så blodet flyder, og jager hende af gårde:

„Pak dig, pak dig, du hådingskvind!
og kom du aldrig i gårde min!

Pak dig, pak dig, du onde vætt'!
skændet haver du al din æt.“

Moderen god er barnet bedst:
hun gav Åse både sadel og hest.

Da siger Gunnar i spot:

Ikke skal Åse dog ene fare:
den blinde svend skal tage hende vare.

Den medgift under jeg hende vel:
den halte hund og den blinde træl.

Åse rider da af gård, først til sin gifte søster, der står ude og byder hende velkommen. Åse svarer:

Jeg skøtter ej om din klare vin,
men lån du mig stenstue din!

Da Signe heraf forstår hendes tilstand, forlanger hun Åses

fæstensring for at låne hende hus, og da Åse afslår dette, viser hun hende bort med de samme hådingsord, som faderen brugte. Åse rider da videre til sin fostermoders gård. Manden Torbjörn står ude og ser Åse komme; han kalder på sin hustru, Gyde, og siger hende det.

Gyde hun kaster sömme sin:
„Velkommen, Åse, datter min!

Velkommen, Åse, datter min!
gak du i loft og drik der vin!"

„Jeg skøtter ej om din klare vin,
men lån du mig stenstue din!"

Hende tilbyder Åse sin fæstensring i lön; men Gyde beder hende beholde den selv, og følger hende i loft, hvor hun samme nat føder en dreng. Ham lader hun kalde Magnus; hun siger ingen, hvem hans fader er, men han vokser op hos hende i Gydes og Torbjörns gård. Da drengen er fem (eller tolv) vintre gammel, møder han ude paa marken hr. Peder, som genkender moderens træk og spör om hans herkomst. Da han hører moderens navn, giver han sig til kende som drengens fader og følger med ham ind, hvor Gyde og Åse sidde. Han kysser dem begge og spör Åse, hvorfor han intet har hørt fra hende:

Hvi er du borte fra fader din?
mon du skulde gælde brøde min?

Så sender han bud efter Gunnar, og da denne kommer og har taget sæde hos ham, spör hr. Peder ham ad:

Hvi jog du af gårde datter din?
skulde hun vel gælde brøde min?

Så slår han Gunnar, så blodet rinder, og jager ham fra sig med de ord:

Selv er jeg på gods og guld så rig,
at aldrig skal Åse trænge til dig.

Pak dig, pak dig nu, niding led!
lad mig dig aldrig for öjne se!

Så fæster han Åse med guld og land og holder bryllup med hende*).

---

Denne vise genfindes på **dansk** i to opskrifter, Danm gl. folkeviser nr. 269.

---

**A.**

(**a**: kgl. fol.. 29. **b**: G. Ív., 29. **c**: Giss. Sv., 28. **d**: Brit. mus. 174, 32.)

1.

Gunnar á sèr dætur tvær:
— Sumarið mun líða —
Ása og Signý heita þær.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

2.

Signý manni gefin var,
en Ása gull á höfði bar.

---

*) *A, 85 siger vel at hr. Peder lod Gunnar hænge; men dette vers, (som genfindes i andre viser) er sikkert kun ved en fejltagelse løbet med ind her.*

3.

Herra Pètur frèttir það:
Ása ein í lopti var.

4.

Klappar á dyr með lófa sín:
„lúk upp, Ása, og láttu mig inn!“

5.

„Eg læt hèr engan inn um nátt:
eg hefi við engan stefnur átt.

6.

Eg læt hèr engan inn um sinn:
eg hefi engum stefnt hèr inn.“

7.

Fattar hefir hann fíngur og smá:
með listum plokkar hann lokur í frá.

8.

Ása kastar kodda blá:
„herra Pètur, hvíldu þar á!“

9.

„Lítt var eg þinn herra þá,
þú vildir ei láta lokur í frá.“

10.

Pètur kastar kodda blá:
„smásveinn minn, þú sit þar á.“

11.

Pètur sezt á sængurstokk,
drógu þeir af honum silkisokk.

12.

Pètur talar við sveina sín:
„berið hana Ásu í sæng til mín!“

13.

Lágu þau svo lánga nátt:
skröfuðu margt, en súngu fátt.

14.

„Ef þú kannt að eiga barn,
greindu aldrei föðursins nafn!

15.

Þó þú kunnir að eiga svein,
gjörðu aldrei á föðurnum grein!“

16.

Eptir þeirra morgunbíng,
gaf hann Ásu rauðan hríng.

17.

Pètur stè á bryggjusporð:
„farðu vel, Ása, og mundu mín orð!“

18.

Sá kom kvittur í Gunnars garð:
Ása ein fyrir sorgum varð.

19.

Gunnar talar við sveina sín:
„kallið á Ásu, dóttur mín!“

20.

Sveinar komu fyrir Ásu borð:
„faðir yðar sendi yður orð.“

21.

Lengi klæddi hún lítinn fót:
treg var hún á föður mót.

22.

Lengi þvoði hún litla hönd:
treg var hún á föður lönd.

23.

Lengi kembdi hún fagurt hár:
treg var hún á föður ráð.

24.

Axlar hún yfir sig safalaskinn,
svo gengur hún í höllina inn.

25.

Hægra fæti í höllina stè:
„sittu heill, faðir! og hvað viltu mèr?"

26.

Gunnar klappar á sæti hjá sèr:
„Ása litla, sittu hjá mèr!

27.

Því ertu föl og því ertu fá,
sem sú brúður með barni stár?"

28.

„Hvort eg er föl, og hvort eg er fá,
þèr liggur þar lítið á."

29.

Hann sló henni pústur á kinn:
„hafðu það fyrir viljann þinn!"

30.

Hann sló hana í annað sinn:
blóðið fèll um safalaskinn.

31.

„Burtu, burtu, hin vonda þá!
svo eg megi þig aldrei sjá.

32.

Burtu, burtu, hið vonda þý!
kom þú aldrei í minn bý!"

33.

Móðir góð er barni bezt:
hún gaf henni bæði söðul og hest.

34.

„Ása skal ekki fara ein:
henni skal fá einn blindan svein."

35.

Ása hægt í brjósti hló,
og spurði sveininn; „hvert skal nú?"

36.

Sveinninn henni svaraði bert:
„þar eru öll ráðin, sem þú ert."

37

„Við skulum ríða suður á hól:
þar býr fyrir mín systirin góð."

38.

Riðu þau holt, og riðu þau hraun,
fagrar lágu leiðir um.

39.

þegar þau komu suður á hól,
Signý úti í dyrum stóð.

40.

„Velkomin, Ása, systir mín!
gakk í búð og drekk hèr vín!"

41.

„Eg vil ei þitt skíra vín:
ljáðu mèr leyniloptin þín!"

42

„Eg ljæ þèr ei leyniloptin mín,
nema þú gefir mèr hrínginn þín."

43.
„Lítt man eg þá það ástarband:
aldrei kemur hann þèr á band.“

44.
„Burtu, burtu, hin vonda þá!
svo eg megi þig aldrei sjá.

45.
Burtu, burtu, hið vonda þý!
komdu aldrei í minn bý!“

46.
Ása stè á hvítan hest:
allra kvenna reið hún mest.

47.
Ása hægt í brjósti hló,
og spurði sveininn: „hvert skal nú?“

48.
Sveinninn henni svaraði bert:
„þar eru öll ráðin sem þú ert.“

49.
„Við skulum ríða suður á skóg:
þar býr fyrir mín fóstran góð.“

50.
Riðu þau bæði holt og hraun,
fagrar lágu leiðir um.

51.
þegar þau komu suður á skóg,
þorbjörn úti í dyrum stóð.

52.
þorbjörn kallar á Gyðu sín:
„komin er Ása, dóttir þín.“

53.
Gyða kastar saumum sín:
„velkomin, Ása, dóttir mín!

54.
Velkomin, Ása, dóttir mín!
gakk í búð og drekk hèr vín!“

55.
„Eg vil ei þitt skíra vín:
ljáðu mèr leyniloptin þín!“

56.
„Gjarnan, það er mèr svo skylt,
hvar í býnum sem þú vilt.“

57.
þegar að sól á fjöllum rauð,
Ása þoldi sára nauð.

58.
þegar sól á fjöllum skein,
Ása fæddi fríðan svein.

59.
Gyða spurði dóttur sín:
„hvað skal heita sonurinn þinn?“

60.
„Gefa skal honum fagurt nafn:
heiti hann Magnús merka-mann.“

61.
þá var sveinninn vintra þrè,
þegar hann stè fyrir móður knè.

62.
þá var sveinninn vintra fimm,
þegar hann gekk út og inn.

63.

þá var sveinninn vintra tólf,
þegar hann stè á hallargólf.

64.

Sveinninn úti í ökrum stóð,
þá herra Pètur að garði fór.

65.

„Hver á þig, enn úngi sveinn?
þú ert hèr úti á ökrum einn."

66.

„Ása heitir móðir mín,
dóttir Gunnars undir hlíð."

67.

„Heiti hún Ása móðir þín,
þá er eg sannur faðir þinn."

68.

Tekur hann sveininn undir sín skinn,
svo gengur hann í loptið inn.

69.

Kyssti hann Gyðu fyrir sinn munn,
Ása gaf sig færra um.

70.

Kyssti hann Ásu ástarkoss:
„því komstu eigi að fagna oss?

71.

því ertu í burt frá föður þín?
eða lèt Gunnar þig gjalda mín?"

72.

Enginn mann það af henni fèkk:
hver það átti, er hún með gekk.

73.

Pètur talar við sveina sín!
„kallið á Gunnar, hann komi til mín!“

74.

Sveinninn kom fyrir Gunnars borð:
„herra Pètur sendi yður orð.“

75.

Axlar hann yfir sig safalaskinn,
svo gengur hann í loptið inn.

76.

Pètur klappar í sæti hjá sèr:
„heyrðu það, Gunnar, sittu hjá mèr?

77.

því rakstu í burtu dóttur þín?
eða átti Ása að gjalda mín?“

78.

Hann sló honum pústur á kinn:
tárin fèllu á safalaskinn.

79.

Hann sló hann í annað sinn:
blóðið fèll um safalaskinn.

80.

Hann sló hann í þriðja sinn:
„hafðu það fyrir viljann þinn!

81.

Ása skal aldrei þurfa þín,
þó þú látir hana gjalda mín.

82.

Nóg á eg gull og nóg á eg fè:
ei þarf hún Ása að þiggja af þèr.

83.
Burtu, burtu, hinn vondi þá!
svo eg megi þig aldrei sjá.

84.
Skríðtu í burtu, hinn vondi þá!
komdu ei fyrir mín augun blá!“

85.
það var þeirra skilnaðar-fundur:
Gunnar hèkk sem annar hundur.

86.
Setur hann Ásu sèr í hnè:
festi hann frú og gaf henni fè.

87.
Setur hann Ásu sèr á hönd:
festi hann frú og gaf henni lönd.

88.
þar var bæði gleði og gaman:
— Sumarið mun líða —
herra Pètur og Ása gefin voru saman.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

---

B.

(a: cod. Holm., 9. b: Arnam. 153, e, 1 [kun 1ste vers].)

1.
Gunnar á sèr dætur tvær
— Sumarið man líða —
Ása og Signý hètu þær.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

2.

Signý manni gefin var,
Ása gull á höfði bar

3.

Ásu var fengið erlegt hús:
þángað var margur halur fús.

4.

Herra Pètur af fjalli fór:
sá hann hvar ein skemma stóð.

5.

Klappar á dyr með lófa sinn:
„ljúktu upp, Ása, lát mig inn!"

6.

„Eg læt hèr öngan inn um nátt:
hef eg hèr til þernu fátt."

7.

Fattar hafði hann fingur og smá:
með listum plokkar hann lokur í frá.

8.

Kastar hún til hans kodda blá:
„herra Pètur, sittu þar á."

9.

„Lítt var eg þinn herrann þá,
þú vildir ei láta lokur í frá."

10.

Setti hann sig á sængarstokk,
dró hann sjálfur af sèr sokk.

11.

Pètur skipar sveinum sín:
„berið Ásu í sæng til mín!"

12.

Lögðust þau í sæng um nátt,
skröfuðu margt, en súngu fátt.

13.

„Kunnir þú að eiga svein,
gjörðu aldrei á föðurnum grein!“

14.

Sá kom kvittur í Gunnars höll:
hún Ása væri ei einsömul öll.

15.

Gunnar skipar sveinum sín:
„kallið á Ásu, hún komi til mín!“

16.

Lengi þvoði hún lítið hár:
treg var hún Ása á föðurs ár.

17.

Lengi þvoði hún litla hönd:
treg var hún Ása á föðurs lönd.

18.

Hægra fæti í höllina stè:
„sitið heill, faðir! og hvað vilið mèr?“

19.

„Því ertu föl, og því ertu fár,
eins og brúðr með barni stár?“

20.

„Því er eg föl og því er eg fá:
eg stár optast bókum hjá.“

21.

„Því fer mjólk úr brjóstum þín,
eins sem brúðr með barni býr?“

22.

„Það er ei mjólk, og það er ei vín,
heldur er það af hjarta pín."

23.

Hann sló hana högg á kinn:
„hafðu það fyrir vilja þinn!"

24.

Hann sló hana í annað sinn:
blóðið fèll um kápuskinn.

25.

Hann sló hana í þriðja sinn:
blóðið fèll um stofu inn.

26.

„Burtu, burtu, hin vonda þrá!
eg vil þig hvorki heyra nè sjá.

27.

Ei skal hún Ása ríða ein:
fá skal henni blindan svein.

28.

Hafa skal hún í heimanmund
blindan svein og haltan hund."

28.

Ása talar við sveininn þá:
„hvert á löndin skulum við gá?"

30.

Sveinninn anzar henni so bert:
„þar eru öll ráð, sem þú ert."

31.

„Við skulum ríða okkur suðr á hól:
þar býr undir mín systirin góð."

32.

Þegar hún Ása að garði óð,
Signý úti dyrum stóð.

33.

„Velkomin, Ása, systir mín!
hèr er í blandi mjöðr og vín.“

34.

„Eg vil ei þinn mjöð nè vín:
ljáðu mèr leyndarloptin þín!“

35.

„Ljæ eg þèr lopt og læstan bíng,
ef þú gefur mèr góða gullhríng.“

36.

„Lítt man eg það ástarband:
hann kemur aldrei þèr á hand.“

37.

„Skríttu burt, hin vonda vætt!
þú skammar upp alla þína ætt.“

38.

Ása talar við sveininn þá:
„hvert á löndin skulu við gá?“

39.

Sveinninn anzar henni so bert:
„þar eru öll ráðin, sem þú ert.“

40.

„Við skulum ríða suður á skóg:
þar fyrir býr mín fóstra góð.“

41.

Þegar hún Ása að garði fór,
Þorbjörn úti dyrum stóð.

42.

Þorbjörn sagði Gyðu sín:
„komin er hún fóstur-dóttir þín."

43.

Gyða kastar sax og saum:
meira gaf hún að Ásu gaum.

44.

„Velkomin, Ása, fóstra mín!
hèr er í blandi mjöðr og vín."

45.

„Eg sinni ei um þinn mjöð nè vín:
ljá þú mèr leyndarloptin þín!

46.

Ljáðu mèr lopt og læstan bíng!
eg skal gefa þèr góða gullhríng!"

47.

„Ljæ eg þèr lopt og læstan bíng:
eigðu sjálf þinn trygða-hríng!"

48.

Þegar sól á fjöllum rauð,
hún Ása þoldi þúnga nauð.

49.

Þegar sól á fjöllum skein,
hún Ása fæddi fríðan svein.

50.

Lètu þær svein í lítið skrín,
báru hann so á millum sín.

51.

Þá var sveinninn vintra fimm,
þá hann stè í býinn inn.

52.
Herra Pètr af fjalli fór:
sèr hann hvar einn sveinninn stóð.

53.
„Hver á þig, hinn úngi sveinn?
þú ert hèr í ökrum einn.“

54.
„Ása heitir mín móðir blíð:
dóttir Gunnars undir hlíð.“

55.
„Ef hún Ása er móðir þín,
þá er eg sannur faðir þinn.“

56.
Hann tekur sveininn undir sín skinn,
gengur so í höllina inn.

57.
Kyssti hann Gyðu fyrir sinn munn:
Ása gjörir sèr minna um.

58.
Kyssti hann Ásu ástarkoss:
„því komstu ekki að fagna oss?

59.
því fórstu frá föður þín?
áttir þú að gjalda mín?“

60.
„því fór eg frá föður mín,
að eg átti að gjalda þín.“

61.
Pètur kallar á sveina sín:
„kallið á Gunnar, hann komi til mín.“

62.

Hægra fæti í höllina stè:
„sitið heill. Pètur, og hvað vilið mèr?“

63.

„Því lèztu burtu dóttur þín?
eða átti hún að gjalda mín?“

64.

„Ekki átti hún að gjalda þín:
heldur gjalda þráleiks sín.“

65.

Hann sló Gunnar högg á kinn:
blóðið fèll um söðla-skinn.

66.

Hann sló hann í annað sinn:
blóðið fèll um strætið inn.

67.

Hann sló hann í þriðja sinn:
„hafðu það fyrir dóttur þín!“

68.

Pètur setti Ásu sèr í knè,
gaf henni bæði gull og fè.

69.

Hann gaf henni koss á kinn:
„Ása skal ekki þurfa þín.“

70.

Pètur blandar mjöð og vín:
— Sumarið mun líða —
Ása faldar höfuðlín.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

## C.

(Arnam. 151, c.)

1.

Gunnar á sèr dætur tvær
— Sumarið mun líða —
Ása og Signý heita þær.
— þar var sleginn dans undir hlíða.

2.

Signý manni gefin var,
Ása gull á höfði bar.

3.

Klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp, Ása, og láttu mig inn!“

4.

„Eg læt hèr engan inn um nátt:
eg hef við engan stefnur átt.“

5.

Fattar hefir hann fingur og smár:
með listum plokkar hann lokurnar frá.

6.

Herra Pètr sezt á sængur-stokk,
sveinar drógu af honum skarlats-sokk.

7.

Herra Pètr talar við sveina sín:
„berið Ásu í sæng til mín!“

8.

Lágu þau svo lengi um nátt:
skröfuðu margt, en súngu fátt.

9.

Enn í þeirra morgunbíng,
gaf hann Ásu rauðan hring.

10.

„Ef þú kant að eiga svein,
gjörðu aldrei á föðurnum grein!

11.

Ef þú kant að eiga barn,
greindu aldrei föðursins nafn!“

12.

Herra Pètr stè á bryggjusporð:
„lifðu vel, Ása. mundu mín orð!“

13.

Þá kom kvittur í Gunnars garð:
Ása ein fyrir sorgum varð.

14.

Gunnar talar við sveina sín:
„kallið á Ásu, hún komi til mín!“

15.

Sveinar komu fyrir Ásu borð:
„yðar faðir sendi yður orð.

16.

Sendi yður orð og kveðju blíð:
bað yður koma á samri tíð.“

17.

Lengi klæddi hún litinn fót:
treg var hún á föður mót.

18.

Lengi þvoði hún litla hönd:
treg var hún á föður lönd.

19.

Lengi kembdi hún fagurt hár:
treg var hún á föður ráð.

20.

Hægra fæti í höllina stè:
„heill sèrtu, faðir! og hvað viltu mèr?“

21.

Gunnar kastar kodda blá:
„Ása litla, sittu þar á!

22.

Því ertu bleik, og því ertu blá;
eins og sú mær með barni stár?“

23.

„Þó eg sè bleik, og þó eg sè blá,
þar liggur þèr lítið á.

24.

Þess tjáir ekki að dylja:
riddarinn fèkk sinn vilja.“

25.

Hann gaf henni pústr á kinn:
„hafðu það fyrir viljann þinn!“

26.

Hann sló hana í annað sinn:
blóðið fèll um safala-skinn.

27.

„Skríttu í burt, hin vonda vætt!
þú skammar upp alla þína ætt.

28.

Skríttu í burt, hið vonda þý!
komdu aldrei í minn bý!“

29.

Móðir góð er barni bezt:
gaf henni bæði söðul og hest.

30.

„Ei skal Ása ríða ein:
það skal fá henni blindan svein."

31.

Ása hægt í brysti hló,
spurði hún sveininn: „hvert skal nú?"

32.

Sveinninn svarar henni bert:
„þar eru öll ráðin, sem þú ert."

33.

„Við skulum ríða suðr á hól:
þar býr fyrir mín systirin góð."

34.

Riðu þau holt, og riðu þau hraun,
slèttar lágu þar göturnar um.

35.

þegar þau komu suðr á hól,
Signý úti dyrum stóð.

36.

„Velkomin, Ása, systir mín!
hèr er í blandi mjöðr og vín."

37.

„Eg skeyti ekki um þitt skíra vín:
ljáðu mèr leynd í loptum þín!"

38.

„Leynd í lopti skaltu fá,
ef þú gefur mèr hrínginn blá."

39.

„Lítt man eg það ástarband:
kemur hann aldrei þèr á hand.“

40.

„Skríttu í burt, hin vonda vætt!
þú skammar upp alla þína ætt.

41.

Skríttu í burt, hið vonda þý!
komdu aldrei í minn bý!“

42.

Ása hægt í brysti hló,
spyr hún sveininn: „hvert skal nú?“

43.

Sveinninn svarar henni bert:
„þar eru öll ráðin, sem þú ert.“

44.

„Við skulum ríða suðr á skóg:
þar býr fyrir mín fóstran góð.“

45.

Þorbjörn úti í dyrum stóð,
Ása litla að garði fór.

46.

Þorbjörn inn til Gyðu sín:
„komin er Ása, fóstra þín.“

47.

Gyða kastar saxi og saum:
gefr hún meira að Ásu gaum.

48.

„Velkomin, Ása, dóttir mín!
hèr er í blandi mjöðr og vín.“

49.

„Eg skeyti ei um þitt skíra vín:
ljáðu mèr leynd í loptum þín!“

50.

Gyða svaraði allvel stilt:
„þar í býinn sem þú vilt.“

51.

Leiddi hún hann í það háfa lopt:
fáir höfðu komið þar opt.

52.

þegar sól á fjöllum rauf,
Ása þoldi sára nauð.

53.

þegar sól á fjöllum skein,
fæddi hún Ása fagran svein.

54.

þá var sveinninn vintra fimm,
þegar hann lèk sèr út og inn.

55.

Sveinninn útá akri stóð:
herra Pètr að garði fór.

56.

„Hver á þig, hinn úngi sveinn?
þú reikar so úti einn.“

57.

„Ása heitir móðir mín,
dóttir Gunnars undir hlíð.“

58.

„Sè hún Ása móðir þín,
þá er eg sannur faðirinn.“

59.

Tók hann sveininn undir sitt skinn:
bar hann so í loptið inn.

60.

Kyssti hann Gyðu fyrir sinn munn:
Ása gaf sig færra um.

61.

Kyssti hann Ásu ástarkoss:
„því komstu ekki á móti oss?

62.

Því fórstu í burt frá föður þín?
eða áttirðu að gjalda mín?“

63.

Herra Pètr kallar á sveina sín:
„kallið á hann Gunnar, að hann komi til mín!“

64.

Sveinar komu fyrir Gunnars borð:
„herra Pètur sendi yður orð.

65.

Sendi yður orð og kveðju blíð:
bað yður koma á samri tíð.“

66.

Gunnar talar við sveina sín:
„þið skuluð sækja hesta mín.

67.

Þið skuluð sækja gángvarann grá:
þar vil eg sjálfur sitja uppá.“

68.

Gunnar sezt á hvítan hest:
allra manna reið hann mest.

69.

Hægra fæti í loptið stè:
„heill sèrtu, Pètr! og hvað viltu mèr?“

70.

„því rakstu í burtu dóttur þín?
eða átti hún að gjalda mín?“

71.

„Enginn maðr það af henni fèkk,
hver það átti, sem hún með gekk.“

72.

Hann gaf honum púst á kinn:
„hafðu það fyrir dóttur þín!“

73.

Hann sló hann í annað sinn:
blóðið rann um safala-skinn.

74.

„Eigðu sjálfur gull og fèð!
hún Ása þarf þess ekki með.“

75.

Setti hann Ásu sèr í hnè:
hann gaf henni bæði gull og fè.

76.

Herra Pètur siglir út í land:
— Sumarið mun líða —
festir Ásu sèr við hand.
— þar var sleginn dans undir hlíða.

## D.

(J. Steph., 4.)

1.

Gunnar átti dætur tvær:
-- Sumarið mun líða —
Asa og Signý hètu þær.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

2.

Signý manni gefin var,
Ása gull á höfði bar.

3.

Pètur frètti suður um haf.
að Ása ein í lopti svaf.

4.

Pètur kallar á sveina sín:
„farið og söðlið hesta mín!

5.

Söðlið hann Bleik, og söðlið hann Brún!
eg ætla að ríða í Ásu tún.“

6.

Hann klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp fyrir mèr, Ása mín!“

7.

„Eg get ei látið lokur frá,
því mèr stár engin þerna hjá.“

8.

Fattar hafði hann fingur og smá:
með listum plokkar hann lokur frá.

9.

Pètur kallar á sveina sín:
„setið Ásu í sæng til mín!“

10.

Hvort þau töluðu mart eða fátt,
eina bjuggu þau sæng um nátt.

11.

Hann gaf henni rauðan gullhríng:
„hafðu það í morgunþíng!

12.

Ef þú kannt að eiga barn,
gefðu ekki föðurnum nafn!

13.

Ef þú kannt að eiga svein,
gjörðu ekki á föðurnum grein!“

14.

Pètur stè á bryggjufjel:
„sit heil, Ása, og mun mig vel!“

15.

Pètur stè á bryggjusporð:
„sit heil, Ása, og mun mín orð!“

16.

Þar kom kvittur í Gunnars garð:
hún Ása fyrir sorgum varð.

17.

Gunnar kallar á sveina sín:
„segið, hún Ása komi til mín!“

18.

Sveinninn kom fyrir Ásu borð:
„faðir yðar sendi yður orð.“

19.
Lengi þvoði hún lipran fót:
treg var hún á föður mót.

20.
Lengi þvoði hún lipra hönd:
treg var hún á föður fund.

21.
Lengi þvoði hún lipra kinn:
treg var hún fyrir föður sinn.

22.
Hægra fæti í höllina stè:
„sittu heill, faðir! hvað viltu mèr?“

23.
Gunnar kastar kodda blá:
„Ása litla, sit þar á!“

24.
„Eg vil ekki sitja þar á:
gullbúið sax þar undir lá.

25.
Gullbúið sax og gullbúinn kníf:
það má skaða mitt únga líf.“

26.
„Er það satt, sem mèr er sagt,
að þú hafir ást við riddara lagt?“

27.
„Ei er satt það þèr er sagt,
að eg hafi ást við riddara lagt.“

28.
„Hví ertu föl, og hví ertu fá,
eins og þær með barni gá?“

29.

„Ei er eg föl, og ei er eg fá:
ei mun eg með barni gá."

30.

Hann gaf henni högg á kinn:
„hafðu það fyrir viljann þinn!"

31.

Hann gaf henni pústra tólf,
svo blóðið rann um hallargólf.

32.

„Burt, ó burt, þitt pútuskinn!
kom þú aldrei híngað inn!

33.

Ei má hún Ása ríða ein:
fáið henni blindan svein!"

34.

Móðirin góð er barni bezt:
Ásu gaf hún söðul og hest.

35.

Ása spurði sveininn sinn:
„hvern veg skulum halda um sinn?"

36.

Sveinninn svarar Ásu bert:
„þar eru öll ráðin, sem þú ert."

37.

„Við skulum ferðast fram undir hól:
og fá hjá systur minni skjól."

38.

Signý úti í dyrunum var,
er Ásu þar að garði bar.

39.

„Velkomin, Ása, systir mín!
eg hefi blandað þèr bjór og vín.“

40.

„Eg vil ei þinn bjór og vín:
en ljá mèr leyndarloptin þín!“

41.

„Gefðu mèr þinn rauða gullhring,
ef eg skal ljá þèr læstan bing.“

42

„Lítt mynda eg þá ástarband:
hann kemur aldrei þèr í hand.“

43.

„Burt hèðan, burt, þú vonda vætt!
þú hefir skemmt upp þína ætt.“

44.

Ása spurði sveininn sinn:
„hvert skulum við halda um sinn?“

45.

Sveinninn svarar Ásu bert:
„þar eru öll ráðin, sem þú ert.“

46.

„Við skulum fara suður um skóg:
þar er fyrir mín fóstra góð.“

47.

Magni úti í dyrunum stóð,
þá Ása þar að garði fór.

48.

Magni finnur Gyðu sín:
„hèr kemur hún Ása, fóstra þín.“

49.

Gyða kastar skærum og saum:
meira gaf hún Ásu gaum.

50.

„Velkomin, Ása, dóttir mín!
eg hefi blandað þèr mjöð og vín.“

51.

„Eg vil ei þinn mjöð nè vín:
ljáðu mèr leyndarloptin þín!

52.

Eg skal gefa þèr rauðan hríng,
ef þú ljær mèr læstan bíng.“

53.

„Eg vil ei þinn rauða gullhríng,
en ljá skal eg þèr læstan bíng.“

54.

Þegar sól sat á fjöllum rauð,
þoldi hún Ása þúnga nauð.

55.

Þegar sól á fjöllin skein,
fæddi hún Ása fagran svein.

56.

„Sveini skal gefa göfugt nafn:
heiti Magnús, merki magn.“

57.

Þegar hann var vetra fimm,
þá gekk hann í höllina inn.

58.

Þegar hann var vetra tólf,
þá gekk hann um hallargólf.

59.

þar kom skip við saltan sand:
herra Pètur stè á land.

60.

Hann tók svein og horfði á:
„hví ber þú svo augun blá?

61.

Hver ertú, hinn fagri sveinn?
leikur þú hèr úti einn?“

62.

„Ása heitir móðir mín fríð,
dóttir Gunnars undir hlíð.“

63.

„Ef Ása heitir moðirin,
þá er eg sannur faðir þinn.“

64.

Hann tók síðan þann sveininn,
og leiddi hann í loptið inn.

65.

Hann kysti Gyðu fyrir sinn munn:
Ása gat sig færra um.

66.

Hann kysti Ásu ástarkoss:
„hví komtu ekki á móts við oss?“

67.

„því kom eg ekki fyrir þig,
að eg var slegin fyrir mig.“

68.

„því ertu frá föður þín?
áttir þú að gjalda mín.“

69.

„Ekki átti eg að gjalda þín,
heldur eigin vilja mín.“

70.

Pètur kallar á sveina sín:
„segið, hann Gunnar komi til mín!“

71.

þeir koma svo fyrir Gunnars borð:
„herra Pètur sendi yður orð.“

72.

Gunnar stè á hvítan hest:
hann reið allra manna bezt.

73.

Hægra fæti í höllina stè:
„heill sèrtu, Pètur! hvað viltu mèr?“

74.

„því hraktir þú dóttur þín?
átti hún að gjalda mín?“

75.

„Ekki átti hún að gjalda þín,
heldur eigin vilja sín.“

76.

Hann sló Gunnar högg á kinn:
„hafðu það fyrir viljann þinn!“

77.

Hann sló þá í annað sinn,
svo blóðið fèll um safala-skinn.

78.

Hann sló hann þá þústra tólf,
svo blóðið fèll um hallargólf.

79.

„Eigðu hana nú, Pètur minn!“
„Hafðu skömm fyrir!“ — sagði hinn.

80.

Hann setti sveininn sèr í hnè:
gaf honum bæði gull og fè.

81.

Hann festi Ásu sèr við hönd,
gaf henni bæði gull og lönd.

82.

Hvað í rekkju höfðust að,
— Sumarið mun líða —
hver á frjálst að hugsa um það.
— dettur niður dans undir hlíða.

---

E.

(Br. Jónss. s. 86—95.)

1.

Gunnar átti dætur tvær:
— Sumarið mun líða —
Ása og Signý hètu þær.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

2.

Signý gefin manni var,
hún fór út af garði þar.

3.

Herra Pètur að garði fór,
hann sá hvar var skemma stór.

4.

Klappar á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp fyrir mèr, Ása mín!“

5.

„Eg læt hèr ekki lokuna frá:
fyrst mèr var þerna engin hjá.“

6.

Mjúkar hefir hann fingur smá:
með listum lauk hann lokunni frá.

7.

Þau lágu þar af um lánga nátt:
töluðu margt, en súngu fátt.

8.

Eptir þenna morgunbíng,
Ásu gaf hann rauðan hríng.

9.

Eptir þenna morgundúr,
Ásu gaf hann löndin þrjú.

10.

„Láttu engan vita þitt mein,
þó þú elskir úngan svein.

11.

Láttu engan á þèr sjá,
þó þú berir þúnga þrá.“

12.

Gunnar sendi sveininn sinn:
„segðu Ásu að koma hèr inn!“

13.

Lengi kembir hún lítið hár:
treg er hún sinn föður að sjá.

14.
Lengi þvær hún litla kinn:
treg er hún í höllina inn.

15.
Lengi þvær hún litla hönd:
treg er hún á föðurs lönd.

16.
Lengi þvær hún lítinn fót:
treg er hún á föðurs mót.

17.
Hægri fæti í höllina stè:
„heill sèrtu, faðir! og hvað viltu mèr?"

18.
„Svo ertu blá, og svo ertu bleik,
sem þú sèrt fyrir brjósti veik."

19.
Hann sló hana högg á kinn:
„hafðu það fyrir trúskap þinn!"

20.
Hann sló hana í annað sinn,
svo blóðið rann um Ásu kinn.

21.
Móðirin kastar sessu blá:
„dóttir mín, Ása! sittu þar á.

22.
Snáfaðu burtu, skækjuskinn!
komdu ei fyrir mín augun inn.

23.
Einsýnan hest og einsýnan pilt:
farðu með hana hvert þú vilt."

24.

„Hvert skulu[m] við nú halda bert?“
„þar eru öll ráðin, sem þú ert.“

25.

„Við skulum halda út að hól:
þar býr fyrir mín systirin góð.“

26.

þegar þau komu út að hól,
hún Signý úti dyrunum stóð.

27.

„Velkomin, Ása, systir mín!
blandað hefi eg þèr mjöð og vín.“

28.

„Eg hirði ekki um þitt mjöð nè vín,
ljáðu mèr leyndarloptin þín!“

29.

„Eg skal ljá þèr læstan hríng,
ef lætur mig fá þinn rauða hríng.“

30.

„Lítt vinn eg það fyrir ástaband:
aldrei kemur hann þèr á hand!“

31.

„Snáfaðu burt, þín arma þrá!
komdu ei fyrir mín augun blá!“

32.

„Hvert skulum við nú halda bert?“
„þar er öll náðin, sem þú ert.“

33.

„Við skulum halda austr á skóg:
þar býr fyrir mín fóstran góð.“

34.

Þegar þau komu austr á skóg,
hann Þorbjörn úti dyrunum stóð.

35.

Þorbjörn kallar á Gyðu sín:
„komin er Ása, fóstra þín.“

36.

„Velkomin, Ása, fóstra mín!
blandað hefi eg þèr mjöð og vín.“

37.

„Eg hirði ekki um þitt mjöð nè vín,
ljáðu mèr leyndarloptin þín!“

38.

„Hvert af loptunum sem þú vilt,
hvíldu þar í svo hægt og stilt.“

39.

Hún leiðir hana í það hæga lopt,
þar hafa margir sofið opt.

40.

Þegar sól að viði fór,
hún Ása bar þá þúngan móð.

41.

Þegar sól á viði skein,
hún Ása fæddi fríðan svein.

42.

Svo ólu þær upp úngan svein,
það vissi ei nema hún Gyða ein.

43.

Þá ellefu vetra sveinninn var,
hann stóð útá ökrum þar.

44.

Herra Pètur að garði fór,
hann sá hvar var skemma stór.

45.

„Hver á þenna fríða svein?“
„Ása heitir móðir mín.“

46.

„Ef Ása heitir móðir þín,
þá er eg sannur faðir þinn.

47.

Söðli Blá og söðli Brún:
við skulum ríða í Gunnars tún.“

48.

Þegar þeir komu á Gunnars lóð,
hann Gunnar útí dyrunum stóð.

49.

„Hvar fyrir slóstu dóttur þín?“
„Eg sló hana fyrir svikin sín.“

50.

Hann sló Gunnar högg á kinn:
„hafðu það fyrir dóttur þín!“

51.

Hann sló hann í annað sinn,
svo blóðið rann um Gunnars kinn.

52.

Hann tók Ásu í sín knè,
— Sumarið mun líða —
hann gaf henni gull og fè.
— þá var sleginn dans undir hlíða.

---

## F.

(Gísli Konráðss., 14.)

1.

Gunnar átti dætur tvær:
— Sumarið mun líða —
Ása og Signý hètu þær.
— Þá var sleginn dansinn til hlíða.

2.

Signý manni gefin var,
Ása eptir ógipt var.

3.

Pètur frètti suðr um sjó:
Ása ein í skemmu bjó.

4.

Gekk svo inn á landið hann,
kom um nótt að Ásu rann.

5.

Klappaði á dyr með lófa sín:
„ljúktu upp, Ása, kæra mín!"

6.

„Ei lýk eg þèr lokunum frá:
seinna eg þess gjalda má."

7.

Fattar hefir hann fingur og smá:
með listum plokkar hann lokurnar frá.

8.

Ása kastar kodda á gólf:
„setist þar á sveinar tólf!"

9.

Ása kastar kodda blá:
herra Pètur sat þar á.

10.

Gisti hann um nætur þrjár,
svaf hjá honum snótin klár.

11.

Móður finnur Ása þá,
litum hennar brugðið sá,

12.

„því ertu svo bleik og blá,
eins og þú með barni stá.“

13.

„Ei er eg bleik, og ei er eg blá,
og því síður með barni stá.“

14.

Móðir gaf henni högg á kinn,
svo blóðið rann um safala-skinn.

15.

Gunnar gaf henni pústra tólf,
svo blóðið rann um hallargólf.

16.

Ása mælti þá við svein:
„hèðan vil eg flýja ein.

17.

Við skulum ríða norðr um slóð,
þar [er] fyrir mín systirin góð.“

18.

Signý útí dyrum beið,
þá Ása heim að garði reið.

19.
„Velkomin, Ása, systir mín!
þèr skal bera bjór og vín."

20.
„Ei vil eg þinn bjór og vín,
ljáðu mèr leyndarloptin þín!"

21.
„Burtu, burtu, vonda vætt!
þú skammar upp alla þína ætt."

22.
„Við skulum ríða suðr um slóð,
þar býr fyrir mín fóstran góð."

23.
Fóstran útí dyrum beið,
þá Ása heim að garði reið.

24.
„Velkomin, Ása, dóttir mín!
þèr skal bera bjór og vín."

25.
„Ei vil eg þinn bjór og vín,
ljáðu mèr leyndarloptin þín!"

26.
þegar sól á fjöllum skein,
Ása fæddi fagran svein.

27.
þá kom skip við rauðan sand,
herra Pètur stè á land.

28.
„því er hún Ása úr ríki þín?
átti hún að gjalda mín?"

29.
„Ekki átti hún að gjalda þín.
heldur vondra verka sín.“

30.
Börðust þeir um dagana þrjá,
að hvorugr vann þar annan á.

31.
„Eigðu hana, Pètur minn!“
— Sumarið mun líða —
„Hafðu skömm fyrir!“ — sagði hinn.
— Þá var sleginn dansinn til hlíða.

---

*Overskrift*: Ásu dans, **AdBaC; Aab**: Kvæði kallað Ásu dans; **E**: Ásu kvæði (vikivakakvæði); **F**: Kvæði frá Gunnarsdætrum.

**A.** **c** *består alene i en række antydninger af versenes begyndelser, således:*

| | |
|---|---|
| [1] Gunnar á sèr | [4] Klappar á dyr |
| [2] Signý manni | [5] Eg læt hèr |
| [3] Herra Pètur | [6] Eg læt hèr |

**c** *udelader v. 10, 46, 80, 81, 82, 83 og 85, men har to vers som fattes i* **abd**, *nemlig 1) mellem v. 77—78 ett, som begynder:* Enginn mann það, *altså Gunnars svar som i* **C**, *71; 2) i steden for v 80—83 ett, som begynder:* Hafðu öðrum börnum þín. *altså svarende til* **C**, *74;* **c** *har altså 83 i steden for 88; dens øvrige afvigelser fra* **abd** *ere disse: v. 20:* Sveinninn kom fyrir; *31:* Burt, í burt; *32:* Burtu, burt; *36:* Sveinninn svaraði: *42:* Eg ljæ þèr ekki; *43:* Lítt man eg það; *45:* Burt, í burt; *48:* Sveinninn svaraði; *50:* Riðu þau holt; *56:* Gjarnan, gjarnan; *64:* Sveinninn úti; *80:* Skríðtu í burt.

**A**, *v. 4, l. 2.* **b**: lúktu upp Ása og lát mig inn.
— *v 7, l. 1.* Fattar, **b**: fatta. *L. 2.* hann lokur, *fattes i* **b**.
— *v. 9, l. 1.* herra, **d**: herrann. *L. 2.* ei, **bd**; **a**: eigi *(ligeså i v. 41, 42 og 55).*
— *v. 17, l. 2.* farðu, **b**: far. *L. 2.* og, *fattes i* **d**.
— *v. 18, l. 1.* Sá, **d**: þá.
— *v 20, l. 1.* Sveinar, **d**: Sveinninn.
— *v. 25, l. 2.* og, *fattes i* **d**.
— *v. 26, l. 2.* sittu, **b**; **ad**: sit.
— *v. 28, l. 2.* **b**: þar liggur þèr lítið á.
— *v. 29, l. 1.* henni, **bd** *(og* **c**); **a**: hana.
— *v. 30, l. 1.* í, *fattes i* **d**.
— *v. 32, l. 1.* hið, *fattes i* **d**. *L 2.* kom þú, **d**: komdu.
— *v. 35, l. 2.* og, *fattes i* **bd**.
— *v. 36, l. 1.* henni svaraði, **d**: svaraði henni *(ligeså i v. 48).*
— *v. 43, l. 1.* þá, *fattes i* **d**.
— *v. 56, l. 2.* býnum, **d**: býinn.
— *v. 60, l. 2.* merka-, **b**: merkur, **d**: merkja.
— *v. 67, l. 2.* faðir, **d**: faðirinn.
— *v. 68, l. 2.* loptið, **d**: loptin *(ligeså i v. 75).*
— *v. 69, l. 2.* Ása, **b**: En Ása. *L. 2.* sig, **bd**; **a**: sèr.
— *v. 72, l. 2.* er, *fattes i* **d**.
— *v. 74, l. 2.* sendi, **bd**; **a**: sendir.
— *v. 79, l. 2.* um, **b**: á.
— *v. 81, l. 2.* látir, **bd**: lètir.
— *v. 84, l. 2.* augun, **bd**; **a**: augu.
— *v. 86, l. 2.* hann, *fattes i* **d**.
— *v. 87, l. 2.* hann, *fattes i* **bd**.

**B**. *Omkvæd 2: foran* dans *står ved sidste v. indskudt* ***ett:*** mikill.

**C**, *v. 23, l. 2. Hdskr. har i klammer vedföjet to afvigende læsemåder:* þar stár enginn þinn sveinninn á, *og:* þar á enginn þinn sveinninn á.
*v. 29, l. 1. Hdskr. har:* Móðnr . . . . . barnið.
*v. 73, l. 1.* hann, *hdskr.:* hana.

E. *Optegneren har til omkvædets sidste verslinje gjort følgende anmærkning:* máske: inntil hlýða, því undir hliðum á ekki við „líða“, nema „undir hlýða“ sè kíminyrði, sem líkast er, *og til v. 44, l. 2:* hefði eg trúað væri öðruvísi (t. a. m. hann kom þar sem sveinninn stóð), en Gunnhildur segist hafa lært það svona.

F, *v, 2, l. 2. Som variant anfører hdskr.:* Ása gull á höfði bar
*v. 12, l. 1.* og blá, *håndskr.:* á kinn.
*v. 14, l. 2.* safala-skinn, *håndskr.:* svala kinn.

---

## 62.

# Þorkels kvæði Þrándarsonar.

Torkil Trundesön lokker Adeluds, hr. Laves datter, og sover hos hende. Da dette kommer Torkils fader for øre, giver han ham, for at afbryde et forhold, hvoraf han venter tvist og drab, med bud og brev til kongen af Frisland: han skal fare did i følge med Esbern Snare. Efter i kirken at have taget afsked med Adeluds, sejler Torkil til Frisland og bringer kongen sin faders brev. Kongen læser brevet, river det itu og siger så: din fader er mig syv tønder guld skyldig, som han har forholdt mig af min fædrenearv; dem skal du nu stå mig inde for; og kongen byder da sine hirdmænd at lægge Torkil i lænker. Han værger sig mandelig, men bliver til sidst bunden og sat i fængslet med hele sit følge.

Imidlertid bejler Stig Jonssön til Adeluds. Hun siger først, at hun vil ikke have saa gammel en mand, og tilstår derpå sin kærlighed til Torkil, men hendes fader svarer, at Torkil er i sikker forvaring i Frisland, og hun må da tage Stig Jonssön. For at skjule, at hun ikke er mø, overtaler hun sin terne Kristine Jonsdatter til at gå i brudeseng for sig. Fjorten dage efter brylluppet kommer Torkil tilbage, ser Adeluds i kirken med konehue på og spör da, hvo der har vovet at tage hendes hovedguld. Han dræber i sin harme den svend, der svarer, at det var Stig Jonssön. Efter messen taler han med Adeluds og siger, at han vil dræbe hendes husbond; men Adeluds svarer, at gör han det, får han hende aldrig, og beder ham hellere at ægte en anden mø: Ingeborg Iversdatter på Hol. Da Torkil kommer hjem, og hans moder gör ham samme forslag, følger han det og ægter Ingeborg. Hun dør i sin første barselseng og få måneder efter falder Stig Jonssön i krigen. Torkil ægter da Adeluds og giver hendes terne sadel og hest og tre byggede gårde.

---

Saaledes alle tre opskrifter, kun at den sidste (C) lader det være hr. Lave, der skikker Torkil til Frisland med et brev, hvori han lover kongen et hundred mark guld for hvert år, han holder Torkil fangen.

**Dansk** haves visen med de samme navne i flere opskrifter, af hvilke en har været trykt mangfoldige gange, først som flyveblad (det ældste bekendte tryk er af 1635) og siden hos Syv, nr. 69 og hos Abr., nr. 200.

**Svensk:** Afzel., I, s. 86; Arwidss., nr. 36.

## A.

(a: Arnam. 153, f, 1. b: Arnam. 153, e, 2 [kun 1ste vers]).

1.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann ríðr sig undir ey:
lokkar hann únga Aðallist,
velborna mey.
Sefr hin ríka rós á hans armi.

2.

Lokkar hann únga Aðallist,
dóttur herra Loga:
hún lèt honum þau klæðin skera,
honum sómdi vel að bera.

3.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann sefr á systur barmi:
fullar lá hann vikur sjö
á stoltsjómfrúinnar armi.

4.

Enginn maðr það vissi,
og enginn maðr það sá:
nema sú ýngsta þjónustumey,
er stoltar-frúin á.

5.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
víða er manna getið:
að því spurði hans kæri faðir,
hvar hann hefði setið.

6.

„Eg hefi verið að veiða dýr
í herra Loga skóg:
hver þar kemur eptir mig,
sá fángar dýrin nóg.

7.

Eg hefi verið að blanda bjór
í herra Loga haga:
hver þar kemur eptir mig,
sá fángar góða daga.“

8.

„Þú hefir verið að veiða dýr
í herra Loga skóg:
þú veiðir þá hina fögru hind,
hún ber þig skjótt í róg.

9.

Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
þú mátt þig við því vara:
þú skalt þig til Fríslands fara
með Ásbirni snara.“

10.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann kann vel orðum venda:
„eg skal boðinn og búinn til,
hvert þèr vilið mig senda.“

11.

Það var einn so blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
Aðallist sig til kirkju gengr
með sælu móður sína.

12.

Úti í miðjum garðinum
axla þær sín skinn:
Aðallist sig til kirkju gengr
með höfuðgullin fimm.

13.

En svo rèð hún Aðallist
sinni móður að svara:
„hverir eru þeir sendimenn,
til Fríslands eiga að fara?“

14.

Svaraði frúin Gunnhildur,
hún brosti undir sín skinn:
„það er hann Þorkell Þrándarson,
bezti vinrinn þinn.“

15.

Aptur rèð hún Aðallist
sinni móður að svara:
„guð, sá öllu góðu ræðr,
gefi honum vel að fara!“

16.

Lesin var þar messan,
súngið var þar prím:
Þorkell fram með skörunum gengr,
kveður vinina sín.

17.

Þorkell fram með skörunum gengr,
kveður frúr og mey:
seinast sinn hinn bezta vin,
Aðallist undan ey.

18.

„Heyrðu það, sæla sæti mín!
felldu ei fyrir mig tár!
það skal okkar lukkan vera:
komi eg aptr í ár.“

19.

„Heyrðu það, þorkell þrándarson!
mart kann til að bera:
opt kemur sú lítil stund,
verðr að löngum trega.“

20.

Riddarinn stè á hvítan hest,
hyggst í burt að ríða,
hann tók í hennar hægri hönd:
„lifðu vel, unnustan fríða!“

21.

Níu vikur lágu þeir
í söltum sjá:
þeir tóku ekki seglin af
fyr en Fríslands kónginn sjá.

22.

þegar þeir komu í borgar-hlið,
axlar hann sín skinn:
so snúðuglega gengur hann
fyrir Fríslands kónginn inn.

23.

Leysti hann brèf af linda sèr
og lagði í kóngsins knè:
„það er á sannur boðskapur,
minn faðir sendi þèr.“

24.

Kóngurinn við brèfunum tók,
bráðlega leit hann á:
hafði hjá sèr búinn hníf
og skar þau í stykkin smá.

25.

„Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
hvað eg segi þèr:
fjórtán tunnur rauða-gulls
skyldugr er hann mèr.

26.

Hann hefir minni föðurleifð
haldið um lánga daga:
þú ert hans nú ýngsti son,
þá skalt því verða að svara."

27.

Kóngurinn kallar
á hermennina þrjá:
„takið hann Þorkel Þrándarson
og leggið fjötrinn á."

28.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
rykkti búnum knif:
hann stakk so fyrir þeirra brjóst,
að allir mistu líf.

29.

Mikið var að heyra
til Jórsala fram:
þeir tóku hann Þorkel Þrándarson
við átjánda mann.

30.

Þeir tóku hann Þorkel Þrándarson
við nítjánda svein:
fyr en hann kom í myrkvastofu,
vann hann þeim öllum mein.

31.

Af sumum hjó hann höndina,
af sumum hjó hann fót:
allir þeir á mót honum voru
biðu þess aldri bót.

32.

Tvennum eykur vísunum.
— hlýði þeir sem vilja!
heiman fór Stígur Jónsson
Aðallistar að biðja.

33.

[„Heyrðu það, minn kæri faðir!
segja vil eg þèr frá]:
það er hætt á úngum aldri
gamlan mann að fá.“

34.

„Heyrðu það, mín sæla dóttir!
segðu mèr satt í frá:
er sá annar öðlíngrinn,
sem þinn stár hugrinn á?“

35.

„Annar er sá öðlíngur,
minn stár hugrinn á:
það er hann Þorkell Þrándarson,
til Fríslands sigldi í ár.“

36.

„Heyrðu það, mín kæra dóttir!
löng eru þín mein:
hann situr sig á Fríslandi,
kemur aldri heim.“

37.

Frú var sett á brúðar-bekk
fyrir utan sinn allan vilja:
faðir og móðir gengu fyrir,
málann hennar að skilja.

38.

Tárin runnu af augunum,
vættu hvíta brá:
illa líkaði frú Gunnhildi,
hún það vatnið sá.

39.

„Því þegir þú ekki? vonda vætt!
þú kant þig ekki stilla:
segðu heldur mönnum til,
hvað þèr líkar illa!“

40.

„Heyrðu það, mín sæla móðir!
gefðu ei orðin sár!
annan daginn og þriðja
skulu við minnast á.“

41.

Það var síð aptan,
rökkur fèll á:
þá eiga brúðirnar
til sinnar sængur gá.

42.

„Heyrðu það, Kristín Jónsdóttir!
hvers eg beiði þig:
eina nótt eða allar tvær
liggðu mey fyrir mig!

43.

Eina nótt eða allar tvær
liggðu á riddarans arm!
mundi eg ei þess biðja þig,
ef vissirðu ei minn harm.“

44.

„Heyrðu það nú, Aðallist mín!
illt er synd að gjöra:
fyrir þig vilda eg kvenna helst
bera þann aldurs trega.“

45.

Það var eitt einn seint um kveld,
sleginn var villu viðr:
Aðallist stè af sængarstokk,
en þernan lagðist niðr.

46.

Þar leið ekki á milli,
nema hálfur mánuðr einn:
þá kom Þorkell Þrándarson
af Fríslandi heim.

47.

Það var einn so blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
Aðallist sig til kirkju gengr
með sælu móður sína.

48.

Útí miðjum garðinum
axla þær sín skinn:
Aðallist í kirkju gengr
með frúarfaldinn sinn.

49.

það er hann þorkell þrándarson,
spurði sveina sín:
„hver hefir fellt þau höfuðgull,
sem fyr bar unnustan mín?"

50.

það var einn smásveinn,
er honum rèð að svara:
„það var Stígur Jónsson,
það þorði vel að gjöra."

51.

það er hann þorkell þrándarson,
hann er sig maðrinn bráðr:
hann sló so til frúinnar sveins,
að heilinn fauk um rjáfr.

52.

Lesin var þar messan
súngið var þar prím:
þorkell fram með skörunum gengr,
heilsar vinum sín.

53.

þorkell fram með skörunum gengr,
heilsar frúm og mey:
seinast sínum bezta vin,
Aðallist undan ey.

54.

„Eg vil vega þann riddara,
er sefr á þínum armi:
svæfa hann á sútar karmi,
linna so okkar harmi."

55.

„Ef vegr [þú] hann Stíg Jónsson,
ei segi eg þar til já:
þó eg lifi hundrað ár,
aldri sef eg þèr í hjá.

56.

Heyrðu það, þorkell þrándarson!
hvað eg tala við þig:
Kristín litla Jónsdóttir
lá hún mey fyrir mig."

57.

„Gef eg henni söðul og hest
og búgarða þrjá:
minna gaf hann herra Stígr,
á frúinnar armi lá."

58.

„Heyrðu það, þorkell þrándarson!
þiggðu ráðin góð:
þeirrar máttu brúðar biðja,
dóttur Ívars á Hól."

59.

„þeirrar má eg brúðar biðja,
hún er sig so rík:
uggir mig það, Aðallist mín!
hún sè þèr ekki lík."

60.

[Heim reið þorkell þrándarson
með svo miklu veldi:
hvorki neytti hann matar nè öls
á því sama kveldi.

61.

Til orða tók hún móðir hans:
„því eruð þèr ókátir,
sem þèr hafið í sóttum legið
eða sterka frændur látið?“]

62.

„Ekki hef eg í sóttum legið,
nè sterka frændur látið:
kvinnan sú, sem Stígr hefir fest,
veldur mínum gráti.“

63.

„Heyrðu það, þorkell þrándarson!
þiggðu ráðin góð:
þeirrar máttu brúðar biðja,
dóttur Ívars á Hól.“

64.

Svaraði þorkell þrándarson,
— eg hirði ei, hver þess spyr:
„herra guð signi það heiðurs víf,
mèr kendi það ráðið fyr!“

65.

Ekki mátti hún Aðallist
í þeirra brullaupi vera:
það var eina morgunstund,
hún bar so sáran trega.

66.

Íngibjörg á Hóli
fæddi syni þrjá:
sjálfrar sinnar lífið
lagði hún ofan á.

67.

Þar leið ekki nema
mánuður frá:
Stígur sigldi í leiðángr
og andaðist þá.

68.

Svaraði hann Þorkell Þrándarson,
borðunum sló saman:
„herra guð signi þess riddarans sál!
helztil varð hann gamall.“

69.

Svaraði hann Þorkell Þrándarson,
ríðr sig undir ey:
„nú skal eg þeirrar ekkju biðja,
sem áður fèkk eg mey.“

70.

Byrlaðr var þar bjór,
borið var þar bland:
víða var í þeirra brullaup
boðið um allt land.

Sefr hin ríka rós á hans armi.

## B.

(a: kgl. fol., 170. b: G. Ív., 170.)

1.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
ríðr sig undir ey:
lokkar hann frúna Aðallist,
þá velbornu mey.
Fellur dögg á fagra eik í lundi.

2.

Lokkar hann frúna Aðallist,
dóttur herra Loga:
hún kann honum þau klæðin að skera,
honum sómir þau vel að bera.

3.

Hún kann honum þau klæðin að skera,
það er hans virðing full:
hver sá saumr, sem þar er á,
hann glóir með rauðagull.

4.

Það er hann Þorkell Þrándarson
með sárum sútar karmi:
fullar lá hann vikurnar sjö
á stolts-frúinnar armi.

5.

Enginn maðr það vissi,
og enginn maðr það sá,
nema hennar yngsti þjónustu-sveinn,
hann hèlt þar vakt upp á.

6.

Heyrði það Þorkell Þrándarson,
víða er manna getið:
að því spurði hans kæri faðir,
hvar hann hefði setið.

7.

„Eg hef verið að veiða dýr
í herra Loga skóg:
hver þar kemur eptir mig,
sá fángar dýrin nóg.

8.

Eg hef verið að blanda bjór
í herra Loga haga:
hver sem kemur eptir mig,
sá fángar góða daga.“

9.

„Hafirðu verið að veiða dýr
í herra Loga skóg:
þar er sú hind, sem þú hefr veiðt,
og þig ber fljótt í róg.

10.

Eg skal kenna þèr annað ráð
að veiða dýr í haga:
þú skalt þig til Fríslands
með Ásbirni hinum snara.

11.

Þú skalt þig til Fríslands,
brèfin mín að tjá:
segðu, kóngrinn komi til vor,
ef löndunum vili hann ná!“

12.

Það var einn svo blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
Aðallist sig til kirkju gengr
með sælu móður sína.

13.

Þegar þær koma í borgarhlið,
sveipa þær yfir sig skinn:
Aðallist sig með höfuðgull
gengr í kirkju inn.

14.

Þetta rèð hún Aðallist
við sína móður að tala:
„hverir eru þeir sendimenn
til Fríslands eiga að fara?“

15.

Þetta talar hún Gunnhildr,
hún brosir undir skinn:
„það er hann Þorkell Þrándarson,
bezti vinrinn þinn.“

16.

En svo rèð hún Aðallist
sinni móður að svara:
„sá guð, er allri veröldu ræðr,
gefi honum vel að fara!“

17.

Súngin var þar messan
og komið fram á tíð:
Þorkell sig með bekkjum gengr,
kveðr hann vinina sín.

18.

Þorkell sig með bekkjum gengr,
kveðr hann frúr og meyjar:
allra síðast sinn einka vin,
Aðallist undir eyju.

19.

„Heyrðu það, frúin Aðallist mín!
berðu ei nokkra þrá:
það mun okkur lukkan ljá,
að eg komist heim aptr í ár.“

20.

„Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
margt kann til að bera:
það skeðr á einum litlum tíma,
er um aldr verðr að trega.“

21.

Láu þeir í höfnunum,
sem hver mann mátti sjá:
lægðist segl á búnka niðr
Fríslands drengjum hjá.

22.

Þegar þeir komu í borgarhlið,
sveipa þeir yfir sig skinn:
svo gánga þeir hæversklega
fyrir Fríslands kónginn inn.

23.

Leysir hann brèf af belti sèr
og lagði í kóngsins knè:
„það er sá sanni boðskapr,
minn herrann sendi þèr.“

24.

Kóngrinn tekr við brèfunum
og vill ei líta á:
tekr hann sèr einn tygilkníf
og sker þau í stykki smá.

25.

Það var hann Þorkell Þrándarson,
hann var sig maðrinn bráðr:
„hvað er þess á brèfunum,
þèr vilið ei líta á þau?“

26.

„Hann hefr mína föðurleifð
sèr fyrir eiginn haga:
bræður hans og einka synir
skulu þar fyrir svara.“

27.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann rykkir búnum knífi:
„fyr skal allt Frísland í rauðum loga,
en eg týni lífi.“

28.

Tveir voru þar kóngsins sveinar,
þeir tóku í Þorkels hönd:
þeim setti hann odd í bríngu-bein,
svo báðir mistu önd.

29.

Mikill var þá hljómrinn
eptir staðnum fram:
þeir tóku hann Þorkel Þrándarson
með átjánda mann.

30.

Þeir tóku hann Þorkel Þrándarson
með nítjánda svein:
þeir komu honum aldri í myrkva-stofu,
hann vann þeim öllum mein.

31.

Af sumum hjó hann hendur,
af sumum hjó hann fót:
allir þeir, sem fyrir urðu,
biðu þess aldri bót.

32.

Tveimur víkur vísunum,
og nú skal skýra frá:
Stígur heitir Jónsson,
er frúinnar biður þá.

33.

„Heyrðu það, frúin Aðallist mín!
þú mátt ei svo lifa:
Stígur heitir Jónsson,
eg vil þig honum gefa.“

34.

„Heyrðu það, minn kæri faðir!
auktu mèr ei þá þrá:
það er svo illt á úngum aldri
gamlan mann að fá.“

35.

„Heyrðu það, mín kæra dóttir!
segðu mèr satt í frá:
hver er sá nú öðlíngs sonr,
þinn stár hugrinn á?“

36.

„Annan daginn og þriðja
skulum við minnast á,
um hann Þorkel Þrándarson,
er til Fríslands fór í ár."

37.

„Heyrðu það, mín kæra dóttir!
berðu ei fyrir hann þrá:
Þorkell sitr á Fríslandi.
þú munt hann aldri sjá."

38.

Svaraði hennar fóstrmóðir,
hún sat henni í hjá:
„láti þèr mína kæru bíða.
hvað hún fregna má!"

39.

Þetta talar hún Gunnhildr:
„þið megið þegja báðar;
þið eigið öngva kosti að kjósa,
og ekki ber yðr að ráða."

40.

Hún sló frúna Aðallist
á þá björtu brá:
illa þótti honum herra Stígi,
þegar hann tárin sá.

41.

Það var hann Stígr Jónsson,
hann vann sèr allt í hag:
fastnar hann frúna Aðallist
á þann sama dag.

42.

„Heyrðu það, Kristín Jónsdóttir!
hvers eg beiði þig:
eina nótt eðr allar tvær
liggðu mey fyrir mig!“

43.

„Heyrðu það, frúin Aðallist mín!
mikið er synd að gera:
fyrir þig vilda eg allra helzt
um minn aldr trega bera.“

44.

Það var einn svo blíðan dag,
fólk fór út á skóg:
svo gátu þær hörmum skipt,
að báðar höfðu nóg.

45.

Það var einn svo blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
Aðallist sig til kirkju gengr
með sæla móður sína.

46.

Þegar þær komu í borgarhlið,
sveipa þær yfir sig skinn:
Aðallist sig með frúarfald
gengr í kirkjuna inn.

47.

Aðallist sig fyrir altari gengr
og krýpur þar á knè:
það er hann Þorkell Þrándarson,
hann fær vel til hennar sèð.

48.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
með karska sveina sín:
„hver hefr fellt það höfuðgull,
er áðr bar kæra mín?“

49.

Svaraði hennar þjónustu-sveinn,
sem honum mundi bera:
„Stígur heitir Jónsson,
hann þorði það vel að gera.“

50.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann var sig maðrinn bráðr:
hann sló frúinnar þjónustu-svein,
svo heilinn fauk um rjáfr.

51.

„Heyrðu það, frúin Aðallist mín!
segðu mèr satt í frá:
var það ljúflegr vilinn þinn,
að þú varst gefin þá?“

52.

„Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
þú kannt þig vel að stilla:
fátt hefr mèr að óskum gengið,
en hótin við mig spilla.“

53.

„Þann skal eg með vopnum vega,
er sefr á þinn arm:
bindum við okkar blíðu og trú!
svo lokið sè þínum harm.“

54.

„Vegir þú hann herra Stíg,
eg gef þar ei til já:
þó þú lifir minn allan aldr,
skaltu mig aldri fá.

55.

Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
farðu að biðja þèr kvenna!
svæfum við okkar sáran harm!
en þó mun eg hans kenna.

56.

Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
þigg þú ráðin góð:
þeirrar máttu brúðar biðja,
dóttur Ívars á Hól.“

57.

„Þeirrar má eg brúðar biðja,
hún er sig nógu rík:
uggir mig það, Aðallist mín!
ekki sè hún þèr lík.“

58.

Þegar hann Þorkell Þrándarson
þetta mælti um það,
þá var hún Imba Ívarsdóttir
honum gefin í stað.

59.

Íngibjörg á Tindum
ól hún syni þrjá;
sjálfrar sinnar lífið
lagði hún ofan á.

60.

Þar leið ekki á milli,
utan um mánuði þrjá:
Stígur bjóst í leiðángr
og andaðist þá.

61.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann klappar lófum saman:
„herra guð signi þess riddara sál!
helzt til varð hann ofgamall.“

62.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann ríðr sig undir ey:
„nú skal eg þeirrar ekkju biðja,
er áður fékk eg mey.

63.

Kristínu gef eg söðul og hest
og búgarðana þrjá:
minna gaf hann herra Stígr,
og svaf hann henni hjá.“
·Fellur dögg á fagra eik í lundi.

C.

(J. Steph., 4.)

1.

Það er hann Þorkell Þrándarson,
hann siglir suðr undir ey:
lokkar hann frúna Aðallist,
velborna mey.
Þó kann vera, hann finni sína frúna.

2.

Lokkaði hann frúna Aðallist,
dóttur hans herra Loga:
hún kann honum klæðin skera,
sem kunna vel að duga.

3.

Þessu rèði hann Logi þá
honum Þorkeli að svara:
„Þú skalt suður til Fríslands reisa
með Ásbirni snara.“

4.

Svo rèð hann Þorkell Þrándarson
sínum orðum venda:
„eg skal boðinn og búinn til þess,
hvert þèr vilið mig senda.“

5.

Það var einn svo blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
hún Aðallist til kirkju ríðr
með kæru móður sína.

6.

Svo rèð hin únga Aðallist
sinni móður að svara:
„hverir eru þeir sendimenn,
til Fríslands eiga að fara?"

7.

En því svaraði hún Snjófríður
og brosti undir skinn:
„það er hann Þorkell Þrándarson,
bezti vinrinn þinn."

8.

Út var súngin messan öll,
lesið var þar prím;
Þorkell fram með skörunum gekk,
kveður vinina sín.

9.

Þorkell fram með skörum gekk,
kveður frúr og mey:
seinast sinn hinn bezta vin,
Aðallist undir ey.

10.

Hún dró skóinn á hans fót,
hrínginn á hans arm:
„hvar þú fer um heiminn allan,
ber eg fyrir þig harm."

11.

„Heyrðu það nú, Aðallist mín!
felldu ei fyrir mig tár:
það skal okkar gleðin vera,
að eg kem aptr í ár."

12.

Hann hratt sínum skipunum
af söltum sand:
það var hann Þorkell Þrándarson,
þá fyrstur stè á land.

13.

Þegar hann kom í garðsins hlið
axlaði hann yfir sig skinn:
svo snúðuglega gengur hann
fyrir Fríslands kónginn inn.

14.

Leysti hann brèf frá linda sèr
og lagði í kóngsins knè:
„hèr í er sá boðskapur,
er Logi lèt í tè.“

15.

Konúngur tók við brèfunum
og bráðlega lítur á:
líka skipti hann litunum
og lagði þau sèr hjá.

16.

Þorkell svara þessu vann
konúnginum þá:
„hvað er þess á brèfunum,
þèr vilið þau ei sjá?“

17.

„Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
segja vil eg það þèr:
hundrað merkur af rauðagulli
hvert ár býður hann mèr.

18.

Hundrað merkur af rauðagulli
hvert ár býður [hann] mèr,
ef þú gætir aldrei komið
fyrir augun á sèr."

19.

Þeir tóku hann Þorkel Þrándarson
við átjánda svein:
áður hann kom í myrkvastofu,
öllum vann hann mein.

20.

Af sumum hjó hann hendurnar,
af sumum hjó hann fót:
allir, sem á móti voru,
biðu þess aldrei bót.

21.

Hætti eg um hann um stund
— hlýði þeir sem vilja!—
þá kom hann Stígur Jónsson,
frú Aðallist til biðla.

22.

„Heyrðu það, minn kæri faðir!
segja vil eg þèr frá:
það er svo illt fyrir únga stúlku
gamlan mann að fá.

23.

Það er svo illt fyrir únga stúlku
gamlan mann að fá:
og lifa við hann sinn lángan aldur
bæði með sorg og þrá."

24.

„Heyrðu það, mín kæra dóttir!
segðu mèr þar frá:
er þar nokkur riddarinn,
sem veldur þinni þrá?“

25.

„Heyrðu það, minn kæri faðir!
segja vil eg þèr frá:
það er hann Þorkell Þrándarson,
sem Frísland sigldi á.“

26.

„Heyrðu það, hin arma jómfrú!
hygg af hörmum þeim:
hann Þorkell situr í Fríslandi
og kemur aldrei heim.“

27.

Aðallist sezt á brúðarbekk
utan allan vilja:
faðir og móðir fyrir gekk,
málann hennar að skilja.

28.

Einatt felldi hún tár á kinn
ofan á hvíta brá:
illa þótti honum herra Stíg
þegar hann tárin sá.

29.

„Heyrðu það, Kristín jómfrú:
hvers að eg bið þig:
eina nótt eða allar þrjár
sofðu mey fyrir mig!“

30.

„Heyrðu það nú, Aðallist mín!
illt er synd að fremja:
þó vil eg fyrir þig kvenna helzt
annað verra að hemja.“

31.

Þá leið ekki lengur en
hálf önnur vika ein:
þá kom Þorkell Þrándarson
frá Fríslandi heim.

32.

Það var einn svo blíðan dag,
— guð gefi oss góðan tíma! —
hún Aðallist til kirkju ríðr
með vondu móður sína.

33.

Út var súngin messan öll
lesin var þar prín:
Þorkell fram með skörunum gekk
og heilsar vinunum sín.

34.

Þorkell fram með skörunum gekk,
heilsar frúm og mey:
seinast sínum bezta vini
Aðallist undir ey.

35.

Að því búnu spurði Þorkell
sveinana sín:
„hver hefir fellt þau höfuðgull,
sem fyr bar kæran mín?“

36.

Þar var þá einn lítill sveinn,
þorði honum svara:
„það var hann Stígur Jónsson,
sem þetta þorði að gjöra."

37.

Það varð Þorkell Þrándarson,
hann varð reiðibráður:
lagði hann þá til Loga frúar:
„launlega er eg smáður.

38.

Heyrðu það, Stígur Jónsson!
þú ert svo frúnni kær:
fyrir löngu skyldi eg drepa þig,
en þú sefur henni svo nær."

39.

„Heyrðu það, Þorkell Þrándarson
sem eg segi þèr frá:
þó eg lifi minn lángan aldur,
líf mitt skaltu ei fá.

40.

Heyrðu það. Þorkell Þrándarson!
þiggðu ráðin góð:
Íngibjargar brúðar bið þú!
býr á Hól gullslóð."

41.

„Þeirrar skal eg brúðar biðja,
hún er nógu rík:
uggir mig það, Aðallist mey!
aldrei hún verði þèr lík."

42.

„Heyrðu það, Þorkell Þrándarson!
segi eg það við þig:
Kristín litla, jómfrú úng,
hún svaf mey fyrir mig.“

43.

„Eg gef henni söðul og hest
og búgarðana þrjá:
minna gefur hann herra Stígr,
er á hennar armi lá.“

44.

Þá var Þorkell Þrándarson
með sárum sorgar eldi:
hvorki kendi hann öls nè matar
á því sama kveldi.

45.

„Heyrðu það, minn kæri sonur!
segðu mèr þar frá:
er sú nokkur jómfrúin,
sem veldur þèr þrá?“

46.

„Heyrðu það, mín kæra móðir!
segi eg þèr frá:
konan, sem hann Stígur hefir,
veldur minni þrá.“

47.

„Heyrðu það, minn kæri sonur!
vendu þig þar frá:
það er svo illt að elska þá,
sem annar maður á.

48.

Heyrðu það, minn kæri sonur!
þiggðu ráðin góð:
þeirrar skaltu brúðar biðja,
brúðurinnar á Hól."

49.

En því svaraði hann Þorkell,
og horfði niður á láð:
„guð hann eigi það jómfrú-blóð,
er gaf mèr þetta ráð!"

50.

Það var hann Þorkell Þrándarson,
honum gekk allt í hag:
fastnaði hann frú Íngibjörgu
á sjálfan sunnudag.

51.

Það var hann Þorkell Þrándarson,
honum gekk allt að vilja:
en á því hinu þriðja ári
hlutu þau að skilja.

52.

Íngibjörg á tèðum ól
tíma syni þrjá:
sjálfrar sinnar lífið lagði
ljúf þar ofan á.

53.

Það var hann Þorkell Þrándarson,
hann lèk sèr að tafli:
hann þá heyrði tíðindin,
að komu tveir á hjalli.

54.

Talar hann Þorkell Þrándarson
svo við sveina tvo:
„hann Stígur sigldi í leiðángur
og andaðist svo.“

55.

En því svaraði hann Þorkell
og brosti undir skinn:
„þeirrar skal eg brúðar biðja,
er beið með meydóm sinn.“

56.

Það var hann Þorkell Þrándarson,
honum gekk allt í hag:
fastnaði hann frúna Aðallist
á sjálfan sunnudag.

57.

Var þá drukkið vín óspart
við þann gleðieim:
gaf hann öllum gullið bjart,
gæði og margs kyns seim.
Því nú hafði hann fundið sína frúna.

---

*Overskrift fattes overalt.*

**A**, *v. 33, l. 1—2. Skriveren har i hdskr. ladet plads åben til disse to linjer, der i teksten ere optagne efter* **C**, *22. Her fattes dog måske endnu ett helt vers forud =* **B**, *33; men det kan undværes og haves ej heller i* **C**.

**A**, *v. 60–61. Skriveren har her i hdskr. ladet plads åben ti ett vers, men her fattes åbenbart to, svarende til* **C**, *44 og 45, og deres form må her have været lig v. 6 og 7 i vor nr 28, hvorfra de derfor ere lånte til vor tekst med de nødvendige forandringer: af navnet i det første og af* stóra til sterka *i det andet vers.*

**B**, *v. 6, l. 1.* Heyrði, **b**: Heyrðu. L. 3. kæri faðir, **b**; **a**: kæra frú.

— *v. 7, l. 1.* veiða dýr, *begge hdskr.*: blanda bjór (*ligeså i v. 9*).

— *v. 12, l. 3.* Aðallist, **b**; **a**: að Allist (*ligeså i. v. 45*).

— *v. 13, l. 4.* **b**: í kirkjuna gengr inn.

— *v. 14, l. 2.* að, *fattes i* **b**.

— *v. 15, l. 3.* hann, **b**; *fattes i* **a**.

— *v. 16, l. 1.* rèð, **b**; **a**: rèði.

— *v. 19, l. 2.* nokkra, **b**: stóra.

— *v. 21, l. 3.* lægðist, **b**: lægði.

— *v. 23, l. 4.* herrann, **b**: herra.

— *v. 24, l. 4.* þau, *fattes i* **b**.

— *v. 27, l. 2.* rykkir, **b**: rykti.

— *v. 30, l. 4.* vann, **b**; **a**: var.

— *v. 31, l. 2.* af, **b**: en.

— *v. 32, l. 4.* er, **b**: og.

— *v. 34, l. 1.* minn kæri faðir, **b**; **a**: mín kæra frú.

— *v 37, l. 4.* sjá, **b**; **a**: fá.

— *v. 39, l. 4.* yðr, **b**: ykkr.

— *v. 44, l. 1.* blíðan, **b**; **a**: fríðan. *L. 2.* fór, **b**: fóru.

— *v. 47, l. 2.* á, *fattes i* **b**.

— *v. 50, l. 2.* sig, **b**: so. *L. 4.* fauk, **b**: braut.

— *v. 61, l. 4.* til, **b**: í.

**C**. *Omkvædet gentages ved vers 56 i følgende form:*

Nú hefir hann fundið sína frúna.

## 63.

# Gunnlaugs kvæði.

Gunløgs moder opmuntrer sin sön til at fæste sig en viv: kong Erik af Sverig har fem døttre, en af dem må han kunne få. Gunløg sejler til Ölvers-skær og går der i land op til kongeborgen. Kong Erik giver ham valget imellem sine fem døttre, og Gunløg hjemfører da en af dem til sin odelsgård.

---

(**a**: Giss. Sv., 14. **b**: kgl. fol., 14. **c**: G. Ív., 14. **d**: Brit. mus. 174., 16.)

1.

Hústrúin talar við sinn son:
„leitaðu þèr að úngri kon!“
það heiðrar so margan riddara.

2.

Með sinn son:
„leitaðu þèr að úngri kon!“
„Kæri mín móðir, gerðu á skil:
hvar vísar þú mèr brúðar til?“
það heiðrar so margan riddara.

3.

Gjörðu á skil —
„Eirek nefni eg kónginn þann,
fyrir Svíaríki ræður hann.

4

Kónginn þann —
Hann á sèr þær dætur fimm:
ná máttu þèr einni af þeim."

5.

Dætur fimm —
Gunnlaugr bjó til skip og her,
so siglir hann fyrir Ölvers-sker.

6.

Skip og her —
Hann gengur á land með drengja sveit:
þar inni drekkur hirðin teit.

7.

Drengja sveit —
Eirekr hóf sín málin grimm:
„kjóstu þèr víf af meyjum fimm!“

8.

Málin grimm —
Gunnlaugr bjarta brúði hlaut:
hann sigldi með hana þaðan á braut.

9.

Brúði hlaut —
Hann flutti hana heim til landa sín,
og lèt hana blanda bjór og vín.

10.

Landa sín —
Hann setti hana á einn gullegan stól,
og lèt hana sjá sín eðla ból.

11.

Gullegan stól.
og lèt hana sjá sín eðla ból.

Hann setti hana niðr með einum hætti,
þar sem grasið grundu mætti.
Það heiðrar so margan riddara.

---

*Overskrift:* Gunnlaugs kvæði. **a**; Kvæði af Gunnlaugi, **bcd**.
*V. 1, l. 1* við, *sål. alle fire afsk. her. men i n. v.* **a**: með, **bcd**: við.
*V. 2, l. 3.* kæri, **bc**: kæra.
*V. 3, l. 2.* kónginn, **b**: konúnginn (*ligeså i n. v.*). *L. 3.* hann, *fattes i* **d** (*ligeså i gentagelsen).*
*V. 4, l. 2.* þær, **bc**: úngar. *L. 3.* máttu þèr, **bc**; **ad**: muntu þar (*ligeså i gentagelsen*). *L. 3.* þeim, **bc**; *fattes i* **ad** (*ligeså i gentag.*).
*V. 5, l. 3.* Ölvers-sker, **c**: Elvarsker (*ligeså i gentag*). *L. 3.* fyrir, **d**: inn fyrir, (*ligeså i gentag.*).
*V. 9, l. 3.* og, *fattes her i* **b** (*men står i gentag.*). *L. 3.* hana, **bc**: henni (*ligeså i gentag.*).
*V. 10, l. 3.* eðla ból, **bcd**: aðalból (*ligeså i gentag.*).

---

# 64.

## Sigríðar kvæði.

Sigurd lander med sine guldsmykkede snekker ved en ø og bejler til Gunløgs søster Sigrid, men får afslag. Da siger han til Gunløg: væn er vel din søster, Sigrid, men fagrere mø er dog på mine skibe. Gunløg svarer i vrede: tolf guldringe vædder jeg på, at det er ikke sandt. Sigurd går

ned til sit skib og byder sin søster Sidsel at følge med sig. Fuldt smykket træder Sidsel ind i hallen, fulgt af sine fem møer; hun sætter sig der ved drikkebordet, men Sigrid talte ikke til hende. Alle beundrede Sidsels skönhed, hvorover Sigrid bar stor avind. — Det blev enden på visen: at den stolte Sigrid fik barn med en træl.*)

---

(a: Giss. Sv., 4. b: kgl. fol., 4. c: G. Ív., 4. d. Brit. mus. 174., 6.)

1.

Sigurðr lendir skipunum
við eina ey:
gulli voru þau búin
með fagri fley.
Svefn öngvan má eg sofa.

2.

Sigurðr biður Sigríðar
sem hann kann:
hún vill ekki eiga þann
hinn væna mann.

3.

„Væn er hún Sigríður,
systir þín:
þó finnst annað fegra fljóð
á skipum mín."

---

*) *Denne sidste sætning indeholdes i v. 10, som findes i abd men fattes i c; måske er det uægte og tilsat efter at visens ægte slutning (hvad den nu kan have været) var tabt.*

4.

En svo svaraði hann Gunnlaugr
og varð við reiðr:
„eg skal gefa þèr hrínga tólf,
ef það er ei."

5.

Sigurðr gengur stuttan veg
til skipa sín:
„stattu upp, Sesselía,
systir mín!"

6.

Sesselía klæddi sig
í stakkinn blá,
silfrinu temprar hún
þar utan á.

7.

Sesselía klæddi sig
í safala-skinn:
svo gengur hún í höllina inn
með meyjar fimm.

8.

Sesselía settist undir
drykkju-borð:
ekki mælti hún Sigríður
við hana orð.

9.

Öllum þótti hún Sesselía
væn að sjá:
þar lèk henni Sigríði
öfundin á.

10.

Svo lyktaði kvæðinu
fyrr og nær:
Sigríður átti barn
við borgar-þræl.
Svefn öngvan má eg sofa.

---

*Overskrift:* Kvæði af Gunnlaugi og af [*fattes i* **bcd**] Sigurði.
*Omkvæd*: eg sofa, **bcd**: eg því sofa.
*V. 1, l. 3.* þau búin, **bc**: b. þ. *L. 4.* **bc**: hinu fögru fley [*fattes i* **b**]. *L. 4.* fagri, **d**: fögur.
*V. 3, l. 3.* fljóð, **d**: fljóðið. *L. 4.* skipum, **d**: skipunum.
*V. 4, l. 4.* **bc**: ef sá finnst heiður. *L. 4.* ei, *fattes i* **d**.
*V. 5, l. 3.* upp, **bc**: upp og klæðst.
*V. 6, l. 1.* klæddi sig, **bc**: klæðist. *L. 3.* **c**: og silfri temprar. *L. 3.* hún, *fattes i* **d**.
*V. 7, l. 2.* í, **bc** [*fattes i* **d**]: með. *L. 3.* inn, *fattes i* **bc**.
*V. 10, fattes i* **c**. *L. 2.* fyrr, *således alle afskr.; skrivf. f.* firr *eller* fjær? *L. 3.* Sigríður, **bd**: önnur þeirra [*fattes i* **d**].

---

# 65.

## Bóthildar kvæði.

Peder hedder en bonde, der bor ude ved å; han har tre væne døttre. Han lader brygge og blande og reder et

gæstebud for kongen og alle hans mænd. Mellem dem var Lave staller. Han siger

Hør du det, Peder, selle min:
giv du mig Bodil, datter din!

Men Peder svarer:

Det gör jeg aldrig, mens jeg må leve:
at jeg skulde dig hende Bodil give.

Da drager Lave sit sværd og hugger til Peder, som da for at frelse sit liv lover Lave sin datter.

Bodil vågner ved våbengnyet og kalder mænd til hjælp, men får til svar (formodenlig af faderen):

Ikke da kan jeg hjælpe dig,
ti Laves svende de holde mig.

Så tog Bodil selv sværd i hånd og vog Lave staller; og derefter gik hun i kloster:

Bodil hun holdt så vel sin tro:
hun gav sig i kloster med femten bo.

Denne vise kan sammenlignes dels med en **dansk**: i Danm. gl folkev. nr. 189, der også haves på **svensk**: hos Arwidsson, nr. 29, og på **norsk**: hos Landstad, nr. 21; dels med en anden **dansk** vise om Lave Pedersen: i Danm. gl. folkev nr. 199. der, da han forgæves har søgt at lokke Ebbes datter, vil trænge ind i hendes bur ved nattetid, men der får en hånd afhugget af hendes fader.

---

(**a**: Giss. Sv., 17. **b**: kgl. fol., 17. **c**: G. Ív., 17. **d**: Brit. mus. 174., 19.)

1.

Býr einn bóndinn upp með á,
hann á sèr þær dætur þrjár.
Lætur hann byrla og blanda.
Því nú er hann einn staddur í þeim vanda.

2.

Vanda,
boð fyrir kóng að senda.
Boð fyrir kóng og alla hans menn.

3.

Alla hans menn,
Logi stallari kom þar inn:
„heyrðu það, Pètur, solli minn!

4.

Solli minn:
giptu mèr Bóthildi, dóttur þín!“
„Það gjöri eg aldrei á meðan eg lifi.

5.

Meðan eg lifi:
frú Bóthildi að eg þèr gefi.“
Logi sínu sverði brá.

6.

Sverði brá,
minnilega til Pèturs hjá.
„Hættu þig, Logi, högg ei mig!

7.

Högg ei mig!
frú Bóthildi gef eg þèr.“
Vaknaði hún Bóthildur, upp að hún sá.

8.

Upp að hún sá:
„hver er sá maðr, að hjálpa má?“
„Eg þori ekki að hjálpa þèr.

9.

Hjálpa þèr,
því Loga synir halda mèr.“
Frú Bóthildur hún vó þann mann.

10.

Vó þann mann:
Logi stallari heitir hann.
Settist hún í helgan stein.

11.

Helgan stein,
bætti hún um fyrir öllum mein.
Bóthildur sitr og heldr sinni trú.

12.

Heldr sinni trú:
hún gefst i klaustur með fimtán bú.
Vendi eg mínu kvæði í kross.
Því nú er hann einn staddur í þeim vanda.

---

*Overskrift*: Bóthildar kvæði, **a**; Kvæði af Bóthildi, **bcd**.
*V. 1, l. 2.* þær, *fattes i* **d**; **bc**: fríðar.
*V. 2, l. 2 og 3.* kóng, **b**: konúng.
*V. 4, l. 3.* á, *fattes i* **bcd**.
*V. 5, l. 2.* að, *fattes i* **bcd**.

*V. 6, l. 3.* ei, **b**: eigi.
*V. 7. l. 2.* gef eg þèr, **a**: eg þèr gef.
*V. 11, l. 2.* um, *fattes i* **bc**.
*V. 12, l. 2.* gefst, **bc**: gafst.

---

# 66.

## Íngu kvæði.

1.

Liden var stolt Inge,
— I grönnen skov —
så ene rider hun til tinge.
— til jomfruens bur at ride.

2.

Kongen taler til ridder' sin:
„Jeg ser en jomfru til tinge ride."

3.

Kongen han lod spörge dertil:
„Hvad mon den jomfru ad tinge vil?"

4.

Det svared den liden smådreng:
„Hun er udridende at skue eders mænd.

5.

Men enten er hendes kjortel for sid,
og heller hendes kåbe den er for vid."

6.

Og alt da holdt den jomfru så mod,
hun lydde på den smådrengs ord.

7.

„Havde jeg ikke haft på [at] kære,
da havde jeg meget heller været hjemme end here.

8.

Og havde jeg ikke mit ærinde vist,
da skulde jeg vel have hjemme sidt.

9.

Men ikke da er min kjortel for sid,
min kåbe er vel til måde vid.

10.

Hør i, danerkongen, vil i mig høre?
jeg haver en sag for eders nåde at føre.

11.

Jeg var mig så lidt et barn,
så tidlig faldt mig moder fra.

12.

Min fader satte mig liden på sit knæ,
han skifte med mig både guld og fæ.

13.

Han leved ikke med mig foruden et år,
så rådte jeg ene for al den bo.

14.

Igen så leve min' morbrøder ni,
alt mit gods forødte di.

15.

De skær min ager, de slår min eng,
de lokke fra mig både pige og dreng.

16.

De tage fra mig både okse og ko,
de lokke mine svende fra mit bord.

17.

Men för end det skulde så længer blive,
da vilde jeg eders nåde mit fæderne give."

18.

„I haver tak, jomfru, for eders gave!
hvilken af min' ridder' da vil i have?"

19.

„Havde jeg kår, og måtte jeg tage,
her Ove Stiesen så vilde jeg have."

20.

„Stat op, her Ove, og svar for dig!
her er en jomfru, vil have dig."

21.

Op stod her Ove og svared for sig:
„Skön jomfru! i får intet af mig.

22.

Langt bedre kan jeg min' ærmer snöre,
end jeg kan den bomand være.

23.

Langt bedre kan jeg med høg og hund,
end jeg kan lade drive din plov i grönne lund."

24.

„Da sidder i karm og ager med mig!
så god en bondesæd da lærer jeg eder.

25.

Tager plov i hånd, lader plöje vel dybt!
tager korn i hånd, sår mådelig tykt!

26.

Og lader så harven efter gå!
så må i vel jomfruens fæderne nå.

27.

I værer ikke niding over eders bord!
så får i vel en dannemands ord."

28.

Det var stor lyst at høre den ro:
her Ove gav den jomfru sin tro.

29.

Hun red til tinge hun var så ene:
kongen fulgte hende siden hjem med alle sine mænd.

30.

Der var glæde og halvstörre gammen
--- I grönnen skov --
her Ove og stolt Ingelil blev given til-sammen.
— til jomfruens bur at ride

---

Denne **danske** vise, der findes trykt i Danm. gl. folkev. nr. 222, viser os en fuldstændigere skikkelse af nærværende islandske og kan træde i steden for en angivelse af dennes indhold.

---

(**a**: Giss. Sv., 16. **b**: kgl. fol., 16. **c**: G. Ív. 16, **d**: Brit. mus. 174., 18,)

1.

Úng var hún Ínga,
hún reið sig til þínga,
hún reið sig á velberið þíng,
hún talar við danskan konúnginn.
Hvar á land sem hún er.

2.

Velborið þíng,
hún talar við danskan konúnginn:
„Eg á mèr þá bræður þrjá,
þeir halda öllu því eg á.
Hvar á land sem hún er.

3.

Bræður þrjá —
Eg á mèr þá bræður fimm,
allt mitt gózið er hjá þeim.

4.

Bræður fimm —
Ef það á svo lengi að vera,
vil eg það mínum herra gefa.“

5.

Lengi að vera —
„Hafðu þökk fyrir gáfur þín!
kjóstu þèr mann af riddurum mín!“

6.

Gáfur þín —
Íngu varð svo skjótt til svara:
„Loga Stígsson vil eg helzt hafa.“

7.

Skjótt til svara —
Logi gaf þá svar fyrir sig:
„eg kann svo lítt í búmanns sið.

8.

Svar fyrir sig —
Betr kann eg við skjöld og spjót,
úngum riddurum ríða á mót.“

9.

Skjöld og spjót —
„Þú skalt ei það lengi læra,
hvernig þú átt þinn búk að hræra.

10.

Lengi læra —
Taktu þinn hest og ríð með mèr!
búmanns sið skal eg kenna þèr.

11.

Ríð með mèr!
búmanns sið skal eg kenna þèr."
Riðu þau svo til hallar heim,
líkaði fullvel báðum þeim.
Hvar á land sem hún er.

---

*Overskrift*: **a**: Íngu kvæði; **bcd**: Kvæði af Loga og Íngu.
*Omkvæd*: land, **bc** *overalt*: landi.
*V. 1, l. 2.* hún, **bc**: er hún. *L. 4.* hún, **bc**: og. *L. 4.* konúnginn, **b**: konúng: **c**: dögling (*samme læsemåder i n. v.*)
*V. 2, l. 4.* halda, **d**: halda á (*ligesá i gentagelsen*). *L. 4.* því, **c** *her*: sem (*i gentag.* því).
*V. 4, l. 3.* vil eg það, **ad**: það vil eg (*ligesá i gentag.*).
*V. 6, l. 3.* Loga, **b** *har i gentag.*: hann Loga.
*V. 7, l. 2.* þá, **bc**: það. *L. 3* svo, *fattes i* **bc** (*ligesá i gentag.*).
*V. 9, l. 2.* ei, **b**: eigi. *L. 3.* hræra, **a**: bera (*ligesá i gentag.*).
*V. 10, l. 3.* **a**: eg skal kenna þèr búmanns sið (*ligesá i gentag.*).
*V. 11, l. 3.* þau, *fattes i* **bc**. *L. 3.* þau svo, **d**: svo þau.

# Efterskrift.

Efter at det gennem hr. cand. mag. Pálmi Pálsson var meddelt, at der blandt afd. prof. Sv. Grundtvigs literære efterladenskaber befandt sig en nogenlunde fuldstændig samling af materiale til fuldendelsen af de af ham i forening med afd. arkivar Jón Sigurðsson for det nordiske Literatur-Samfund udgivne *Íslenzk fornkvæði* (1—3. hæfte, Kbh. 1854—59) — deraf dog kun forholdsvis få kvæder, af udgiverne bestemte til at udgöre fortsættelsen af det sidst offenliggjorte, der kunde betragtes som færdige til trykning —, besluttede bestyrelsen for „Samfund til udgivelse af gammel nordisk litteratur“ som arving af Nordisk Literatur-Samfunds midler om muligt ved udgivelsen af et 4de hæfte at afslutte 2den del af de af det ældre Literatur-Samfund bekostede fornkvæder. På årsmødet 1885 erhvervedes derfor generalforsamlingens bemyndigelse til ved optagelse af den fornødne kapital at udgive det af afd. prof. Sv. Grundtvig til trykning forberedte materiale som et slutningshæfte, der uden at omdeles som årsskrift vilde komme i handelen. Udgivelsen heraf overdroges hr. cand. P. Pálsson, hvis arbejde således væsenlig har været en bestemmelse og ordning af det foreliggende materiale, med fremdragelse af hvad der måtte ansés for at være fuldstændig færdigt til trykning og således kunde frem-

træde som de tidligere udgiveres eget arbejde. Enkelte henvisninger har han tilföjet og optaget nogle, af prof. Sv. Grundtvig senere tilföjede bemærkninger på deres rette plads (f. eks. nr. 61, s. 237 henvisningen til den danske folkevise, af Grv. kun antydet ved et „DgF. 269"). Endvidere har han gjort enkelte tilföjelser, hvorom der ikke havdes noget i de foreliggende arbejder, sål. afvigende læsemåder fra enkelte, udgiverne ikke bekendte håndskrifter (f. eks. Brit. Mus. 174), samt tilföjelsen af de to sidste opskrifter af nr. 61. Ásu dans (E. og F.). — Den her således offenliggjorte afslutning på 2den del af Íslenzk fornkvæði udgör s. 217—331, samt indholdsliste; endvidere medfølger titelblade til bægge bind.

Kbh. Juni 1885.

Best. f. Samf. til udgivelse af
gammel nordisk litteratur.



